# LJÓÐMÆLI

eptir

**ÞORLÁK ÞÓRARINSSON,**
prófast í Vaðlaþíngi.

---

**NÝ ÚTGÁFA,**

stórum aukin, endurbætt og löguð.



---

**ÚTGEFENDUR:**

JÓN PJETURSSON og EGILL JÓNSSON.

REYKJAVÍK, 1858.

Omne tulit punctum
qui miscuit utile dulci.

---

Sónar laga flæðin flest,
finni daga-gæðin brest;
þegar bagar mæðin mest,
mörgum haga kvæðin bezt.

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ DEDERDING OG COHEN.

1858.

# Formáli.

Ýmsa kveðlínga og vísur eigna menn Þorláki prófasti Þórarinssyni á Ósi, er eigi hafa enn verið prentaðir; en varlegt er þó nú, þar svo langt er um liðið síðan hann var á dögum, að trúa eintómum munnmælum manna í því efni. Við höfum haft undir hendi kvæðasafn nokkurt, er að öllum líkindum hefir verið ritað af Grímúlfi presti Bessasyni; eru þar á ýmsir kveðlíngar eignaðir Þorláki prófasti, sumir þeirra hafa fyrr verið prentaðir, en nokkrir eigi; í hinum prentuðu er víða nokkur orðamunur við það, sem í kveri þessu stendur. Með því nú að ætla má, að sèra Grímúlfur, er var skáld gott, hafi eigi eignað önnur kvæði Þorláki prófasti, en þau er hann með nokkurri vissu hefir vitað að eptir hann voru, þá höfum við nú ráðizt í að láta prenta kvæði Þorláks prófasts að nýju eptir fyrr nefndu handriti, og vonum við að þetta safn verði álitið öllu

rèttara, en það er menn híngað til hafa á prenti haft, eins og það líka er miklu fyllra [1].

Við skulum nú segja aðalágrip af æfisögu Þorláks prófasts, eins og fyrr hefir verið gjört í hinum prentuðu Þorlákskverum, og er það á þessa leið: Þorlákur var fæddur að Látrum á Látraströnd í Þíngeyjarþíngi á messudag Þor-

1 Auk handrits Grímúlfs prests hefir og annað handrit verið haft við útgáfuna, það handrit er nú í handritasafni Deildar hins Íslenzka Bókmenntafèlags í Kaupmannahöfn; hefir Ólafur Briem sent fèlaginu handritið, svo það er komið úr átthögum skáldsins. Handrit þetta er eigi skrifað seinna en um aldamótin, því aptan á sendibrèf, sem er fest utan um kverið, er skrifað: »Helga Þorsteinsdóttir á þetta kver 1809«. Sendibrèfið er skrifað í Kristnesi (í Eyjafirði) í janúar 1774, og undir því stendur Ch (Kristín?) Þorsteinsdóttir, er vel getur verið hafa systir Helgu; brèfið er eigi skrifað með kvennmanns heldur með karlmanns hendi, og er hin sama hönd á brèfinu sem framanaf á handritinu. Eptir þessu hefir skrifari handritsins verið uppi samtíða skáldinu og litlu síðar, og lifað í sömu sveit, svo að allar líkur eru til að öll kvæðin sè hèr rètt feðruð. Á handriti þessu standa nú öll hin sömu kvæði, sem í hinu prentaða, nema svo sem ein þrjú eða svo, og eins öll þau kvæði, er voru umfram í handriti Grímúlfs, og svo nokkur kvæði enn fleiri; þau höfum vèr flest tekið, og alstaðar borið kvæðin saman; leizt oss og þetta handrit bezt, og höfum því fylgt því framast.

A. Ó.

láks biskups hins helga, 23. desembermánaðar árið 1711. Faðir hans var Þórarinn bóndi á Látrum, son Þorláks stúdents Þórarinssonar prests Ólafssonar; sá Þórarinn Ólafsson var fyrst djákn að Þíngeyrum, síðan prestur í Grímsey og seinast að Bægisá til 1664. Kona Þórarins Ólafssonar og móðir Þorláks stúdents var Málmfríður Jónsdóttir, Stígssonar prests á Miklabæ í Blönduhlíð, launsonar Bjarnar prófasts að Saurbæ í Eyjafirði, Gíslasonar, Hákonarsonar, Hallssonar, Finnbogasonar gamla á Ási í Kelduhverfi, Jónssonar langs, er fèll í Grundarbardaga árið 1362. Kona Þorláks stúdents og föðurmóðir Þorláks prófasts hèt Valgerður, dóttir Einars prests á Myrká, Magnússonar. Móðir sèra Þorláks og kona Þórarins hèt Þorgerður, Eyjólfsdóttir, Hallssonar, Finnbogasonar; en móðir þess Eyjólfs var Sigríður, dóttir Sigfúsar[1] í Hlíðarhaga, Ólafssonar prests í Saurbæ, Árnasonar,

1 Í hinum eldri Þorlákskverum er móðurfaðir Eyjólfs talinn Sigfús Ólafsson hálfbróðir Haldórs lögmanns Ólafssonar; en við höldum þetta rèttara. Sigfúsi Ólafssyni, halfbróður Haldórs lögmanns, eru í ættartölum talin allt önnur börn, og ein dóttir hans hèt Helga, er átti sèra Þorlákur í Glæsibæ, son fyrrnefnds Sigfúsar Ólafssonar prests.

Brynjólfssonar, og Haldóru Guðmundsdóttur, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar officialis í Múla. Þorlákur prófastur var skírður af Halli presti Eiríkssyni í Höfða; síðan ólst hann upp hjá foreldrum sínum, unz hann var 11 vetra; var hann þá tekinn til fósturs og menníngar af klausturhaldara Hans Skevíng og konu hans Guðrúnu Vigfúsdóttur, er gengu honum í góðra foreldra stað, settu hann til bóklegra mennta og komu honum 15 vetra gömlum í Hólaskóla. Þaðan var hann eptir 5 vetra dvöl útskrifaður með góðum vitnisburðum. Ári síðar, er hann hafði einn um tvítugt, var hann settur af Steini biskupi djákn að Möðruvallaklaustri, og gegndi hann því embætti með árvekni í 14 ár. Um þær mundir eður árið 1738 gekk hann að eiga Guðrúnu Þórðardóttur; hún lifði hann einúngis fáar vikur. Reistu þau bú að Reistará hinni syðri og bjuggu þar fyrst í tvö ár, síðan fluttu þau að Ósi, og höfðu þar bú meðan þeim entist aldur til. — Árið 1745 var honum veitt af amtmanni Pingel Möðruvallaklausturs brauð; var hann þá vígður sunnudag hinn fyrsta í jólaföstu af stiptprófasti Þorleifi Skaptasyni, en settur inn á brauðið 12. desembermánaðar sama ár af Þorsteini prófasti Ketilssyni. Árið 1751 var hann kosinn

og skipaður prófastur í Vaðlaþíngi af Haldóri biskupi Brynjólfssyni; en á þriðja ári þar eptir sagði hann af sèr prófastsembættinu sökum örðugleika sóknar sinnar og ýmislegs annríkis, en hèlt þó áfram að þjóna prestsembætti sínu, og hafði bærilega heilsu, þangað til hann hálfu öðru ári áður en hann dó fèkk visnun í vinstri hendina; hrörnaði honum síðan æ meirr og meirr, einkum frá hinum seinustu sumarmálum, er hann lifði. Áleit hann heilsubrest þenna sem bendíngu þess, að hann mundi þá eiga skammt eptir ólifað, og 9. júlímánaðar 1773 drukknaði hann í Hörgá, er hann fór yfir um hana, á nokkuð sviplegan hátt, eptir því sem sagt er; var hann þá 61 árs gamall. Hann hafði skírt á þessum tíma 432 börn, gefið saman 80 hjóna, súngið yfir 422 dauðum og fermt 142 úngmenni. — 6 börn átti hann alls með konu sinni: 5 sonu, hètu 3 þeirra Benidiktar, 4. Þórarinn og 5. Jón, er allir dóu úngir; og eina dóttur, er upp komst, hún hèt Sigríður; giptist hún síðar Hallgrími hreppstjóra Einarssyni á Ósi, er sagt er að kominn væri af Axlarbirni. Börn þeirra voru þau: Þorlákur prestur á Skinnastöðum, er átti Guðrúnu Ásmundsdóttur frá Silfrastöðum; Rósa, er

Sveinn Rögnvaldsson á Áslákstöðum átti, og Guðrún, er giptist Jóni nokkrum Jónssyni. — Hálfdán skólameistari Einarsson lýsir þannig Þorláki prófasti:

„Í sínu dagfari var hann mjög siðprúður, stilltur og hógværr, í viðskiptum við fátæka og sjúka góðgjarn og hjálparsamur, fyrir sóknarfólki sínu umhyggjusamur, því nákvæmur og ástsæll. Eptir þeirri þekkíngu er kunnugir menn höfðu um hann, var hann guðhræddur og yfirvann mótblástur sinna óvina með kyrlæti og þolinmæði. Sèrdeilis var hann góðu hugviti og eptirþanka prýddur til bóknáms og snotrar meðferðar á því sama, hvað hann og alla stund kostgæfilega iðkaði, sjálfum sèr og öðrum til nytsemdar, til guðræknis og kristilegra dygða uppörfunar.“

Útgefendurnir.

# NIÐURRÖÐUN LJÓÐMÆLANNA.

---

(Prentvilla — Senn f. Sem, 205. bls. 2. l. n. m.).

# I.

# SÁLMAR OG NOKKRAR SAMSTÆÐUR.

---

## Nýárssálmur,

kveðinn í minníng ársins 1735, þá urðu mannskaðar miklir og fjárfellir á Norðurlandi.

Lagið: Eilíft lífið er æskilegt.

Nýárs upprunnin nú er enn, náðar og alda sól; vaxi þinn prís og virðíng þrenn, vor Guð á himna stól, fyrir það mildust forsjá þín, frið voru landi jók, sèrhver maklegri synda pín, síður án vægðar tók; hefir oss einnig haldið við, heilaga trú og kristinn sið, fyrir þíns anda friðarmál, og fögur sakrament; höggormsins vanað vèlatál, vorri svo fengir lènt, Jesú blóðunda svölun sál, syndum og raun afvent.

2. Líkamans heilsu, frið og fjör, fylgd engla, þol í pín, ærunnar byr og öll góð kjör, oss veitti gæzkan þín; hjartans þýðustu þakkir mót, þiggðu nú, Faðir kær! vèr af auðmýktar innstu rót, allir framberum þær; angráðir þó í annan stað, yfir vort höfuð játum það, hnálega syndgazt höfum vèr, hrygt og slökkt andann þinn, þegið vort brauð óþakkláter, því stynur himininn; gott vèr með illu gjöldum þèr, gæzkunnar brunnurinn!

3. Vorar hugsanir, verk og mál, vanin til gjálífis, hrella þinn frið, en særa sál, sökuð alls ranglætis: öfund, kíf, hæðni, last og lygð, leti, smán, heiptar gróm, metnaður hjartans með ótrygð, makar oss þúngan dóm; já, yfir svoddan glæpa gnótt, gráta þín augu dag og nótt; blindaður hver í blóði sín, braut ok, en togin sleit. Enginn lifnaðarumbót skín, ei stoðar bendíng neyt; mest er því von að mæðist þín, miskunariður heit.

4. Hèr fyrir slær vorn hug óspart, hafir þú, Drottinn klár! þreskjunarvendi þínum hart, þjáð oss umliðið ár; missir atvinnu margra bjó, meðlætis kjörum stans, mannskaða hrísi hrökktir þó, hèr á bygð Norðurlands; fáráðar ekkjur fæðir sorg, föðurlaus börnin veina

mörg; höfuð, rif, armur, augna ljós, eru þeim skilin frá, lífið ástvina, lukkuhrós, líkamans og þar hjá, anda þíns blástur yfir jós, ofraun og dauðans þrá.

5. Æ, Drottinn! hvað er aum mannkind, ef þú vilt ganga í dóm? Rètt fyrir þínum reiðivind, ryk, eimur, fis og hjóm; líkamir vorir, eign og önd, enga sèr finna hlíf, nema þín blessuð náðarhönd, næri vort auma líf; sèrtu blíður, er synd öll hægð; sèrtu reiður, finnst engin vægð, skjól, huggun eða skaðabót; skepnan af eðli sín, öll er oss fallin með og mót, minn Guð, að vilja þín; þó fyrir vonzkuverkin ljót, veldur hún mannsins pín.

6. Æ, hve margvísleg mótgangs kjör, mæða hèr syndugt hold! ó, hve mörg brugðin banaör, brestur að vorri mold! Vindanna skæðu voðamegn, vötn og hafsbylgjurnar, herja með æði oss í gegn, unz nárinn liggur þar; síblaktir önd við sorgareim, svo gengur allt í þessum heim; herðir æ stríð, en hlífar mást, hug veikir, fjölgar und; kraptar útrenna, þol vill þjást, þokar að dauðastund. Jesú! þín trygð og eilíf ást, inndæli síðsta blund.

7. Sýnum veraldar syrtir kvöld, sáðtímann líður á, dregur að höndum dægur köld, Drottinn Guð! vert oss hjá; rètt oss ei þína reiðiskál, ranglætis drykkjuðum, vægðu líkama, vægðu sál, vægðu lífshögunum. Allra sætasta lífsins lind, lát þú oss ekki deyja í synd, útskúfaða um eilífa tíð, augliti þínu frá, hèr þó oss megi mörg og stríð, mótlætis bylgjan þjá. Guð minn! þær stundir gef um síð, glaðir mættum þig sjá.

8. Fögnuð með ári fersku nú, færi þín hjartans trygð, öllum, sem halda helga trú, hvar þeirra stendur bygð; veður sætustu, vægð og náð, vor Guð! af hæð auðsýn, huggun, frið, vörn og hjálparráð, heilagri kristni þín; set hana þèr einn signetshríng, sjáðu til hennar allt um kríng; kónga, dómara, kennivöld krapti þíns anda gæð; villu, pest, húngri, vo-styrjöld, ver oss, en trúna glæð, syndum eyð, harmasárin köld, sèrhverra mýk og græð.

9. Árið fagnaðar oss þú gef, árið helgunar þó, árið farsældar ekki tef, af himni, jörð og sjó; árið, sem færir engin slys; árið lífsbetrunar; árið góðs friðar innbyrðis, ár syndakvittunar; þakklætis ár við þverran kífs,

þolgæðis ár í nauðum lífs, hressíngar ár þeim hugmæddu, hjálpar ár nauðstöddum, lækníngar ár þeim lemstruðu, lausnar ár herteknum, svölunar ár þeim sorgbitnu, sældar ár deyendum!

10. Ó, þú verandi veraldar, verulegt Á og Ó, uppruni lífs og endíngar, endalaus kraptur þó! minnstu þinn trygðaeið upp á, úthafin syndagjöld, nær þú oss alla nemur frá, nálægri sorgaröld; græt oss ei lengur, Guð minn trúr, gefðu við hægan andlátsdúr, skugganum hrindi skoðunarljós, þíns skæra réttlætis, láttu oss verða listirós, lausnarans Jesú Krists, glæsta með eilíft gleðinnar hrós, Guðs barna kjör yndis.

---

## Morgunsálmur.

Lagið. Hvar mundi vera hjartað mitt.

1. Dagurinn ljómar dýr og klár, Drottinn Guð, lof sé þèr; þinn gæzkublóma geislinn hár, gefur enn fögnuð mèr, af værðar dróma frí við fár, ferska eg hressíng ber, hugarins gróma sèrhvert sár, svo virztu lækna hèr.

2. Lífsins rèttinda ljós og mið, leiðsegðu mèr í dag, fárlegri syndaflekkun við, forðaðu

sálarhag, brjóstið veiklynda verm og styð, verk mín og auðnulag, sorg lát ei hrinda sinnufrið, svefn holdsins frá mèr drag.

3. Hvers kyns óförum hag minn sneyð, hafna vantrúar slóð, sárhúngurs kjörum, sóttar neyð, sverði, ræníngja þjóð, vindaþjóst örum, voða reið, vatns pín og skaða glóð, freistínga snörum, dómi og deyð, dýrst fyrir Jesú blóð.

4. Lífið mitt, æru, embættið, umhyggju, verk og ráð, heilsunnar kæru megni með, minn ástvin hvern á láð, vitsmuni, hræríng, vilkjör lèð, viðmót og sinnisdáð, útvegu, næríng, eign og fèð, allt fel eg þinni náð.

5. Meðan lífsstundin mín ei þver, mildasti Herra trúr! í vöku og blundi vertu mèr, voldugur hlífðarmúr; hels þegar mundin hætt að ber, heimleið mig sorgum úr, vörmustum undir vængjum þèr, við sætan andlátsdúr.

---

## Kvöldsálmur.

Lagið. Eins og sitt barn.

1. Enn er dags tíð, heims horfin lýð, hafnar sú þjáníng sinni; þökk sè, Guð, þèr, eitt afmælt er, eymdarspor mèr, á lífs handarbreidd minni.

2. Lífdaga skeið, og lífsins neyð, líðandi jafnt ágengur, sækir hvert kvöld, að sólaröld, sælu vanhöld, senn græt eg ekki lengur.

3. Glatt hefir þú, góði Jesú! geð mitt á þessum degi, sálunni hægt, högunum þægt, heilsunni vægt, haldið frá lasta vegi.

4. Mitt líf og önd, leiddi þín hönd, lèt enga hrellíng særa, uppfyllti þín, þolgæzkan fín, þörf alla mín; þèr sè lof, dýrð og æra.

5. Mein er það mitt, móðga eg þitt, miskunar hjartað góða, hverja kvöldstund, ber eg að blund, beiskari und, barmar sèr geðið móða.

6. Drottinn! eg bið, dæmdu þinn frið, dauðvona brjósti mínu; gef líf og náð, gleð hug og ráð, gjör brot afmáð, fyrir græðarans Jesú pínu.

7. Yfir mig nú, í nótt breið þú, næman væng ástar þinnar, nærblæjan mín, sè náðin þín, með nákvæmd sín, not fylli værðarinnar.

8. Í hjartað mitt, ilm og ljós þitt, andinn heilagur feri, synd, svefnórum, sorg, andvökum, og sjúkdómum, sál og líf öruggt veri.

9. Set ótta þinn, sængurvörð minn, sem allri meinvætt forði, þín herfylkíng, haldi sinn hríng, hús mitt um kríng, hlífð og vörn öllu skorði.

10. Lát ei mitt brjóst, bráðum helþjóst, í blundværðinni mæta, ef að ber skjótt, mín andláts nótt, önd gefðu rótt, afl dauðans lát ei græta.

11. Allt hvað mitt er, afhendi eg þèr, allri svo þvíngun hafni hús, kvinnu, hjú, börn, eign og bú, bevara þú, í blessuðu Jesú nafni.

12. Lát lífið mitt, líf elska þitt, lífs meðan æðar vaka, eptir heimskíf, útfofnað líf, í þína hlíf, ó, Jesú! virztu taka.

13. Þín dreyrug und, við dauðans blund, drjúpi værð öndu minni, sætt anntu mèr, sæll Jesú, hèr, að sofna í þèr, frá synd og armæðunni.

14. Festu, sál mín! faðmlögum þín, friðar og elsku bandi; þinn lofstír klár, og heiður hár, um öld og ár, eilífðar jafnan standi.

---

## Söngvísa af Jesú nafni.

Lagið. Heiðrum vèr Guð af huga' og sál.

1. Salve Jesú! mín sæta von, salve Jesú, Guðs einka son, fríðasti Jesú fólks á láð, frumgetni Jesú meyjar sáð, rós himna Jesú heiðri glæst, hrós engla Jesú dýrðaræðst, ljós manna Jesú líknar hæst!

2. Sól ertu, Jesú, sæði Adams, svarinn Jesús lýð Abrahams, braut lífsins Jesús brauð og hnoss, blessaður Jesús, Guð með oss, kónganna Jesús kóngur einn, kristninnar Jesús augasteinn, hjarðanna Jesús hirðir hreinn.

3. Þitt nafnið, Jesús, þægst ilmar, þitt nafnið, Jesús, vel smakkar, þitt nafnið, Jesús, þelsætt er, þitt nafnið, Jesús, allt kæter, þitt nafnið, Jesús, þrykkir pín, þitt nafn er, Jesús, brynjan mín, þíns nafns, ó, Jesú, dýrð ei dvín.

4. Tign ertu, Jesús, trúuðum, tilflugtið, Jesús, ofsóktum, sálarheill, Jesús, syndugra, saðníngin, Jesús, húngraðra, vegviltum, Jesús, vegur skír, veiklyndum, Jesús, kraptur nýr, sorgbitnum, Jesús, svölun dýr.

5. Signaði Jesús, Sarons rós, sætasti Jesús heimsins ljós, vertu mèr Jesús vægðarjafn, vertu mèr Jesús fyrir þitt nafn, vertu mín, Jesú, vörn um kríng, vertu mín, Jesú, friðþægíng, vertu mín, Jesú, vellystíng.

6. Minn Jesús þegar mæðan sker, minn Jesús þegar vilt eg fer, minn Jesús angrið mýkjandi, minn Jesús trúna verkandi, minn Jesús hèr á meðan blíf, minn Jesús yzt við dauðans kíf, minn Jesús allt í eilíft líf.

---

## Söngvísa í brúðkaupum.

Lagið. Þökk sè Þèr góð gjörð.

1. Friður hár, heill skær, hæsta guðdóms anda, síð og ár oss nær, yfir og með veranda, lýsi klár, viss, vær, vor svo næði standa, velferð án vanda.

2. Hverja stètt, erfð, ætt, og önd í kristindómi, Drottins rètt ráð sætt, reifi náðar blómi, gjöri afsett grand hætt, Guðs elskenda ljómi, sigur og sómi.

3. Hjónabands heit sönn, hag og skikkun alla, bjóði hans brjóstönn, blessan yfirfalla, kærleikans byrbönn, bæti, og rauna galla, græði gjörvalla.

4. Hèr í stað hæst náð, hressi þín ásjóna, innsiglað eitt ráð, eigingiptra hjóna, minnstu það með dáð, mildi og heill kóróna, sem þinna þjóna.

5. Trygða hrein tök vinn, trúareðli festa, sem augastein æ þinn, annast þú til bezta, harma grein hvert sinn, huggun ráði flesta, þín miskun mesta.

6. Nægsta dygð, náð, frægð, nærist þeim að yndi, rósöm trygð, ráð, hægð, ríka blessan myndi, beri stygð, bráð lægð, breytist í meðlyndi, sem skúr af skyndi.

7. Himin, ljós, láð, geim, lýð og skepnur bæði, foldar ós, sáð, seim, og sól hvað líta næði, lífsins rós lát þeim, leiða margföld gæði, og eyða mæði.

8. Jesú! þín þægst hönd, þjóð er bezt kann græða, hrygðar pín, blóð, bönd, beiskur dauði og mæða, þeirra skíni æ önd, og yfir láti blæða, gnótt alls kyns gæða.

9. Dauðans kíf ná nær, nakinn moldu reiðir, beggja hlíf veit vær, viður faðminn breiðir, eptir líf önd fær, Eliæ vagna leiðir, grið beinum greiðir.

10. Allan lýð æ þinn, ást og náð umtjalda, sefa stríð, sút grynn, sykra helið kalda, brúðkaupstíð oss ynn, undir sól að halda, ódáins alda.

---

## Stríðsandvarp kristins manns.

Lagið. Upphaf og hertoginn.

1. Upphef eg augun mín, eymstruð og táravot, á hjálparhendur þín, herra Guð Zebaot! Vatnsflóðin herða hlaup, hryggilegt inn að sál, við angur. værðin kraup, vanast ei harma skál.

2. Eg er í hættum heim, hans kala viðskiptin, sveipaður sorgareim, sjá þú það, Drottinn minn! forsvar ei finna má, frelsi nè vægðarhót, utan þèr einum hjá, öflugust meinabót.

3. Líkamans líf á jörð, lèmagna krympar sig, Andskotans heiptar hörð, helskeyti plága mig, hans ofin umsátur, ei rofna þar fyrer, meins, þó að minn dugur, mæðist að varna sèr.

4. Sverð andans, þá eg svaf, sítældi frá mèr hann, hjálpræðis hjálmi af, höfðinu svipt eg fann, rèttlætis brynjan brast, bilar og trúarskjöld, friðarskór forveikjast, feikn er óvinar köld.

5. Svo titrar sál mín veik, sárbeygð í nauðunum, líka sem lauf á eik, lamið í hreggviðrum; Djöfull, hold, heimurinn, helvíti, samvizkan, allt höggur að í senn, æsandi friðarbann.

6. Flest undanfæri hèr, fáráðan skortir því, dómarinn yfir er, undir kvalanna dý, eilífðin andspænis, á baki synda fjöld, armæðan umhverfis, allt fram á dauðans kvöld.

7. Lögmálið hrópar hefnd, hátt sem þá reið út brast, er hún því á mig stefnd, eg í synd þrávolkast, náttúran glæpagjörn, Guði

svo fráleit er, að hún víst alla þörfn, andlegrar heilsu ber.

8. Ó, mitt útlegðar stand! æ, mína sorgartíð! Hvar mun eg líf og land, langmæddur hitta um síð? Mínum hèrvistar hag, hnignandi jafnan fer; kvíði eg við dómsins dag, Drottinn Guð, vægðu mèr!

9. Allt er mitt eðli spillt, í frá getnaðar stund, allt holdið kaunum kvillt, kalin þó sèrhver und; hjartað í harma skúr, hefst æ við meinið sitt; lifandi dauðans dúr, deyjandi líf er mitt.

10. Alsnakinn, angurvær, ólst eg í þenna heim, marghrakinn, helber nær, hjarir mín sál, í þeim, firnari móður mold, mitt verður innsiglað, loksins nær nakið hold, nábleikt og örmagnað.

11. Svo er mitt særða líf, sífeldur blóðvaðall, hrygð, ömun, hætta, kíf, hègóminn einsamall, myrkur, haf mótlætis, mælir freistíngar rètt, krambúð full krankdæmis, keyri samvizku þètt.

12. Gleðin holds grætir sál, gáfurnar auka synd, vinsældir vinna tál, við heim ef slíkar bind; allt lífsins atgjörfi, öll vilkjör tímanlig, það í vanþakklæti, þvínga dóm yfir mig.

13. Pundið ei reynist rýrt, reikníngskapurinn hár, Herrans blóð harðla dýrt, hans reiði þúng og sár; lífið hætt, helið víst, helvítis pína ströng, ógnar mèr ekki sízt, eilífðin voða löng.

14. Ó, Jesú, Jesú minn, Jesú, mitt einkaráð! álíttu þrælinn þinn, þreyttan við heims ónáð; örvænting ekki leyf, inntaki sálu mín, Djöfuls makt alla deyf, dauðans grimmd, ógn og pín!

15. Ef þitt líf unni mèr, áður en heiminn skópst, og með örendum þèr, alla synd mína grófst; haltu því happinu, hennar lát minníng ei, uppkoma að eilífu, ákærum segðu nei.

16. Þíns dauða dýrast blóð, drifið úr hjartans æð, heims yfir hrjáða þjóð, hreinsi mín sárin skær; líf, huggun, lausn og frið, lènandi mæddri sál, hana svo hressi við, hjarta þíns benjaskál.

17. Fjötur, sem fót og hönd, frelsarinn, krömdu þín, glæpanna greiði bönd, gjörvöll af sálu mín; þolgæðis tempra tog, tregabönd öll mýki, drómanum dauðans og, deyfðum á burt víki.

18. Táranna flóðið frekt, flotið af augum þèr, gef þú að geti drekkt, girnd holds-

ins fast í mèr; en öll mín augna tár, uppregna látið hrein, í sjóð þinn síð og ár, sem náðin út af skein.

19. Brennheitur blóði með, blandaður sveiti þinn, inndæli ómæðið, andlitis sveitann minn, sá dauðans sveitabað, sefi þó einna mest, lífsins vötn eilíf að, af mèr svo framleiðest.

20. Svo bið eg sárin öll, sætasti Jesú, þín, angist og eymd gjörvöll, er þú barst vegna mín, meti svo mótlætis, minn skerf á alla grein, að andar ófrelsis, ei sjáist hörmúng nein.

21. Í þèr mig lifa lát, lát mig og deyja þèr; eilífum glæpagrát, Guð lífsins forða mèr; heims þegar líður ljós, líkamans augum frá, mín andar yndisrós, æ sèrt þaðan í frá.

22. Fel eg í forsjá þín, frelsarinn gæzkuhreinn, önd, líf og æru mín, orð, verk, sjón, mál og heyrn, efni, ráð, útrètting, ástvini, fjör og stand; þinn prís og þín virðíng, þróist um haf og land.

## Guðleg huggunarheilræði til trúarstyrkíngar, kveðin 1740.

Lagið. Rís upp, Drottni dýrð.

1. Rís upp angruð önd, ástarkveðju-fús, Talitha Kumi, til þín kallar Jesús, þèr í

himininn hátt, hrópar þíns óvinar skelfandi mátt, hver hans blóðdropi, helgun, frið og sátt; deyfð er dauðans mekt, Djöfuls haus marinn, syndum niðursökkt, sigraður heimurinn, Guð stríddi, Guð vann, Guðs líf til þín útrann, og allur sá sigur, sem í Guði fást kann.

2. Innsiglaði allt, andinn, vatn og blóð, á jörð eins himni, eru þess vitnin góð, réttur sá ei rekst, ráð Drottins blífur, þá allt annað hrekst, Guð svarinn þörf þinni, þér aldrei bregzt, engri vantrú vinnst, að veikja sannleik hans, æ trúfastur finnst, þó fölni trygðin manns; ef ávallt brýtur, árnaðartal ei þrýtur, þíns góða Jesú, þess yfir allt þú nýtur.

3. Hörstreng hrörlegan, halda lætur sér, vígsterkast leon; veik trú eins fangar hér, það afreks öfluga, útgengið leon af kyni Júda; Jesúm sigraði, Jakob aflvana; hvar sem trúarhönd, hann við snortið fær, enn þó blygðist önd, af honum krapti nær; geð glöggt ei nemur, Guðs nær ríki kemur, hulinn Guð hann er, og hulda verkan fremur.

4. Veikist vili þinn, og von án sjálfræðis, krapt Guðs út kallar, klögun þíns máttleysis; sek ef samvizkan, sinn dóm upp kveður, og

blygðast við hann, Drottins þig áfella dómur ei kann, auðmýkt ófölsuð, álit finnur þægt, það auma útvaldi Guð, upphóf niðurlægt, þig þar með styður, það öll kristnin biður, í helgum Anda, þèr aukist náð og friður.

5. Lát nú leiðast til, að líta á svoddan kjör, hress þig úr hættri, hugarmæðu kör; græt ekki Guðs náð, með grunsemd hans óblíðu, tak annað ráð, met öllu nægri þá miskunar dáð, sem aldrei útslökkur, eitt rjúkandi skar, en æ sèr innvefur, andir fáráðar; hann veit hvað hagar, hverjum sem hann agar, kross aflar kæti, koma sælli dagar.

6. Drottins ástarönd, sem allan stillir þjóst, með lífi og ljóma, leiptri þèr sætt um brjóst, hjartans æðum úr, ofraunir burtrými huggarinn trúr, og láti þèr upprenna skin eptir skúr! Jesú dreyra dygð, dauði og kvala bönd, stemmi þína stygð, en styrki líf og önd; sendi værð, sóma, sigur og náðarblóma, auðnist þèr öll hægð, í eilífum dýrðarljóma.

## Andvarp fyrir sjúkum og nauðstöddum.

Lagið. Heiðrum vèr Guð af hug' og sál.

1. Drottinn Jesús þèr veiti vægð, veiti þèr Jesús frið og hægð, lýsi þèr Jesú líknarsól, lífgi þig Jesú náðarskjól, stemmi Jesús þitt stygðar kvein, styrki Jesús þín marin bein, græði Jesús þín gjörvöll mein.

2. Augun Jesú þig á líti, eyrun Jesú þig bænheyri, höndin Jesú þèr hagræði, hjartað Jesú þèr miskuni, kvölin Jesú þinn kross mýki, kraptur Jesú þinn mátt hressi, líflát Jesú þín lífgun sè.

3. Blóðundir Jesú blæði þèr vægð, blóðsveitinn Jesú streymi þèr hægð, blóðug mynd Jesú bæti þitt kíf, blóðug tár Jesú gleði þitt líf, blóðug trygð Jesú bindi þèr sig, blóðböndin Jesú leysi þig, blóðrunninn Jesú bænheyr mig.

4. Drottinn blessi þig dýrðlegur, Drottinn geymi þig öflugur, ásján Drottins þig upplýsi, ó, Drottinn Guð þèr miskuni, snúist þèr Drottins auglit að, innsigli Drottins friður það, allt sem í Drottni eg þèr bað!

---

## Undirbúníngur undir dauðann.

Lagið. Um dauðann gef Þú, Drottinn! mèr.

1. Jesú mín eðla yndisrós, andar kraptur og sómi, heilsa, fögnuður, leiðarljós, lífs heill og von í dómi, hálofleguslu hátign þín, hneigir sig blygðug öndin mín, saurguð af synda grómi.

2. Þú ert einn Guð í himnum há, himneskri dýrð umvafinn, en eg er maður jörðu á, jarðneskri mæðu kafinn; lífið þitt allt er ljóminn hreinn, lífið mitt stundarskuggi einn, hvarflandi, senn úthafinn.

3. Eg reiknast visinn reyr fyrir þèr, reynist alls ekki parið, samt hvað eg vera sýnist hèr, sjá, það ei lengi varir; draumur og hljómur dvína skjótt, dagurinn líður snart að nótt, glasið út, gröfin þar er.

4. Allir straumar í æginn gá, öll stund að dauða flýtur, allar formyrkvar ein, og þá, innsigla dimman hlýtur; Drottinn! eg veit hún mætir mèr, mínum feðrum eg betri' ei er, þeir sýna hvað mig þrýtur.

5. Einn er skilmálinn alheimsþjóð, eitt er takmark hið beina eg er sáð Adams, eg er hans blóð, eg skal því dauðann reyna;

áhyggju, von og ótta ei þver, í mínu brjósti, fyrr en það sker, staður og stund sèr leyna.

6. Vertu því tíð og merki mèr, minn herra Jesú kæri! lát ei til dauðans deyja frá þèr, dauði þinn líf mitt næri, holla gjör endíng harmakífs, hólpinn svæf mig til eilífs lífs, í þèr Skaparinn skæri.

7. Í deyjanda lífi þreyi eg þrátt, það líf, sem hafnar dauða, fyrr bliknar hold og fellir mátt, en finni eg það án nauða; líf án dauða mèr lèntu þá, leitun þess ekki framar eg á, Jesú! lífsrósin rauða.

8. Heimurinn þrengir hætt að mèr, hjarta míns frelsi kefur, þyrstir mig frelsi því epter, þrengíngar sem ei hefir, friðarsælasta frelsið þitt, frelsarinn Jesú! gjörðu mitt, dauðans þá vald mig vefur.

9. Festu mèr trúarreynslu ráð, reyndum í þolinmæði, verka þoluga vonardáð, vongóður svo eg næði, margs kyns afþreyja mótlætíng, mína fullviss um útvalníng, sem þitt arftökusæði.

10. Gefðu mín framför grandvarleg, gjörvöll í heimi rætist, hóflega bæði hressist eg, og heilsusamlega grætist, hlýðugur líði harm og neyð, hugprúður stríði fram í deyð, síðan með sigri kætist.

11. Yfir mitt kalda andláts ból, ástvarma lind þín streymi, lífdaga minna síðstu sól, svo lát mig kveðja' í heimi, að skoðunardags við skæra brún, skíni forkláruð eins og hún, sálin firrð sútareimi.

---

## Andlátsandvarp.

Lagið. Eins og sitt barn.

1. Lifandi Jesú! líknaðu mèr, lindin eilífra gæða, mínar forláttu misgjörðer, eg mæni hèr, mæddur til þinna hæða.

2. Húmar nú degi, horfðu á það, og hægðu mèr líkams pínum, sig nálgar dauðans sveitabað, eg sè ei annað, en sorg fyrir augum mínum.

3. Lèmegna stynur lífið allt, lífsæðar taka að dofna, mýktu nú, Jesú! meinið kalt, mèr við þig halt, meðan eg útaf sofna.

4. Öll mannleg hjálp er á enda kljáð, allir senn frá mèr snúa, flyti mig nú þín föðurleg náð, á fegins láð, þar friðaðar andir búa.

5. Svo sem minn fyrsti vin þú varst, vert hinn síðasti líka, í heiminum mig á höndum

barst, úr hörmum skarst, hjástoð veit enn svo ríka.

6. Ef ekkert auga þyrmdi þèr, þegar mín varst að leita, harmþrúnginn, sveittur, blóðugur, ber, þá bjargaðu mèr, í beiskum andláts sveita.

7. Þú hefir allar þrautir mín, þjáður á herðum borið, skaut gef mèr þitt, nær skeiðið dvín, skepnunnar þín, skína lát síðsta sporið.

8. Ljós varstu mitt við laugarból, líf gladdi þín ásjána, vertu mèr eilíft andarskjól, og ununar sól, öll þá heimsljósin blána.

9. Láttu nú enga lesti mín, lengur aðskilnað gjöra, Drottinn Guð! milli mín og þín, mèr hægðu pín, miskunsamasta vera.

10. Æ, taktu frá mèr allt hvað mitt, er í dauðans líkama, en gef mèr síðan aptur hitt, allt hvað er þitt, og ódauðleikann sama.

11. Vísa eg allri veraldar lyst, virztu því mèr að dæma, eilífrar dýrðar óska-vist, sem allra fyrst, og angurs bikarinn tæma.

12. Ó, Jesú! kom og ekki dvel, upptak mig snart af jörðu, ó, Jesú! þèr minn anda eg fel, ástheitast þel, allt það fullkomnað gjörðu.

## Söngvísa um dómsdag.

Lagið. Langar mig í lífshöll.

1. Hjarta, sál og hug minn, hittir kvíðaraun frek, þá eg dýrðardóm þinn, Drottinn Jesú! mèr tek, ímyndaðan eins finn, illdaunandi holdsbrek, stór mörg og straffs sek.

2. Náðar þinnar lífs lind, lengi svölun mèr gaf, hefir laugað holds mynd, hegníngunni stýrt af, og firna margri fleytt synd, fram í Jesú blóðhaf, öldúngis á kaf.

3. En þar eg svo þráfalt, þína reiði sárgrem, og illt fyrir gott galt, gæzku þinni, mín sem, brot huldi, býst allt, böl, er fyrir dóm kem, ef þar ekki náð nem.

4. Þig ljúfan lít hèr, lausnari sæll minn, æ breiða mót mèr, miskunar faðm þinn; raust hirðis öll er, inndæl með krapt sinn, nú stendur náðin.

5. En þar mun eg þig sjá, þessa við heimskvöld, í dóms makt og dýrð há, dæmandi veröld, þjóð helga þèr hjá, og þín maktar hæst völd, reynd verða rètt gjöld.

6. Þá mun og fullfrekt, formyrkvuð heims sól, túngls birtu hætt hnekkt, her stjarna skin fól, stormveður voðalegt, vörn er kvíða sízt ól, dunar um þinn dómstól

7. Brátt stynur bár-veld, bylgjan um hafslón, frestar ei flugeld, fyrir þínum hátrón, örmagna, sútsvelld, sèr Júda kyns ljón, heimsaldar öll sjón.

8. Hver sem ei hel trað, hníga mun í dá, missir og með það, mál, heyrn og vit sá, umbreytíng í stað, öll verður gjör á, holdseðli hvers þá.

9. Vekur sömu við stund, vor Drottinn alheim, hast eyðir helblund, herlúður flokk þeim, er vötn og græn grund, gripu dauðans við eim, enginn býr að seim.

10. Úr straum og eins fold, andlegt, sem fyrr dó, rísa mun hvers hold, hörundi klætt þó, óþreifanleg ein mold, í krapti fram dró, með kvíða, með ró.

11. Sauði kiðum svo frá, sjálfur Herrann deilt fær, hægri skipar hlið þá, heilögum allkær, vinstri síðu vèk á, vondum reiður, óbær, sá grætur, hinn hlær.

12. Fær síðan fyrr dóm, hin fiðurbjarta Guðs örn: komið blessuð, fín, fróm, föður kæra míns börn, heitins erfið hýr blóm, hæsta ríkis án þörfn, eilíf skal veitt vörn.

13. Drekans úngum dýr seld, dauða-reið mun og slá: burt þið í báleld, bölvaðir mèr

frá, önd heiðri fjær feld, fjandanum skal hjá, og mig aldrei meir sjá.

14. Þar svelgir þann hóp, þanið vítis helgin, tanna gnýstran og óp, ei skortir það kyn, Guðs afar grimmd hljóp, gegn æðar, bein, sin, önd kvelur og skyn.

15. Djöfullinn dóm þá, dárleg fyrir verk sín, maklegan mun fá, mín gleði' er hans pín, ýskrandi heit, hná, helsótt, er ei dvín, plágar það pintsvín.

16. En Drottins öll hirð, englanna kjörhag, með kæti mun virð, merkir ei dóms slag, armæðu alfirrð, eilífan sèr dag, við söngva sætt plag.

17. Að heyrðum úrskurð, alveldis mun sèð, ljós verða lífs hurð, læst hendi Guðs með; efstan eg atburð, eyðileggíng heims kveð, sannlega er svo tèð.

18. Tekur himin heiðblár, hröpunar dynbrest, fellur og forgár, fjörbrotin við mest; í eldi jörðin öll stár, ei gefur neinn frest, allt verður líf lest.

18. Uppþornar sem sjór, salur vinda burt flýr, heimskrínglan heilstór, hverfur og öll dýr, ei sem væri allt fór, annar heimur þó nýr, heitinn er hagskír.

20. Forlaganna fyllíng, fær þannig veröld, hún sem áður um kring, illskunnar bar völd, sinn og við endíng, ærusnauðan hóp gjöld, sekkja lætur sárköld.

21. Líkt sem nætur launþjóf, litinn síður að bar, Drottins tignar dag hóf, dæmist hverr sem til var, fundinn áður, flest próf, frekar tekið mun þar, en margur ætlar.

22. Hvað alvizkan sæl sá, samvizkan það fram ber, ljóst og hulið mann má, meðkenna sem drýgt er, ónýtisorð fá, öll virðan dóm sèr, um viljann eins fer.

23. Þá mun hól og heims prakt, háeygum bakvend, fylgi vina forlagt, fèdýngjan öll brennd, stoðar engin stór makt, stètt verður ei kennd, fyrr í dauða fullend.

24. Vizkunnar virt há, vegur sem lètt fis, klókindin klökk stá, kappræður fá gis, hugdirfska fèll frá, fegurð holdsins, láns glys, afl kulnað, eitt blys.

25. Engin gáfa Guðs hrein, gildir fyrir þeim dóm, utan dygðin allein, óblásin, gagnfróm, hinna dýrð ei hót skein, honum yfir lífstóm, fauk hún sem fölt blóm.

26. Þegar Drottinn dýr fer, að dæma þannig öll lönd, sinna tára sjóð ber, sæll aðra

við hönd, roðin dreyra sín sèr, semur því líkn önd, reikníngshótin við vönd.

27. Hverr sem áður hóf stríð, báði rètt og vel dó, skiptin merkja fær fríð, fellur ach, en rís hó, hèr fyrr við hels tíð, himna Guð svo til bjó, fullkomnast það þó.

28. Þegar tíðin þúng, vönd, þessi grípur hold allt, minnstu þá mína' önd, minn Guð! og fast halt, þeirri við þína' hönd, þeink á það gjörvallt, sonur þinn sem galt.

29. Og þareð uppskátt, eitt sinn er gjört mèr: hverja sem í átt, eikin forðum datt hèr, þar liggur hún; um lífs hátt, líkt vegar sett er, nær dagur þess þver.

30. Því kvakar mál mitt, á miskun þína, Jesú! veittu fylgi þá þitt, þú, minn góði Jesú! nær dauðinn hvetur sverð sitt, á sálarhjúpinn, Jesú! still angur, styrk trú.

31. Þíns hjarta heitt blóð, hel, undir, bæn, tár, andar sefi minn móð, mitt við hætta lífs fár, umskiptin gef góð, gjör sorgar fylld ár, þegar fölur fer nár.

32. Nær eg skal nakinn, nálægjast þinn dóm, dýrðarfulli Drottinn! dyl náðar sízt róm, líkama lát minn, lífdreyra þíns blóm, hreint bera, en hyl gróm.

33. Þess dauðadóms, er, dapurt yfir gekk þig, not gefðu nægst mèr, nær kem á dóms stig, útvalinn í þèr, eilíflega gjör mig, lífshindin loflig.

34. Alls vegar órýrð, æðst verði samin, þèr æra, þrenn dýrð, og þakklætis framin, af hjartans grunn skært skýrð, og skyldunni tamin, um aldir, Amen!

---

## Kvöldvers.

Lagið. Eilíft lífið er æskilegt.

Hylur oss næturhúmið enn, himinsins bjarta sól; þrefaldist æra þín, Drottinn! þú sem oss veitir skjól. Æ, vor misgjörða ótal ský, upprunin þèr til móðs, dagsyndir allar dríf þú í, dauðahaf Jesú blóðs. Hjálpræðis tef ei hæsta gnótt, heilnæma gef oss værðar nótt; fel eg í þína hlífðar hönd, hús, kvinnur, menn og börn, eigið lán, heilsu, líf og önd, líka minn ástvin hvörn, hvíldar og alls kyns heilla gröndl, hepti þín friðar vörn.

---

Lagið. Hæsti Guð, herra mildi.

2. Dagsljóminn dvínar sætur, dimmunni þokar nær; gef þú oss góðar nætur, græðarinn Jesú kær! engla vörn, værð líkama, veit oss og andar frið, allri ver stygð og ama, unni þín mildin sama, ljósan dag vöknum við.

Lagið. Kær Jesú Kristi.

3. Dýr dagsins ljómi, dvínar enn í stað; lífs lyst og blómi, líður þannig að, mæðu, mold og dauða. Mildi Jesú, geym, söfnuð þinna sauða, sól hefjandi þeim. Hrygð og ótta hrind oss frá, hrek á flótta synd og þrá, yztu nótt í yndi há, andar, vend af heim.

Lagið. Eg veit, eina brúði skína.

4. Heims mynd, hafið skyggir bjarta, húmi slær að ótt. Sæt lind, svölunar vors hjarta, send oss góða nótt; burt hrind, böli, hrygð og sótt; hugurinn hjá þér vaki, holdið blundi rótt.

## Bænarvers syrgjanda manns.

Lagið. Konúng Davíð sem kenndi.

Jesús sem dauðann deyddi, deyjandi maktar hár, og eilíft líf innleiddi, láti sín blóðug

tár, sykra vor harmasár, helzt í helfarar nauðum, hans faðmi dreyra rauðum, læstir, svo lykjum brár.

---

## ANDVARPAN

### út af Krists pínu og andlátsorðum.

Ó, Guð Drottinn, allrar skepnu faðir!
sem arfleifð sonar þíns mèr tilskikkaðir,
lofgjörð þína lystir mig að vanda,
lífga þú mitt hjarta fyrir þinn Anda;
kenna lát hann klökkvu brjósti mínu
kærleik þinn að skoða í Jesú pínu,
og það lausnargjaldið eðlagóða,
er gjörði hann þèr fyrir sekan mig að bjóða.
Ó, minn Jesú! æðsti kóngur dýrðar,
eymdum kraminn framar en verði skýrðar,
áður sæll og yfirklæddur ljóma,
en nú vafinn sorgar hörðum dróma:
Hverju sætir, hvers á eg að njóta,
að hvers kyns kvalir líður þú mèr til bóta?
Er þitt silfur allt og gullið jarðar,
alsnakinn þig kremja sútir harðar.
Samson sterka sè eg nú reirðan böndum,
sá mig leysti þó af dauðans gröndum.

Deyddi Samson Dalílu svikræði,
dauður er Jesús fyrir mitt synda æði.
Jóseps bræður Jakob sorgir tvinna,
eg nam meir til hefnda af Guði að vinna:
Syndir mínar syni hans afla nauða,
svo hann gjörðist hryggur allt til dauða
og úthelltur eins og vatnið þunna.
Undur slík ei sjást eður heyrast kunna,
að Skaparinn, sá sem skepnu hverja gerði,
skömm og kvalir af henni líða verði,
að hann, sem tignar himnasveitin fríða,
hlýtur á jörð sem maðkur einn að skríða,
og læknir sá, sem lýðum öllum bjargar,
sem lamb er staddur meðal grimmra varga.
Sjálf náttúran sundur gliðna náði,
er signaður Jesús deyja hlaut á láði.
Sól varð mis við sína birtu að ganga,
er sinn Skapara leit á trènu hanga,
nöglum festan, nakinn með kórónu,
nístu broddar hennar Guðs ásjónu,
tárug augu títt uppfyllast blóði,
tæmist sjón; en blærinn fölnar rjóði.
Mun kóróna míns Jesú þess líki,
er maktar kóngur Salómon bar hinn ríki,
sem gaf honum móðir gleði hans á degi,
grátinn Jesús trúi eg af sinni þreyi.

Sál mín, það má sorgarefnið heita,
sárlega höfum við Drottinn gjört að þreyta,
hendur og fætur hans með nöglum setta,
hvaða ódæmum, sála mín! er þetta?
Á brúðguma þinn bölvan lögmáls stríðir,
sem blessar þó og helgar alla lýði.
Þú fríðasta föðurelskan hreina,
forsmán, brigzl og háðúngar mátt reyna.
Æðar dynja eins og vatnastraumur,
allt í kríng er spott og hæðnisglaumur.
Sundur rifinn sýnist hræi líkur,
syndaranna lífhartskerinn ríkur.
Ó, þú Guðs lamb! ó, þú Jesú frómi!
æ, hvar er þín guðdóms tign og sómi?
Angrast sál mín, allt mitt sinni og hjarta,
því allt míns Jesú hold er slitið í parta.
Hvernig er það hreina gullið blakknað,
horfið ljós, en næturkveinið vaknað?
Er það Jesú ásýnd þín hin fríða,
sem allir englar tilbiðja og hlýða?
Er það sá, sem ummyndaðist forðum,
úthellandi lífi og náðarorðum?
Er það sá, sem auðgaði blásnauða,
auma gladdi, liðna vakti af dauða?
Er það sá, sem inn í borg nam ríða,
og allir hèldu Zíons kónginn fríða?

Er það sá, sem anda Djöfuls hrekur,
en engan hryggvan burtu frá sèr rekur?

## Fyrsta orðið.

Ó, þú lífsins eðlafögur rósa!
eptirdæmi þitt mèr skín hið ljósa.
Forláts biður fyrir þeim þig kvelur,
föður þíns í reiði meðan dvelur.
Undarlegur ertu í verki og orðum,
Esaias það vitni gaf þèr forðum.
Úsíam deyddir, örk er snerti hendi,
en hèr lifa þeir þig berja vendi.
Spámenn þá er spjöðu slóst í bræði,
en spottara þína leiðst' með þolinmæði.
Gezi lygi líkþrá kom í vanda,
ljúgvottar þèr heilir móti standa.
Fyrir aðra framdir þú vandlæti,
en föður þíns refsíng tókstu með þakklæti.
Vonzku mína varðstu dýrt að borga,
vert er að eg mætti af því sorga.
Hvað er maðurinn? moldarryk og bóla,
sem má í engu neitt upp á sig stóla.
Hvað er Guð? sú hæsta eilíf vera,
hann kann allt með sínu orði gera.
Æ, mèr stendur ógn af Drottins bræði,
á einkabarn fyrst leggur slíkt kvalræði.

Hvers skal eg þá hans útlagi vona
og hinn sekasti allra manna sona?
Minna en Job eg mun honum kunna' að svara,
ef maktin hans í spurníngar vill fara.
Haldi hann dóminn, hlýt eg öllu að játa,
heimti hann gjaldið, fæst hefi til að láta.
Hold uxanna og hafra blóð ei þiggur,
hans er allt, sem maðurinn sitt þó hyggur.
Auðgjört er, eg ekkert hef að bjóða,
utan Jesú lausnarverðið góða,
fyrirbón hans og friðhrópandi dreyra;
fel eg mig í Guðs miskunar eyra.

## Annað orðið.

Dýrkuð sè þín dásamlega mildi,
Drottinn Jesú, brunnur gæzku fylldi,
sem ræníngjanum ríkið himna gefur,
rètt svo fljótt hann bænarkvak upp hefur.
Mikið er um máttinn þinn, ó, Herra!
og miskun þá sem aldrei kann að þverra,
Þrábænugur þurfti Job að vera,
þó honum vitni gott nam Drottinn bera;
Daga og nætur Davíð segist kalla,
en Drottins fjarlægð gjöri sèr þúngt að falla.
Þrálega spámenn þeirra í bænum kveina,
þó nam Guð sèr opt um stund að leyna.

Þrisvar flatur þú namst sjálfur gráta,
þín var kvöl ei síður hert úr máta.
En undir eins og illvirkinn þig biður,
er honum heitin dýrð og sælufriður.
Huggun stór er hjarta mínu þetta,
harmabylgjur nær sem á það detta,
því eg veit, að þú ert Jesús samur,
þjáðum, hreldum æ miskunartamur.
Æ, lát þú mig orð þín sömu heyra
í andláti með trúar minnar eyra:
Í dag skal eg þèr dýrð veita án efa,
dauðann mýkja og syndir fyrirgefa,
svo að eg allri sviptur neyð og hörmum,
sætt útblási, Jesú! þèr á örmum.
Gefst þá eilíf gleði, værð og friður,
genginn er mèr Babýlons vatna-niður;
gefst þá allt, hvað girndin mín útkrefur,
grátur og kveinan langt sig burtu hefur;
gefst mèr sjálfan Guð minn þar að líta,
glatt berandi eðalsteininn hvíta.

## Þriðja orðið.

Blessaður sèrtu, blómstrið allra dáða,
blíði Jesú, vörður lífs og náða!
Móður þinni mæddri af sorgarekka,
munaðarlausri forsvar gafst hið þekka.

Einstæðíngum eykur þetta gleði,
en ýngra fólki lærdómur þó skeði,
foreldrum ei fulltíngis að neita,
en fylgi, stoð og aðhjúkrun að veita,
elsku og virðíng einnig þeim að færa;
allt má gott af Jesú dæmum læra.
Sæll er hverr um sínar æfistundir,
sem hans dygða merkjum gengur undir.
En hverju sætir, herrann Jesú góði!
að híngað kemur nú þín blessuð móðir?
Hafðir þú ei hörmúng nógu stranga,
þó hennar sorg ei tæki þig til fanga?
Sverðið það, er Símeon forðum spáði,
sárlega hennar móðurhjartað þjáði,
er brjóstmylkíng sinn blessaðan nam hún líta
blóðugan, nakinn, þyrstan veina og sýta;
en mátti ei svölun minnstu þèr tilleggja,
milli strengdum illvirkjanna tveggja;
ekki tár af augum þerra hreinum,
eður skýla sártitrandi beinum.
Ó, þú sál mín! illa er okkur farið,
ef við klökknum hèr við ekki parið.
Hvaða stál, já, harðara demant öllum
er hjarta ómýkt af Jesú táraföllum!
Móses stafur miðlar vatni af steini,
en mildin Guðs frá okkur snýr með kveini. —

Sál mín! sál mín! svo búið má ei standa,
sjáum okkur bæði komin í vanda!
Mun það hæfa mèr að sè eg kátur,
míns er Jesú fæðsla eigin grátur.
Sem barn æpandi, er beiska hegníng kennir,
brúðgumi þinn tár af augum rennir.
Látum þó hans læki hvarma skæra
lystíng okkar til hans elsku hræra.
Grátbænandi um gistíng í hans sárum,
græðarans undir kyssum við með tárum,
þær svo megum þur og vörm innbyggja,
þegar lífsins harmaèl á skyggja.
Fríði Jesú! fyrir þín tár er dundu
forsvar vertu mitt á dauðastundu!

## Fjórða orðið.

Hvert er sem mèr heyrist kall í dúma,
hafin sól, en næturskuggann rúma?
Þenur óðum þar minn Jesús grátinn,
þúngt af Guði klagar sig forlátinn.
Ertu' ei sá, sem faðirinn skírðan forðum
fögrum kvaddi velþóknunar orðum,
og þig son sinn elskulegan tjáði?
Ofan mitt svo röddin kom að láði.
Á vandlætíng þíns föður húss mig furðar,
fyrir hana gár þitt megn til þurðar.

Uppþornaðan eins og skurnið tóma
unnusta þinn líttu, sál mín fróma!
Margplágaður Móíses var talinn;
miklu þýngri písl er Jesús kvalinn.
Kallaði Jón af kvíða helvítis áður,
Kristur er meir en nokkurr maður þjáður.
Saklaus Jósep sára reyndi mæði,
sárara er þó Belías strauma flæði.
Enginn maður um það nóg kann bera,
eilífum Guði má það kunnugt vera.
Þó himnar brèf, en hafið að bleki yrði,
held eg enginn fullreikni þá byrði.
Sandi þýngri sína eymd rèð greina
særður Job, og vildi líka meina
að metaskálir mundu henni ei valda;
meira er þó heims fyrir syndir gjalda.
Forspá Davíðs farin er sig að herða,
forsmán lýðsins tekinn ertu að verða,
já, ein bölvan, jörð og sól er grætir,
Jesú minn! sem allra meinin bætir.
Myrkur dauðans mektug um þig fljóta,
Morðíngjanna brigzlin ekki þrjóta.
Þèr er gengið Guðs dýrðar hásæti
og gullhörpunnar lofsöngurinn mæli.
Það Guðs englar þínum heiðri játa,
þrælar Satans fram í spotti láta;

heilsan, lotníng, hefðartitla viður
heiptaratvik þó ei falla niður.
Ó, Guð náði! ekkert má eg duga,
þó að þèr, Jesú! feginn vilda eg buga.
Keppinn var eg í kvalir þig að hýða,
kraptalaus, ef með þèr skal eg stríða.
Þó kann ekki þess mín trú að dylja,
þín er kvöl að föðursins eigin vilja
ályktuð og að þú skulir deyja,
engum til svo hafir um þetta segja.
Ljónið sagt að lambinu kunni vægja;
líðan þinni enginn býðst að hægja.
Allir vinir eru á burtu snúnir,
allir, já, sem ryk fyrir vindi flúnir.
Hèr er ei nema hryggur sveinn og móðir
harmandi við kross þinn, Jesú góði!
Enginn þinni ógnar mæðu lèttir.
Angursleginn hugurinn minn að frèttir:
Hvar er nú allur hópur þeirra lýða,
sem heilög orð þín menntuðu svo víða?
Hvar er það fólk, sem hátign þína leiddi
heim í borg og veg með sóma reiddi?
Hvar eru nú þau níu þúsund manna,
er nægðar saðníng lèzt fyrir húngur kanna?
Hvar er blindur, haltur, líkþrár, dauður,
og hverr einn græddur Ísraelsborgar sauður?

Hvar er tárugt túnglsjúks föðurauga,
hví tekur það ekki, Jesú, þig að lauga?
Hvar er kararkrankur dýkismaður,
hví kemur hann ei þar Jesús er fjötraður?
Hvar er kvinna, er kysti þínar fætur,
kann hún Jesú engar harmabætur?
Hvar er kvinna kvitt við flóðið rauða,
kennir hún ei til, Jesú, þinna nauða?
Hvar er kanversk kæn í bænarorðum,
hví kallar hún ekki: Jesú! nú, sem forðum?
Hvar er líflaus hórkonan með kvíða,
heyrir hún ei, hvað Jesús verður að líða?
Hvar er himnesk herskaranna prýði,
hví hjálpa þeir ekki, Jesú, þér í stríði?
Hvar er föðurhjartað elskuheita,
hefir það enga miskun þér að veita?
Hvar er dúfan dýrðleg, heilagur Andi,
hví dylur hún sig nú huggun þér veitandi?
Ó, þú Jakobs eðlastjarnan skæra,
allt mætti þín blóðug tilsýnd hræra!
Þinn Guð smurði þig með helgum Anda,
þó er líf þitt komið í sáran vanda.
Á nú ljósið allra manna að deyja?
Ó, minn Jesú! hverr kann meir að þreyja? —
Á nú kóngstign eilíf þín að þrotna?
ó, þú hæsti Drottinn allra drottna!

eður orðið eilífs lífs að þagna,
af hverju skal hjartað mitt þá fagna?
eður spekin upphæðanna dvína?
Ó, minn Jesú! hresstu trúna mína!
Það sem Davíð þig um gjörir rita,
það er í sorgum gleði mér að vita:
Að eilífu, segir hann, ár þín gjörvöll standa,
og engin rotnun kunni þér að granda.

## Fimta orðið.

Ísraels lindir allar senn til forna
á Elíæ dögum tóku mjög að þorna,
því himininn inni hélt þar regni sínu:
heyri eg, Jesú, ímynd þinnar pínu,
er þig, brunnur allra lífsins gæða,
ofurpressar dauðans hiti og mæða,
og sá þorsti, er eykur megnið kvala.
Ó, að tár mín kynnu þér að svala!
Hvort er ei þetta hann, sem forðum gjörði
haf og strauma þó með einu orði,
og öllu því, sem andardráttinn hefir,
endurnæríng, líf og krapta gefur?
Samsons hættan sefaðir þú þorsta;
súr forgiptin býðst þér nú til kosta.
Vín í Kana veittir hjálparþýður;
vökvaleysis bruna kvöl þó líður.

Samsoni kjálkinn svaladrykk ei sparði;
Sínai klettur draup, er Móses barði;
kallið spámanns krúsir fylla náði;
kveinandi fann Agar brunn á láði.
Zebaot Drottinn! segðu mèr hvað veldur,
svölun enga Jesús fær að heldur?
Sá þó trúr og sannorður má heita,
sem og gjörði forsjállega breyta.
Svo sem Job bað sínum degi fyrsta,
svarta myrkrið Jesús fær að gista.
Hann með Davíð held eg spyrja megi,
hvort þèr gleymist miskunsemin eigi?
Ó, minn Jesú! ei mun það svo heita,
innan skamms mun Drottinn hvíld þèr veita.
Guð er sami í gær og í dag án efa,
en grimmdarreiði hans ertu að sefa.
Þorsta eilífan þetta frá mèr tekur,
þó eg sè við öll þín boðorð sekur.
Trúar og elsku tár mín skaltu hafa,
en trygðapant þinn kýs eg mèr til gjafa,
meðan í eyðimerkur bygð eg hjari,
svo minníng þinna písla hjá mèr vari.

## Sjötta orðíð.

Sigur boðar sól yfirlýsandi,
segir Jesús allt fullkomnað standi:

fyrirheit, lögmál, fígúrur, spádómar,
friðstillt reiði, kvittaðar syndir grómar;
einnig sundrað okið dauðans stranga.
Út hefir Jesús leyst oss sína fanga
voldugur af vítis helgryfjunni,
vatns hvar dropi einkis svalar munni,
göddum bundinn, gistur angistinni,
af gryfjunni, hvar ekkert vatn er inni.
Allt er uppfyllt, ó, minn Jesú góði!
öll forlíkun skeð í þínu blóði,
allar kvalir illvirkjanna sýndar,
allar þínar tilfinníngar píndar.
Fullkomnustu fórn má þetta greina,
frí slapp eg með blóðsádreifíng hreina.
Heilagt klæði hlaut Aron af Guði,
hann þá kenndi Ísraels söfnuði;
en eigið blóð sitt æðsti biskup hefir,
og allan sig í sloppi þessum vefur.
Blómleik þínum, blíði Jesú! hrósar
brúður þín, sem Salómons diktur glósar.
Við gull og liljur glóandi hún þèr jafnar,
af girnd og elsku til þín öllu hafnar.
En eptirlíkíng ertu nú hin mesta
ormi þeim, sem Móses nam upp festa.
Hindar og rádýrs hún þèr líking velur,
harmaleit, ef frá henni veikst, ei dvelur.

En maðki nær en manni eg þig dæmi,
mál það hygg eg spámanns vitnið sæmi,
því sár, kaun, benjar, sviði, hrygð og pína
sè eg kvelur hjartans elsku mína.
Sedrusviðar Salómons húsið fríða
sýnist og hún vili upp á þig þýða.
En hèr á trènu hef eg þig að skoða,
hætt inngenginn dauðans yzta voða.
Æ, þau undur öll yfir undur ganga,
að þú, Drottinn! líður kvöl svo stranga!
Meiri furðu mèr allt þetta gefur,
en Móises af loganda runni hefir.
Og eg mætti útaf nærri deyja,
því örk hertekna sáttmálans má segja
nú af flokki Filistea maka,
sem festan þig á kross til heljar blaka.
Hvað skal mèr að herma um þetta fleira;
hjartað vefst í sorgunum því meira.
Klístruð blóði klæði þín má skoða,
sem kyrtil þann er Jakob hrygð nam boða.
Helrifinn er himna Jósep góður,
mín hjartans gleði, lyst og sálarfóður.
Vegferðar þó vonda reyni eg daga,
veit eg þetta allt mun síðar laga
í Gósen himna Guðsson dýrðar frægur,
gjörast mèr þá horfin raunadægur.

Fús vil eg því föðurhúsa leita,
af feitum kálfi saðníng mun hann veita.
Útsóa þó arfi hans eg næði,
eflaust mun hann gefa mèr dýrðarklæði;
þó að barnsnafn þurfi hann mèr ei veita,
þræll hans kýs eg grátfeginn að heita.
Fullt mitt hjarta fyrir þèr jafnan standi:
Faðir, Sonur og Guð heilagur Andi!
fullt af iðran, fullt af ástartrega,
fullt af trú og dygðum alla vega.
Fyll mig krapti fullnustunnar þinnar,
fullkomnari sáluhjálpar minnar!
Fullkomin þín forþènustuprýði
fullkomnunar dýrð mig síðar skrýði.

## Sjöunda orðið.

Fól sinn anda frelsarinn Guðs í hendur,
fölur á krossi því nærst varð örendur.
Hjartað stúngið hans var mitt í sundur;
hverju gegna, Jesú minn! þau undur?
Sannlega má mitt sundur rifna hjarta,
sem musteris fortjaldið, í parta.
Er nú, sál mín! okkar Jesús dauður?
Út af mætti eg falla þá á hauður,
dugminni en Daníel varð forðum,
þá Drottinn talaði við hann sáttarorðum;

og Manóha, sem meinti sig að deyja.
Mikið er, Jesú, eptir þig að þreyja.
Ó, að eg mætti ört upp hèðan leysa
og með þèr í dýrð himneska reisa!
Æ, hverr mun mig oki svipta nauða
og auman frelsa af líkam' þessa dauða?
Svo sem hjörtur svölun girnist fanga,
sálu mína allteins til þín langar;
því það góða gjöra, sem eg skyldi,
get eg ekki, Jesú minn! þó vildi;
við mig loðir vonzkan meir en bæri,
og villir fyrir mèr lífsins sjónarfæri.
Heims af lúa og hjartans angri saddur
hèr em eg milli vonar og ótta staddur.
Æ, mig langar óseðjanda hugar
upp í hæð, því sorgin frekt að bugar.
Ó, að þú vildir ofan um himna ganga
og mig leysa, bundinn hèr þinn fanga.
En meðan stundin mín er ekki að deyja,
mænandi til himins vil eg þreyja
í blóðundum, blessaði Jesú! þínum,
og biðja um vægð á syndagjöldum mínum.
Grunda, sál mín! gjörr tíðindin þessi:
Guð í Kristó deyr á hörðum krossi,
ástmenn Jesú allir harma og gráta
álengdar, sem vissu hans kvöl úr máta.

Ó, mín sál! ef ekkert tár þitt hrynur,
ætlar þú að Jesús sè þinn vinur?
Hinn heilagasti helju kannar sára,
hvernig skyldi sekur bindast tára.
Minna var það Móses guðsmann deyði,
í mörk þó fólkið lengi eptir hann þreyði;
minna, að Davíð margar konur þráði,
minna, þegar hann barnið gráta náði,
minna, þá hann mesta vin sinn þreyði,
minna, þó að Absalon hans deyði;
minna, að Agar mæddist yfir syni;
minna, þó vèr grátum holla vini.
Enginn hefir þó orsök til að gráta
eins og eg, það skylt er mèr að játa;
því öllum meira eg hefi syndir framið.
Æ, hvað hafa þær Jesúm níst og kramið!
Hæstu náðarhylli má það lýsa,
hann mèr segir þeirra kvittun vísa.
Eg hefi rjóður Jónæ fegra hlotið,
Jesús er mitt einka-varnarslotið.
Opið stár hans elsku hjartað góða,
arma rauða gjörir hann mèr að bjóða.
Hans er nafnið: hetja, ráð og kraptur,
hann kann sig af dauða að reisa upp aptur.
Faðir eilífur, friðarhöfðingi þægur!
fyrr varstu en nokkurt veraldar dægur.

Þú laukst upp munni, lambi hverju frægri,
líka bók á Jóhannis sjónardægri.
Heldur vil eg hjá þèr vera í sorgum,
en herrum lands, þó ríkum stýri borgum;
fari allt það, sem fánýtt er á jörðu,
það frelsar ekki af dauðans kífi hörðu.
Híngað fyrr í heiminn barst eg nakinn,
hryggur, sár af móðurlífi klakinn;
sá mig þá af syndaböndum leysti,
saddi, græddi, honum eg einum treysti.
Þó í dauðans dimmum ráfi eg skugga,
Drottins nálægð kann mig sætt að hugga.
Þó kveini eg stundum kurrandi sem dúfa,
mig kætir Jesú meinabótin ljúfa;
Þó í ofni þjáninganna eg lendi,
þaðan leiðir Guð mig sinni hendi;
þó búi eg enn við Babýlons vatnahljóminn,
ber að senn eg heyri dýrðarróminn.
Upp, upp, sál mín! elskhuga þínum móti,
inn til þín svo líf hans dauða fljóti.
Líkt sem forðum lúin dúfa Nóa,
leitum okkur í hans hendi fróa;
eins og brjóstin barnið sýgur þyrsta,
bergjum saft úr undum Jesú rista;
svo sem fillinn sig við eikur styður,
sannleik Jesú höldum okkur viður;

sem einn hjörtur sundlúinn vill breyta,
sigurstyrks af Jesú gjörum leita;
sem Nátílus svefnberginu á hangir,
sækjum traust og værð í Jesú fangi.
Tökum okkur tilfinníng og líka
af teiknum þeim, er kvöl hans mæðuríka
vitnuðu, sem og valdið maktarhæsta
viknaði allt með harmadeiling stærsta.
Jörð titrandi jafnan mig til leiði,
Jesú minn! að hræðast föður þíns reiði,
björgin þau, er birtust víða klofna,
blygði og eymstri hjartað mitt steindofna;
lífgun dauðra lífhressi minn anda,
af lastagröf svo næði eg upp að standa;
iðran þeirra, er óskuðu þèr dauða,
iðranar mèr veki lyst ótrauða.
Sveipum nú með sinnisæru hjarta,
sál mín! Jesú lík í okkar hjarta.
Yfir honum ætíð skulum vaka,
svo enginn kunni hann frá okkur að taka.
Sarons rós og Zíons steinninn fríði,
þig segi eg betri en þúsund veralda prýði.
Upp, upp, sál mín! upp skulum við fljúga
í opið Jesú hjarta, og þaðan sjúga
allt, það sem að angráðs þörfin krefur,
því alla hluti Jesús minn til hefir.

Eg gleðst meir að Jesús slapp úr kífi,
en Jakob þegar son sinn vissi á lífi.
Hèr er Jesú hjá þèr gott að vera,
hjartans mína tjaldbúð vil eg þèr gera.
Mun það anda míns líkþrá um breyta
meir, en Jórdan Naman kunni veita;
því betur en dýkisbað, er engill hrærir,
blóðið Jesú heilsugjöf mèr tærir.
Davíð kátur Drottins örk lèk nærri,
dægilegri gleði er þetta' og stærri.
Hann kvaðst glaður húss Drottins til ganga,
hèr má eg þó sætari unað fanga.
Þó með Páli þurfi eg margt að líða,
það er vel, því senn mun búið að stríða.
Skeið lífdaga skjótt mun komið á enda,
í skaranum dýrðar fæ eg þá að lenda.
Kórónu mun Kristur mèr þar veita
og klæði hrein, sem Jósúam við nam breyta.
En ekki mèr þó einum, Páll rèð svara,
öllum heldur rètttrúaðra skara.
Guð himnanna gefi oss það að hljóta
og gæzku sinnar eilíflega að njóta.
Honum prís og heiður verði saminn
hèr í náð og síðar um eilífð. Amen!

# II.

# BRULLAUPSKVÆÐI OG ERFILJÓÐ.

---

## Vers, er súngin hafa verið í brullaupum.

### Fyrir brúðargangi.

1. vers.

Lagið. Lofið Guð, lofi hann hverr, sem kann.

Allt vort ráð, áform og háttalag, í friði og náð, farsæli nótt sem dag; græðarans Jesú gæzkan þýð, og gefi það bæði, til föðursins dýrðar fyrr og síð, framkvæmast næði. Köllum grið, af kraptarins sæti; föllum við, frelsarinn gæti, öllum lið, líknin hans bæti; inngang, framgang, útgang vorn, haldi í snildarháttum rètt, heilagur Andi, valdi skylda sáttum sett, sóma styrkjandi.

## 2. vers.

Lagið. Jesús, sem að oss frelsaði.

Lifandi Jesú! láttu vort, lífskeiðið jafnan renna, þangað sem liggur lífsins port, lífið svo mættum kenna; til þessa lífsins þrautum frá, þitt líf oss forðum rèði; unn voru lífi æ þèr hjá, eilífrar brúðkaups gleði.

## 3. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Af hug þess óskum vær, allir til samans hèr, fylgi ykkur fjær og nær, frægur Guðs englaher; allri lífs eyði neyð, ástúðlegt verndarlið; gangið svo greiða leið, í græðarans Jesú frið.

## 4. vers.

Með sama lagi.

Guðs föðurs gæzku dáð, græðarans voldug hlíf, og heilags Anda náð, ykkar bevari líf; gangið í góðum frið, Guði befalaðar, hans greiði hjálpræðið, hvert spor til fagnaðar.

## 5. vers.

Lagið. Himna rós, leið og ljós.

Drottins náð, lífs um láð, láti skarta, hverju sinni, úti og inni, eg bið, ykkur frægð, yndishægð og auðnublóma; gangið þið, Guðs í frið, gæddar sóma.

### 6. vers.

Lagið. „Sjá þig, mín sál! um kríng.

Föðursins friðar dáð, frelsarans Jesú náð, og heilags Anda gæði, öllum lífs-heillum gæði, ykkur svo aldrei þrotni, alls konar hægð í Drottni.

### 7. vers.

Lagið. Þèr, Drottinn, þakka eg.

Frelsarans fögur náð, friður og hjálpræði, með hæstri hlífðar dáð, hans engla jafnan sè, á öllum ykkar vegum, sálu og lífi sætt skínandi.

---

## Þá hjónaskál er inn borin.

Lagið. Herra! Þèr skal heiður og virðíng greiða.

Herra Guð! sem hjónabandið settir, og hefir það blessað fram yfir aðrar stèttir, þínum ráðum, gjörst að gáðum, gefðu báðum, fylgja í náðum eptir.

---

## Fyrir hjónaskálum vandalausra.

### 1. vers.

Lagið. Þá Ísrael fór af Egiptó.

Ó, Drottinn Guð! sem elsku og náð, auðsýnir þeim, er kærleiks dáð, halda með heiðri sönnum, útvalin brúðhjón æruverð, andar og

lífsins gæfumergð, hönd þín begáfi hrönnum; láttu þau ganga út og inn, í þínum friði, Drottinn minn! veittu þeim styrk í vandanum, vert þeirra líf í dauðanum; æ, gef þeim heppnist unun stór, í eilífum dýrðar Jórsala kór. Halelúja! halelúja!

## 2. vers.

Lagið. Rís upp, Drottni dýrð.

Náðin gæzkugjörn, Guðs á himna trón, ykkur umfaðmi, ærudygðug hjón, ekkert ami tál, orð, verk, sjón, heyrn, mál, og allt hvað áhrærir, ykkar líf og sál, annist alla stund, almáttugur Guð, í vöku og værum blund, verið margblessuð; frelsarans friður, fagur veitist yður, hèr og um alla, eilifð haldist viður.

## 3. vers.

Lagið. Ó, Guð vor faðir! sem í himnaríki ert.

Sá Guð er æðstur setti í fyrstu sinni hjörð, hjónaband veglegt heims á láð, helgum prýtt náðargæðum, ykkar sè farsæld, auðna, líf og yndi á jörð, inngengið stand með allri dáð, umgirði krapt af hæðum; heilags kærleika ljómi lyst, langgæðar æfimundir, ykkar á milli, en ömun bist, öll hverfi lífs um stundir, frelsið hèrvistar fullkomnist, friðarins merkjum undir.

### 4. vers.

Lagið. Eilíft lífið er æskilegt.

Unni ykkur Jesú eilíf náð, í hans miskunar skaut, innvafin sèuð æ með dáð, engin svo grandi þraut; hjónabands trygðar heilög ást, haldist með æru og spekt, ljós ykkar dygða ljómi skást, lof eflið Drottni þekkt; alls kyns farsældar hlýjum hag, hann ykkur gæði nótt sem dag, inn til þess friðar eilífa nægð, erfið á himnatrón, hvar mæða, kíf og mein eru lægð; mettuð af dýrðar sjón, lifið þar æ með yndis hægð, andar við skilin tjón.

### 5. vers.

Með sama lagi.

Í Jesú nafni eg þess bið, alleina sælan Guð! ykkur brúðhjónum leggi lið, líknarvild hans blessuð; undir hans þýðum ástarvæng, yndi, vernd, heill og náð, í göngu, stöðu, sessi og sæng, sè ykkur jafnan tjáð; framgangið svo með lífsins lyst, lofið og prísið Jesúm Krist, alls kyns mannrauna mýki þraut, hans miskunarhöndin góð, fram til þess helga friðar braut, fráskilin hrygðar móð, inngangið beint í Abrahams skaut, þar útvalin fagnar þjóð.

### 6. vers.

Lagið. Lífsreglur hollar heyrið enn.

Alls kyns farsældum, æru og dygð, umfaðmist brúðhjónin; þróist í Guði þeirra trygð, þrykkist öll hörmúngin; von og þolgæði veri stygð, við andarskilnaðinn; hrópi þau inn í himna bygð, hverr Jesú blóðdropinn.

### 7. vers.

Lagið. Herra! þèr skal heiður og virðíng greiða.

Hækkist ykkar heiður og stoð án galla, hlýði báðum friður og gleðin snjalla; safnist trygðir, dafni dygðir, dofni hrygðir, sofni stygðir allar.

### 8. vers.

Með sama lagi.

Lengist ykkur líf með heilsublóma, lukku, dáðum, yndi, frið og sóma, heppin stríðið, stöðug bíðið, standið prýðið, Guðs innlíðið ljóma.

### 9. vers.

Lagið. Far heimur farsæll.

Lifið æ lofsæl, lifandi Guði, svo hjartans inndæl, að allar hans trygðir og ásthylli neyt, á ykkur skíni, sem morgunsól heit, heiðgeisla rósanna hellir á krans; himnar gefi ans, himnar gefi ans.

## Brullaupsvers foreldranna.

### 1. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Blessa þú börnin mín, blessaða mildin há! byggi þeim blessan þín, blessað hús jörðu á, blessaðu trygða band, blessaðu verk og mál, blessa nú beggja stand, blessaðu líf og sál!

### 2. vers.

Lagið. Heiðrum vèr Guð af hug' og sál.

Himneski faðir! höndin þín, högunum dilli barna mín, auðga þau vizku, aldri og náð, annastu þeirra líf og ráð, elska þín bið eg einnig sè, ástvina þeirra hjálpræði, alla nauðþurft uppfyllandi.

### 3. vers.

Með sama lagi.

Barnanna minna blessa þú, brunnur miskunar, ó, Jesú! líf, önd, ástvini, heiður, hag, heilsu, ráð, efni, verkalag, alls konar dygðir þróa þeim, þau að afdrifnum sorgareim, set við þitt borð í sælli heim.

### 4. vers.

Lagið. Nú bið eg Guð þú náðir mig.

Jesú brjóstharmur, sviðasár, sveiti, kvöl, undir, bæn og tár, öll fyrirbón og eilíf trygð,

allan frið, blessan, heiður og dygð, sálarfögnuð og synda bót, sigur óvinum fast á mót, huggun og þol í hvers kyns pín, hæst ykkur veiti, börnin mín!

### 5. vers.

Lagið. Upp á fjallið Jesús vendi.

Blóðs og tengda börnum mínum, blíði Jesú! veittu lið, út rykk þeim af angurs pínum, allar syndir kvitta við; ver þau undir vængjum þínum, veit svo loksins himnafrið.

---

## Brullaupsvers barnanna.

### 1. vers.

Lagið. Mikilli farsæld mætir sá.

Míns kæra föður, mildi þín, minn Drottinn! efli hægð, ærufróma stjúpmóður mín', mettaðu sóma nægð; heilagt inngengið hjónaband, hèr í stað blessa þeim, æ meðan lífsins leiðarstand, lènar í þessum heim, innbyrðis frið og eindrægni, elsku, von, trú og guðrækni, láttu þau styrkja bæði bezt, blóðs undir merkjum þín, gef þeim iðrunar girnd og frest, geðfró og þol í pín, síðan þá glasið lífs er lest, lifenda gleðivín.

## 2. vers.

Lagið. Heiðrum vèr Guð af hug' og sál.

Alls konar blessan auðga þú, elskulegasti minn Jesú! föður þíns undir friðarkrans, föður míns ráð og kvinnu hans, beztu manndygðum bæði prýð, blessaða gef þeim sælutíð, eptir hèrvistar unnið stríð.

## 3. vers.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

Láttu gjöf líknar þinnar, lifandi Guð í himnarann! unnusta móður minnar, mèr í föðurstað skikkaðan, alla tíð endurnæra; auðgaðu beggja ráð, hverju sem heitir æra, hirðir og eykur dáð; syndabót, sálarfriðinn, samvizku rósemi, veittu þeim lífs, en liðin, leið heim í þitt ríki.

## 4. vers.

Lagið. Ó, vèr syndum setnir.

Blessa þú, Guð minn góður! gjörsamið ektaráð, stjúpföður míns og móður, með þinnar gæzku dáð; veittu þeim værð og yndi, vernda þau nótt sem dag; elska þín að sèr bindi, allan þeirra lífs hag, gef styrk og þol í þraut, þau leið um friðar braut, inn í Abrahams skaut.

### 5. vers.

Lagið. Þá linnir hèr mín líkams víst.

Foreldra minna fundinn hag, farsæl þú, Jesú góði! náðarhönd þín um nótt og dag, nægstar þeim heillir bjóði. Æ, gef þau lifi í ást og trú, ektastand þeirra blessa þú, veit hægð, en varna móði.

---

## Brullaupsvers ættmanna og systkina.

### 1. vers.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

Guðs hjartagæzkan fróma, gefi ykkur nægst af krapti sín, hæstan frið, heill og sóma, hjartans ástúðleg systkin mín! Ektabands eðla trygðir, elskan hans varðveiti, allar andlegar dygðir, innplanti sálunni; brot kvitt og bót á mæðum, báðum eg ykkur kýs, síðan á himna hæðum, heilagan sælupris.

### 2. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Gefi ykkur gleði og frið, Guð sem á hæðum skín, aldygðum auðgist þið, ástúðleg systkin mín, trygð haldi kærleiks kaup, kefist

allt rauna safn, inn til þess æfihlaup, endið í Jesú nafn'.

### 3. vers.

Lagið. Rís upp, Drottni dýrð.

Guðs á himna hæð, heilög vísdómsnáð, systkin mín sælu, sendi ykkur hjálparráð, blessi trygðaband, beggja fylli stand, heill, ástum, yndi, ei svo kenni grand; Drottins elska dýr, dygðum krýni sál, hressi, blessi hýr, hyggju, verk og mál, lífs leiðir allar, láti síðan falla, tryggvar með æru, til Ísraels fjalla.

### 4. vers.

Lagið. Hæsti Guð, herra mildi.

Lukku með lífs fögnuði, lofstír og æru skin, verði ykkur veitt af Guði, virðuleg ættsystkin, hjónabands helgar trygðir, heit vermi Drottins ást, lifandi lýsi dygðir, ljóma Guðs eptir hrygðir, gleði ykkur skoðun skást.

### 5. vers.

Lagið. Má eg ólukku ei móti stá.

Systkina minna sæmd og ráð, sætustu náð, fögnuð og friðargæðum, begáfa Drottinn þrennur þú, þeim æ og nú, forða synd, fári og mæðum, innbyrðis trygð, alls konar dygð, lof,

lán og fè, þeim legg í tè, hólpin gjör loks á hæðum.

6. vers.

Lagið. Mikilli farsæld mætir sá.

Festi nú Jesú friður og náð, faðmlögum kraptar sín, ykkar líf, heiður, önd og ráð, elskuleg systkin mín, hans ástargæða loganda ljós, lýsi ykkur jörðu á; lífsins kjöryndi, heill og hrós, hreppið, en enga þrá; unni farsældum ykkar merk, allsháttuð Drottins handaverk, ratist æ sefuð rauna göll, ríki manndygða blóm; lifið svo blessuð árin öll, ástheit og trygðafróm, fagnandi loks í himnahöll, heilögum eptir dóm.

---

## Vers brúðgumans.

Með sama lagi.

Herra, sem kosið hefir mèr, hjúskapar veglegt ráð, veittu mèr styrk, að vel sem ber, vilja þíns fengi eg gáð, kröptuga von og kærleiks dygð, kristinn frið, helga trú, gæzku, hreinlyndi, glæsta trygð, Guð! mèr innplanta þú; æru, kjör, eignir, minni, mál, mitt ráð, athafnir, líf og sál, fel eg himneskri forsjá þín, forða mèr glæpum við, tilgefna láttu mis-

gjörð mín, mæddum veit þolgæðið, einnig, að deyfðri dauðans pín, dýrðlegan himnafrið.

## Vers brúðarinnar.

Með sama lagi.

Eg þig og beiði, ó, Jesú! æ vertu styrkur minn, að eg í hjartans ást og trú, umfaðmi viljann þinn, hógværð skírlífi, hreina trygð, heilagan frið og spekt, já, alls kyns sóma, æru og dygð, unn mèr að stunda frekt; bjóð þú að himnesk blessan þín, bevari gjörvöll efnin mín, og öllu því mèr ama kann, umvendi svo til lags, helið þá særir hyggjurann, haf þú í friði strax, mig og ástkæran ektamann, til eilífs gleðidags.

## Brullaupsvers ekkjunnar.

Með sama lagi.

Eilífi Guð! eg þakka þèr, þitt ráð sem hulið var, sorganna braut þú sýndir mèr, síðan veg huggunar. Taktu nú enn við máli mín, mitt ráð og lífsins hag, fyrirheitinni forsjá þín, faðmaðu nótt og dag. Lát mig þèr hæstan heiður tjá, hjónabands skyldu þar með gá, í allri mæðu legg mèr lið, fyrir lausnarann

Jesúm Krist, hæstu manndygðir halt mèr við, hrek syndagjöldin yzt. Önd minni gef svo eilífan frið, eptir þessa heims vist.

## Vers ekkju eigingiptrar.

Með sama lagi.

Mildasti Guð! sem mèr hefir bætt, missi ástvina þann, sem áður hafði geðið grætt, en gleðina sett í bann; snú þú enn ástaraugum þín, að mèr um dag og nótt, breið yfir hús og börnin mín, blessaða friðargnótt, farsæl mín kjör til fagnaðar, fyrirgefðu mèr syndirnar, lát ekki Djöful, hold nè heim, hrekja mig þèr í frá; sveipa kvenndygðum sinnu-geim, sút enga lát ofþjá, önd mína dýrðar seði seim. sjón þíns auglitis há.

## Vers beggja brúðhjónanna.

### 1. vers.

Lagið. Eilíft lífið er æskilegt.

Ó, Drottinn Guð! sem hèr í heim, hjónaband skikkaðir, allra lífsheilla sætum seim, síðan begáfaðir, bæði samhuga biðjum þig, blessuð heill syndugs manns! fær okkar öll á friðarstig, fótspor til himnaranns, mýk allan

kvíða, mein og gröncl, skimun þín hjúkri lífi og önd, æ gef til náðar aleflið, innbyrðis rækjum skást, hjartans eindrægni, hógvært geð, hreinlífi, trygð og ást, unn okkur síðan æ þér með, í eilífri dýrð að sjást.

2. vers.

Lagið. Lofið Guð! lofi hann hverr sem kann.

Ó, Jesú! að þér í miskun tak, okkur nú, og yfir lífsheillum vak, gjörvöll ráð og efnin öll, ást þín við hressi, ræti frið, en rými göll, rík högum blessi. Heitust trygð, hjartans ei þjáist, neytust dygð, nær okkur sjáist, eitruð stygð, öll í burt máist. Láttu Drottinn! líf og önd, hjá þér síðan hljóta not, himneskrar sælu, hjá þér síðan hljóta not, himneskrar sælu.

3. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Guð Drottinn gæzkuhreinn! sem göfgaðir ektastand, blessa þú okkar einn, inngengið hjónaband; veit yndi, hafna hrygð, heyr bænir, líkn ei tef, þrykk syndum, þróa dygð, þol magna, sælu gef.

---

## Fyrir konúngs skál.

1. vers.

Lagið. Mikilli farsæld mætir sá.

Voldugi faðir! vernda þú, vors konúngs hásætið, halt honum æ við helga trú, hans

ríkjum veittu frið, styrkur þíns anda styði rètt, stjórnendur kristninnar, sèrhverr að lifi í sinni stètt, sem þitt boð útvísar. Varna styrjöld og villuróm, viðhaltu þínum kristindóm, heilagri trú og hreinum sið; helsting Andskotans megn; blessa vort land og bygðarlið, bistur oss aldrei hegn; handleið þitt fólk í himnafrið, heims alla mæðu gegn.

2. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Auk þú með æruplag, alls konar lífs fögnuð, kóngsins hátignar hag, heilagi sterki Guð! hans ríkis ráð og lönd, rèttum frið auðga þú, veit engin villugrönd, vèli sannhelga trú.

3. vers.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

Gæzka þín, Guð! bevari, gjörvallan kóngsins tignarhag, lýð hans og lönd forsvari, langgæðan veiti stjórnardag, yfir- og undirmönnum, efli frið, heill og náð, styrk í embættis önnum, einnig kostgæfið ráð: þína dýrð, sinn veg, sóma, sið og hag föðurlands, efla með æru fróma, öruggir til dauðans.

4. vers.

Lagið Ó, vèr syndum setnir.

Kristi krapta gæði, kóngsins tignarstól, styði, blessi bæði, bezta hlífðar skjól, við óvina,

stygðum, veri Drottinn hans, dirfi í öllum dygðum, dýran föðurlands, allt hans undirráð, auðgi frið og náð, Drottins Jesú dáð.

### 5. vers.

Lagið. Bliði Guð! börnum Þínum ei gleym.

Kóngsins ráð, kyn og þjóð ríkisins, styrk í náð, sterki Guð friðarins! veit hans hjarta að vilja þín, ver öllu grandi, gef að skyldu gæti sín, gegn hirð í landi, kristindóms, kjörheill svo næði, friðarblóms, fylgja lát gæði, villuróms, varna skaðræði; voru landi veit forsvar, blíða rósemd, blessan auðs, og brauð lífsins orða, blíða rósemd, blessan auðs, og brauð lífsins orða.

---

## Vers til heilags Anda.

### 1. vers.

Lagið. Eilíft lífið er æskilegt.

Ei fæ eg, sannleiks Andinn kær! uppreiknað gjafir þín, ómetanlegar eru þær, öllum skilníngi mín; þú gefur hjartans hægð og kyrð, huggun og þolgæði, kallar, upplýsir, helgar hirð, Herrans á jörðinni, rèttan kærleika rífkar þú, rætir Guðs elsku, von og trú, arfleifðarpantur útvöldum, upptendrar bænrækni, sannfæríng

heimi setur um, synd, dóm og rèttlæti, ver öllum sálar vandræðum; vegsemd þín eilíf sè.

## 2. vers.

Lagið. Blíði Guð! börnum þínum ei gleym.

Ástar þín, Andi Guðs heilagi! sæta vín, send oss af hæðinni, Drottins Jesú dreyra lind, og dropum Guðs náðar, samanbyrlað svo með hind, að sálirnar þjáðar, lifni hratt, lofgjörð framberi, blítt og statt, bænhressar veri, dansi glatt, í Drottins musteri, allan fögnuð efli þó, :|: brúðhjónanna brjósti mest, í brennheitum trygðum :|:.

## 3. vers.

Lagið. Heiður og háleit æra.

Kom þú, kærleiks Andi! kraptur Guðs af hæð, oss í náð uppfyllandi, alla friðheillum gæð, brúðhjóna beggja trygðir, blómgi þitt ástarljós, auk þeim jafns konar dygðir, yndi, farsæld og hrós; kristninnar heims um hríng, haltu við, Guð! eining, viltum sèrt veglýsing.

## 4. vers.

Lagið. Upp á fjallið Jesús vendi.

Fyrirheitinn friðar Andi, fullur náðar sè með oss, brúðhjónanna brjóst helgandi, báðum

ástar gefi koss, líkni þeim í lífsins standi, liðnum veiti sælu hnoss.

5. vers.

Lagið. Heiðrum vèr Guð! af hug' og sál.

Híngað innboðin hýr og skær, himneska dúfan, kom þú nær, hreinsa vort geð, en helga sál, hresstu þankana, styrktu mál, tendra bæn, von og trúarsafn, trygðanna láttu ríkja dafn, eg þig grátbæni í Jesú nafn'.

6. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Minni sál mjög inndæll, mektugur, ástarhýr, kallaður, kom þú sæll, kraptarins Andi skýr! helga, styð, hátt upplýs, hjörtu vor allra senn, fögnuð, heill, frið og prís, festu við brúðhjónin.

---

## Fyrir brúðarsæng.

1. vers.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

Heppinn sè ykkar hagur, heiðurleg brúðhjón! alla stund, föðursins geisli fagur, færi ykkur ljós í vöku og blund, kvíða gjörvallan kefi, kjöryndið fylli mest, voðunum ástar vefi, værðar svo njótið bezt; friðarins björt ábreiða,

brotin að ykkar sæng, vermi lífsgleði greiða, Guðs undir hlífðarvæng.

### 2. vers.

Lagið. Sólin upprunnin er.

Sofið nú sætt í frið, signuð brúðhjónin! Guðs hlífðarvængi við, vendist hugsjónin, hýr, heilskygn að, hæðum Ísraels fjalla, brjóst Jesú blóðdöggvað, bjóði' ykkur af þeim stað, andarværð alla.

### 3. vers.

Lagið. Blíði Guð! börnum þínum ei gleym.

Hann sem bjó, hjónabands vilfögnuð, værð og ró, veiti ykkur Drottinn Guð! á brjóstum andar brúðgumans, blundið í náðum, líknar bjarta ljósið hans, lýsi ykkur báðum; eining þrenn, eining við hressi, faðmlög tvenn, faðmur hans blessi, vinkossinn, við minnist þessi; sæng, ábreiða, svæfli með, veri Drottins voldug hönd, en vörn engla tjaldið, veri Drottins voldug hönd, en vörn engla tjaldið.

### 4. vers.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Beð ykkarn brúðhjón hýr, bevari Drottinn hér, faðmur hans faðmi dýr, faðmlög ykkar að sér, blundið svo blítt og rótt, beggja sál

meðlætist, gefi ykkur 'góða nótt, Guð fyrir Jesúm Krist!

5. vers.

Lagið. Hæsti Guð herra mildi.

Einn Guð, sem ykkar trygðum, eina sæng búa rèð, við alls kyns voða og stygðum, verndi' ykkar hjónabeð; blessuð í trygðabandi, blundið nú vært og rótt, fráskilin friðar grandi; Faðir, Sonur og Andi, gefi ykkur góða nótt!

---

## Skilnaðarkveðja eptir brullaup.

1. vers.

Lagið. Eilíft lífið er æskilegt.

Guði sè dýrð, sem gaf oss enn, góð býti samvista, kætti vorn hug við kjörin tvenn, kærleiks og veitínga; þiggi nú hjartans þakkir mín, þýðir boðsráðendur, eins fyrir dygðar atvik sín, allir nærverendur; yður farsældar óskum með, eg í vinsemi þannig kveð: gleði yður alla, góðir menn, Guð fyrir Jesúm Krist, skipi svo dvöl og skilnaðinn, skeið lífsins bevarist, inn til þess hittumst allir senn, í eilífri dýrðar vist.

### 2. vers.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

Sá Guð oss safna rèði, saman til funda hèr í stað, holla svo hrepptum gleði, hefir og settan vorn skilnað, verðuga virðíng hljóti! Veglegan selskapinn, kveð eg af kærleiks hóti, kyssi Guð brúðhjónin, hans kraptar hæsti friður, helgasta náð og vörn, margfaldist yfir yður, elskuleg Drottins börn!

## Vers, er súngin hafa verið í erfidrykkjum.

### Fyrir minni foreldra.

### 1. vers.

Lagið. Þèr, Drottinn, þakka eg.

Faðir minn sigursæll, sofðu nú blessaður! þèr löngum þókti inndæll, þíns Jesú blóðfaðmur, því var hann þinni sálu, mitt í dauðanum mjúkastur.

2. Eja! þitt angur hvarf, ærunnar skin forprís, þína dygð eg í arf, auðæfum framar kýs; flýti nú frelsarinn góður, okkar samfundum í Paradís.

## 2. vers.

Lagið. Aví! Aví! mig auman mann.

Ó, faðir minn! faðir minn! eg felli tár, af því nú, að eg veit þú, ert orðinn nár, sem gladdir fyrr mín úngdómsár, og elskaðir mig í trygðum klár, þíns mèr dauða svíður sár, svíður sár.

2. Dæmi nú, þá dygð og trú, mèr Drottinn skær, í arf sem hjá, þèr sjálfur sá, var sífrábær, þar til angursundin grær, og eg þig hitti, faðir kær! hægri Jesú hendi nær, hendi nær.

## 3. vers.

Lagið. Þèr, Drottinn, þakka eg.

Sofðu nú sorgum fjær, sæl í Guðs akurmold, mín hjartans móðir kær! mun þitt forklárað hold, síðar um eilífð alla, blessað lifenda byggja fold.

2. Löng er nú lífsins eymd, langt þèr burthorfin frá, en sálin glödd og geymd, Guðs friðar-tróni hjá. Ó, að eg fengi hið fyrsta, þig í fögnuði þeim að sjá.

## 4. vers.

Lagið. Upp, upp, mín sál.

Þó hèr um sinn, kross bleyti kinn, kætir það hyggjuslóðir, eg kem til þín, þú ei til mín,

þýðasta hjartans móðir! Æ, að stund sú, nálægðist nú, næði eg takmarkinu; Jesú þín trygð, skíni mèr skygð, skærast í andlátinu.

5. vers.

Lagið. Guði lof skal önd mín inna.

Guð sem fyrr gaf og svipti, greiði nú högum lagfæríng, við mig í miskun skipti, munaðarlausan vesalíng; huggun, frið, heill og náðir, hèrvistar alla tíð, forsvar og friðar dáðir, færi mèr náð hans blíð, veika trú virðist næra, við hressi þjáða lund, sálar-heill sendi væra, síðan á dauðastund.

---

## Fyrir minni barna.

1. vers.

Lagið. Heiður og háleit æra.

Guð sem mig áður gæddir, góðu lífs afkvæmi, kyrtli rèttlætis klæddir, kvittað frá mæðunni, heim til þín hafðir síðan, í himneskt gleðinnar ljós, beindu mèr faðminn blíðan, í bylgjum eymda sjós, ó, Jesú! minnstu mín, í miskunar iðrum þín, loks þegar lífið dvín.

2. vers.

Lagið. Hvar mundi vera hjartað mitt.

Lof sè þèr friðar faðirinn trúr! sem færðir barnkind mín, hèrvistar mæðu allri úr, í eilífa

dýrð til þín, vertu nú hinna verndarmúr, við Djöfli, synd og pín, allt undir væran andláts dúr, áskenk svo gleðinnar vín.

3. vers.

Lagið. Upp, upp, mín sál.

Ó, Drottinn Guð! sem í fögnuð, eilífan tekið hefir, mitt afkvæmi, þitt þó væri, það mína sorg ei tefur, kom nú sem fyrst, krossburðar vist, kaldri gef sælan enda, mótföllum hrind, minni barnkind, mèr unn svo hjá að lenda.

---

## Fyrir minni ættmanna og ástvina.

1. vers.

Lagið. Þèr, Drottinn, þakka eg.

Guð gaf og Guð aftók, Guð veri lofaður! Guð mína gleði jók, Guðs er nú harmaður, af mèr eptirþreyjandi, ættbróðir minn og ástvinur.

2. Huggar þó hjartað mitt, hann í Guðs friðarborg, elur nú yndið sitt, alla viðskilinn sorg, fyrir blund hægan hafinn, hèðan á lifenda lystitorg.

3. Einn Guð, sem okkar sætt, ástríki bróðir minn! fyrr batt, en gjörði grætt, geð mitt við skilnað þinn, hjálpi mèr heims úr nauðum, til þín sem hraðast í himininn!

### 2. vers.

Lagið. Blíði Guð! börnum Þínum ei gleym.

Opnar und, ástúðleg minníng þín, við dauðans blund, dygðarík systir mín! elsku þína og aðhjúkrun, alla eg þreyi, til fullnaðar mèr ei mun, mæðast sá tregi, fyrr en Guð, forlögum breytir, og fögnuð, eilífan veitir, þar sízt örfuð, sút kinnar bleytir. Ó, að eg sem allra fyrst, þángað numinn þrautum úr, þèr mætti fagna, þangað numinn þrautum úr, þèr mætti fagna!

---

## Sorgarvers ekkils eptir konu sína.

### 1. vers.

Lagið. Á einn Guð eg vil trúa.

Hægðu nú hjarta mínu, himneska náðarlindin góð! ástar atlæti þínu, afþerra kinnum tára flóð; mín er nú moldu kafin, meðhjálp og augna lyst, en þó til heiðurs hafin, í himneska dýrðarvist; veittu því værð, ó, Herra! vel fóstra börnin smá, hvergi lát huggun þverra, hept alla neyð og þrá.

2. Gef að eg glaður þreyi, gæddur heilögu þolgæði, eptir þeim dýrðar degi, þá Drottinn, þú mitt hjálpræði, lætur mig fá að finna, frelsi þar mæðan dvín, og mín sæl ektakvinna,

allri sól fegur skín, svoddan samfundar yndi, síður þú undan drag, heldur gef hryggu lyndi, himneskan gleðidag.

2. vers.

Lagið. Hæsti Guð herra mildi.

Hrópa eg handarvana, hugarins þjáður pín, álíttu mig einmana, miskunaraugum þín, heilagi hjartans Faðir! hept gjörvöll raunatár, öll mín kjör heillum hlaðir, himneska dýrð að laðir, síðan um eilíf ár.

---

## Skilnaðarkveðja.

Lagið. Sólin upprunnin er.

Hvíldu nú heillasæl, hjartað mitt kærast! þar engla dýrð inndæl, dillar þér værast, hjá lambsins trón, laus við öll mæðutárin, grand lífs og gæfu tjón, Guðs dýrðar mettuð sjón, um eilíf árin.

2. Eg mun þig síðar sjá, sveipaða gæðum, lifenda landi á, leystur af mæðum. Æ, gleðistund, ó, þau huggunar mæli! þegar eg fæ þinn fund, fullhressir þjáða lund, allt eptirlæti.

3. Ó, Jesú! minnstu mín, mýk efli nauða, fyrir blóðbenjar þín, og beiskan dauða, legg

högum lið, lát ekki miskun þverra, þraut vinni þolug bið, þar til eg eignast frið, hjá þèr, minn Herra!

---

## Sorgarvers ekkju eptir mann sinn.

### 1. vers.

Lagið. Mikilli farsæld mætir sá.

Allsherjar Drottinn! aumka þig, yfir mitt sorgarstand, helskeyti dauðans heiptarlig, hafa mèr unnið grand, ástúðleg fallin er í mold, ærukóróna mín, skeikað lífsyndi skelfir hold, skilnaðarsorg ei dvín; kom nú til hjálpar, Herra trúr! hrygðanna böndum leys mig úr, þín fögur náðarfyrirheit, fyll öll á mínum hag, við mig sem kærast barn þitt breyt, bæt alls kyns raunalag, eptir hèrvistar ánauð veit, eilífan gleðidag.

### 2. vers.

Lagið. Guði lof skal önd mín inna.

Guð, sem gladdir mitt sinni, þá gafst mèr kæran ektamann, og úr heimsarmæðunni, í eilífa dýrð nú leiddir hann, styttu mèr sorgarstundir, still æfiraunirnar, ást þín á allar lundir, unni mèr hjúkrunar, lát ei þolgæði þverra, þar til eg fæ að sjá, hans og þitt auglit, Herra! himnanna bygðum á.

### 3. vers.

Lagið. Þá Ísrael fór af Egiptó.

Ó, Drottinn Guð! sem af mèr tókst, augnanna ljós, en myrkur jókst, í dauðans köldu kífi, sambúðar yndi sviptir hold, settir minn krans í græna mold, þyrmdu nú þjáðu lífi, tapaðan sýn ei trúskapinn, tak mig í náðarfaðminn þinn, bevari hús og börnin mín, blessuð forsjónarmildin þín; unn oss, þá lífsins ánauð þver, í eilífri dýrð að sýngja þèr, halelúja! halelúja!

---

## Skilnaðarkveðja.

Lagið. Má eg ólukku ei móti stá.

Lifðu nú sæll við lambsins stól, langt fegri en sól, heilagur, heppinn bæði! Gleði það nægsta gefur mèr, Guð veitti þèr, eilíf ununar gæði, hans höndin klár, hefir þín tár, öll afþerrað, í friðarstað, leiddan úr lífs ónæði.

2. Þreyir mín hjartans þjáða lund, þá gleðistund, er þig mèr aptur færir, og í Guðs friðarfaðminum, forkláruðum, sætustu sambúð nærir. En meðan líf, kannar heims kíf, ástareldinn, ó, Jesú! þinn, brjóstinu bið eg tærir.

3. Öll þín fyrirheit ástúðleg, á allan veg, mèr til miskunar kómi, þolgæðis einnig drýgi dáð, þín dýrðleg náð, svo aldrei eyðist sómi; vertu mín sól, værð, yndi, skjól, heill hjartanlig, halt mèr við þig, í lífi, dauða og dómi!

---

## Fyrir minni syrgenda.

### 1. vers.

Lagið Eilíft lífið er æskilegt.

Minn Guð! sem þinni miskun hèzt, munaðarleysíngjum, og afþerruð með öllu lèzt, ekkjunnar tár forðum, sjáðu nú þetta sorgarhús, sèrtu Guð nauðstaddra, mýk þess ánauðir mildifús, marin bein umreifa, himneskri læknis hendi þín; hjörtunum gefðu svalavín, síns er ástvinar syrgja nú, sambúðaryndið misst, högunum dillir þeirra þú, þolgæðis tem og lyst, lífsins vor allra leiðum snú, loks inn í dýrðarvist.

### 2. vers.

Lagið. Blíði Guð! börnum þínum ei gleym.

Minn Jesús, miskuni þessum hóp, líknarfús, lægjandi stun og óp, ekkjuna faðmi fast að sèr, og forsvari börnin, þeirra sorgar högum hèr, hans fylgi vörnin; grát þú ei, guðhrædda kvinna!

þol og þrey, þessu mun linna, ól þann mey, er æ skal þèr sinna, því eilífum ertu Guði gipt, sá þèr gefur hönd við hönd, hinni máttkari, sá þèr gefur hönd við hönd, hinni máttkari.

### 3. vers.

Með sama lagi.

Öll þín börn, annast þú, Drottinn kær! heill og vörn, harmandi sálum fær; dreyra rauðum döggva þá, dropum lífæða, hjarta þíns, og huggun ljá, þeim hrygðirnar mæða; verndarmúr, vert einstæðíngum, Faðir trúr! föðurleysíngjum, við andlátsdúr, eyð mótlætíngum, allra þinna hèr í heim; skugganum hnekktu skoðun með, skínandi dýrðar, skugganum hnekktu skoðun með, skínandi dýrðar.

---

## Minníngarkveðja.

Lagið. Sólin upprunnin er.

Ó, þú hin sæla sál! sorgum aflúða, sem beiðst í bæn forsjál, brúðgumans prúða, hvíl heillum gædd, hans viður dýrð margfalda, rósbjört af raunum gædd, rèttlæti Jesú klædd, um aldir alda.

## Andlátsvers.

Lagið Guð Faðir, Son og Andinn hreinn.

Lífkröptug æðalindin þín, lausnarinn Jesú kær! öll hugarmæða, eymd og pín, angursbót sè mèr vær, himneskra gæða heilsuvín, hjartanu blæða láttu mín, dapur þá dauðinn slær.

## Vers til heilags Anda.

Lagið. Ó, Jesú minn! eg finn, á líður hèr.

Þú sanna ljós, lífrós, lind gleðinnar, Guðs Andi klár! sem krossins tár, kinnum afþerrar, hygðu að hörmum þinna, huggun lát þá finna, stöðva stun og kvein, styrk öll marin bein, yfir megn engan reyn, græð vort hið síðasta grafarmein.

## Vers til heilagrar þrenníngar.

Lagið. Ó, Guð, minn Herra! aumka mig.

Heilög þrenníng sè hábIessuð, heiðruð, lofuð og marg-tignuð, fyrir öll sín ástargæði, andar og lífs hjálpræði. Föðurnum greiðist fagurt lof, fyrir síns Sonar dýra gjöf; Syninum sæmdin mesta, er sigurinn gaf oss bezta; Anda heilögum æra og dýrð, af öllum túngum verði skýrð, fyrir sitt öflugt ástríki, öll heilög þrenníng tignuð sè, um eilífar aldir alda!

# Brullaupskvæði,
## kveðið til
## sèra Jóns Sigfússonar
## og konu hans
## Þuríðar Guðmundsdóttur,
## 7. október 1731.

Lagið. Upphef eg augun mín.

Aldingarð ágætan, áður með hæstum prís, gæðum grundvallaðan, Guð skóp í Paradís, ilmandi alls konar, aldinis fögur blóm, plantaði þýðust þar, þrenníng almættis fróm.

2. Eik lífsins eðlamæt, ein í þeim garði stóð, ávaxtar yfrið sæt, innir svo Ritníng, fróð, Adam í heiðri há, hèr næst var skapaður, til íbúðar einnig þá, Eden takmarkaður.

3. Fremdarhag fullkominn, föðurleg Drottins náð, Adam í sama sinn, sofandi fèkk þar tjáð, Evu til yndis því, uppbyggði af rifi hans, leiddi svo lofleg í, lystigarð hjónabands.

4. Þar inni þau með lyst, þjónuðu Drottni sín, hörmúngarbölið bist, bætti þeim Jesú pín. Arfalið Adams því, erfðarètt þennan tók, er margs konar ömun í, yndi Guðs börnum jók.

5. Ununarefni slík, ykkar nú kæta sjón, ástúðleg, ærurík, útvalin dygðahjón, í téðum aldingarð, eru þið gróðursett, blómlegri blessan varð, begáfuð ykkar stètt.

6. Komið nú sigursæl, signuð af Jehóva; Guðs ástargjöf inndæl, gleði lífs hagina; ykkar stand athugið; eðla samlíking tók, Kristur dýrkeypta við, kristnina trygðir jók.

7. Áður í Eden stóð, allfagurt lífsins trè, gjörvöllum meinamóð, mannsins er varnaði; upprunnin eðla rós, önnur í þessum stað, er Jesús ykkar ljós, yndi því hallist að.

8. Þótt Jónæ þýðum lund, þeim er við auðnu sól, upprennur eina stund, allvíða heims um ból, misfagna megið títt, mun ykkur víst í tè, athvarfið einkablítt, undir því lífsins trè.

9. Veri þar ykkar værð, vilkjör og frjófgun öll, í Guði endurnærð, ilmandi daggarföll, hunangs af hverjum kvist, hans náðar drjúpi þar, ykkur, sem lífgi lyst, loflegrar sambúðar.

10. Sem Davíð unni einn, ástkærum mági sín, og Jósep hjarta hreinn, hugljúfum Benjamín, Assverus Ester með, Elkana sinni frú: eins ykkar ástargeð, ektabands ræki trú.

11. Engin lífs ömun bráð, örfanda sútar kaf, deyfi þá kærleiks dáð, Drottinn sem ykkur

gaf, heldur með heiðri og prís, haldist um æfi sú; Guði sè vegsemd vís, vandist af báðum trú.

12. Af hæðum hljóti þið, hagkvæma gleðinægð, af láði fríðan frið, flest ykkur efli hægð; vötn, sjór og vindarnir, verði ykkur jafn-inndæl; blífið svo bæði hèr, blessuð og lukkusæl.

13. Ef Drottins eilíf náð, ykkar vill gleðja sæng, með afkvæmis eign á láð, undir hans hlífðarvæng, virt, aldur, vizka og dygð, vínkvisti dafni þeim, borin frá harma bygð, blómgist í sælli heim.

14. En þið með ástarlund, æ sèuð lífs um tíð, í Jesú náðar-und, innvafin fyrr og síð! háblessuð heims um frón, heill ykkar margfaldist, lendið svo lystug hjón, lofsæl í dýrðarvist.

---

## ÁRNAÐARLJÓÐ.

---

### Heillaósk til sèra Björns Skevíngs og konu hans Sigríðar Jónsdóttur, á brullaupsdegi þeirra 17. okt. 1736.

Lagið. Far heimur farsæll.

Álít þú öll verk, af alvizku Drottins sem gjörð voru merk, svo skaltu finna það Sýrak

fær kennt, sett hefir Skaparans vísdómur tvennt, hvort í mót öðru til hagsældar því, sem heiminum skóp í, sem heiminum skóp í.

2. Skugganum skin brá, skúr enda þurviðri, blæ kyrrur þjá, visnan til frjófgunar víkur alskerð, varmans og hörkunnar söm er aðferð, viðtekur sumar þá veturinn dvín, með verkunum sín, með verkunum sín.

3. Þess minna heims hag, held eg viðfestan um æfinnar dag, þau býti forlaga, þó annan veg, þráskipuð hvor öðrum gagnstæðileg, sæld, ánauð, missi, happ, sút og fögnuð, sendir oss einn Guð, sendir oss einn Guð.

4. Gjöf hans er gjörvöll, gallalaus, heilnæm og fullkomin öll, í hollum stað framreidd á heppinni tíð, af hjartgrónum kærleika þurfanda lýð, margföldum ávexti miðlar af sèr, meinsemdum æ ver, meinsemdum æ ver.

5. Heillarík hans náð, hyllir það gæzkunnar furðulegt ráð, að fyrir sjónvana sofendum önn, sínum þá bezt elur, nær þeirra grönn, framsýni getur ei grundað sinn hag, hann greiðir það í lag, hann greiðir það í lag.

6. Fyrr jáði eg tvennt, jarðar og himinsins eðli gagnvent, þar sumarið útþenur frjófgun á fold, sem fellur að haustinu kalin í mold;

þessa vèr skapnaðar skiptikjör tvenn, skoðum í dag enn, skoðum í dag enn.

7. En eg lít af þeim, aldinis lit-klæðum varpanda heim, til þess óárborna, tignara þó, sem tendrast í frjófgun, er hins prýði dó, varma því lífgunarvökvun inn drakk, við kvistu Zemak, við kvistu Zemak.

8. Hó, hó, þitt haustblóm, Herrans víngarður, sem kræsir vel góm, allra samfagnenda þeim gróða þín, þú gefur ilmandi gleðinnar vín, af kærleikans liljum þó kominn sè nær, kæll vetrar andblær, kæll vetrar andblær.

9. Sín limalauf græn, leggja til samans þín blómsturin væn, kyssast alglóandi knappanna flug, krönsunum undir þau flètta sinn bug; helíótrópía samtengja sig, sjá, tvö dávænlig, sjá, tvö dávænlig.

10. Rými nú rök sorg, raddarkyn heilög um þankanna torg, hvella með lofgjörðar hörpu slagnið, svo hátindar gómanna klíngja þar við, Amfíons, Pindari, kváðust ei kæn, kromata jafnvæn, kromata jafnvæn.

11. Hvað tefur mig meir, mín kvök að upp hefja líka sem þeir, andlegu söng-fuglar á lífsins trè, allir til hæðannna samkvakandi;

eg vil ei fresta, þó föng verði smá, fylla þann hóp, já, fylla þann hóp, já.

12. Guði sè lof lagt, sem lèt ykkar vilfögnuð, heiður og agt, þrifna við haustyrkju þessarar mund, þið göfug brúðhjón, með al-dyggva lund, að trygðanna veglegri tengíng á fold, tvö byggð í eitt hold, tvö byggð í eitt hold.

13. Sem Jósúæ sól, sitt yfir Gíbeon stöðvaði hjól, inn til þess kappanna sigur var sènn: um sál ykkar trygðanna glóandi men, æ bið eg skíni til útfarar lífs, og endíngar kífs, og endíngar kífs.

14. Verði sú veitt bón, vaxið og margfaldist, æru-dygg hjón! vaxið að loflegri vizkunnar dáð, vaxið í kærleikans eðli samráð, vaxi ykkar lofstír og yndi með art, öll heill og geðskart, öll heill og geðskart.

15. Í margfaldri manndygð, margfaldist æ blessuð fránumin hrygð, margfaldi Guð ykkar meðlætiskjör, margfaldist heiður og vinsældir gjör, margfaldist lífdaga mælíng af nægð, margfaldist öll hægð, margfaldist öll hægð.

16. Ilmi svo ávallt, í ást, heill og manndygðum líf ykkar allt, betur en Jerikó blankandi rós, Basans og Líbaní skógviðar

hrós, vinni þess prýði með vegsemdar róm, veittum af hvers góm, veittum af hvers góm.

17. Við Mara vatnsdrykk, vonar og þolgæðis fellið ei skikk, eg bið, og eik lífsins um byrli þeim, og Elims af brunn-vötnum sykri þann keim, destilleruðum við sína blóðsaft, með svalandi lífskrapt, með svalandi lífskrapt.

18. Innsveipuð eg bið, öll verðið græðarans faðmlögum þið, haustyrkja dauðans nær helsigðin ber, í hnotagarð Drottins og liljur af sker, ykkur sem skrúðbúnar skást voruð þar, í skírn plantaðar, í skírn plantaðar.

19. Básúnu hvellt hljóð, heims þegar dofnaða vekur alþjóð, upprísið Guðs dýrðar einneginn til, sem engin ber ljóssins og dimmunnar skil, sæl, heilög, útvalin síðan með lyst, sál og líf gleðist, sál og líf gleðist.

---

## Sumarósk,
### kveðin til klausturhaldarans, sgr. Hans Skevíngs og hans kæru konu, Guðrúnar Vigfúsdóttur, 1739.

Lagið. Kær Jesú Kristi.

1. Nýr náðar dagur, nýrra tíma skil, nýr næðis hagur, nýtt fagnaðar spil, endurnýjar

öldum, eðlis hýrna brár, hreggs og hríðar köldum, hjúpi steypir ár, kjörum hyllir kæti stand, kefur, stillir auðnugrand, ofan gyllir unn og land, **Óríons** tjalda skjár.

2. Voð veldis-geima, vindahjólin blá, hafs norðurheima, hrinda bylgjur á; grösum gróðr-aröndin, græðir saft í rót; lifna dýr um löndin, leika kvik á fót; spekir kransa fugla fjöld, fiður-glansa hreifir öld, lífga, dansa langt á kvöld, láðin brosir mót.

3. Fræfölvum reiti, færir smurníngar, dýr dropinn feiti, Drottins vagn-leiðar. Makt hans guðdóms gæzku, girðir jarðar-horn, vendir öld í æsku, ýngjast grös og korn, deilir mjallar dampann í, daggar salla, gjörir því, saft útkalla sæðin ný, sú þau bleikti forn.

4. Vitjar svo vægur, vors fátæka lands, Guð gæzkunægur, gleður mildin hans, allt hvað er og hrærist, yfir og neðar sól; honum heiður tærist, heims um gjörvallt ból, dáð hans hrósi dægur tvenn, dýrð hans glósi fylkin þrenn, jörð og ljósin öll, er enn. aldar glæsa hjól.

5. Sól sumars bjarta, sig fram gefur nú hýrt ástar hjarta, Herrans boðar sú, oss er hjúkrað hefir, heitt skínandi í náð, geislar enn og gefur. gladast hjálparráð. Vor lífshræríng

í honum er, alla næríng hann oss lèr, mýkir særíng, meinum ver, mektar frið og dáð.

6. Skjótt skipast mæður, skin af dögg frambar, tíð tekin ræður, til samfagnaðar, Guðs ástvinum góðum; gleðst eg einn þar með, horfinn huga móðum, hressir líf og geð. í Drottins hendi, hvað sem snýst, heill mín stendur, kvíði eg sízt, öll hans bendíng batar víst, er bót við sút fær lèð.

7. Allt áform hefir, afmarkaða tíð, Guð sviptir, gefur, grætir, huggar lýð, orkar ávallt sínum, öllu þó til góðs, hefir högum mínum, hrygða varnað móðs; þó eg líði um litla hríð, lausnartíða von er blíð, allt um síðir stemma stríð, straumar Jesú blóðs.

8. Því skal afþreyja, og þakkir Drottni tjá, hans vildum hneigja, og hann einn vona upp á, framar lofgjörð færa, fyrir liðna stund, nafni hans náðarskæra; nú við ferska mund, skal og ratast ríngum þjón, rækin gratulation, ykkur matin eðla hjón, út af dyggri lund.

9. Lífs lukku blóma, láði og hæðum af, auð, yndi, sóma, og öllu því er gaf, ykkur Drottins elska, inn til þessa dags, í friðarheill án fölskva, frjófgað enn til hags, utan þagnar

þelið dást, því samfagnar mitt af ást, óskir magnar einnig skást, auðnan geymi lags.

10. Sem varma sæðis, sumarblíðan ól, hæsta hjálpræðis, heit og fögur sól, geisli nú og gleði, gjörvallt ykkar ráð, lífið sóma seði, sinnið frjófgi dáð. Hörmúngunum hrindi fjær, hagsældunum þoki nær, fjörs í unun faðmist kær, fóstur Guðs á láð.

11. Um ykkur skíni, ástin Jesú hrein, viðsmjöri og víni, veiti á ykkar mein; allt hvað geðið grætir, gangi þurða til, hitt sem hugann kætir, hneigist fast í vil, lífsins dygða loflegt safn, leifi skygðast ærunafn, kærleiks trygða kostur jafn, krapti værðaryl.

12. Jesús lífslind hrein, lagi synda göll, heimsáttin hverein, og handa-verk hans öll, byr og blóma skírum, blási að ykkar hag, himins ljóma hýrum, hlíti gæfulag, jörðin blæði blessan þó, björg að hlæði vötnin frjó, hljótið bæði heilsuró, heppin sumardag.

13. Geðfelt ágæti, gæzkuhreina trygð, ástúð, örlæti, og alla hjartans dygð, mér og mínum tjáða, margfaldlegar hér, bið eg brunnur dáða, borgi ykkur með sér; öll til hægist uppskeran, eins og þægi sjálfur hann, hún sér dragi himneskan, hag, þá lífið þver.

11. Allt ykkar efni, af innstu rót eg bið, styði Guð og stefni, á stöðugt heilla mið; annist æ gjörvallan, ástvinanna krans, í friðarfaðminn snjallan, fel eg ykkur hans. Líðið, þreyið lífs með dáð, lifið, deyið Guðs í náð, hugarfegin síðan sáð, í sælu dýrðarranns.

## Til barnanna.

Láritz Guð styrki og stýri,
stór-dygðum auðgist Þórun,
við Hannes værðin loði,
vafinn sè lukku Davíð!
Vigfúsi döfnun drjúga
Drottins náð einnig votti;
öll ykkar hæstu heillum
haldi börn lífs um aldur.

---

## Nýársósk
## til sömu
## höfðíngshjóna, 1744.

Með sama lagi.

1. Gott ár í Guði, göfugi hússfaðir! Zíons söfnuði, senn á láði hèr, úngur alda-þáttur ofan hefst í fang, hreifir eðlis-háttur, hærri ljósa rang. Suðurgeima grætur hjól,

glöð norðheima lætur sól, niður sveima nætur ról, nemur dags uppgang.

2. Með makt inndælli, í merkjum sig fram dró, er önnur sælli, upprennandi þó, báðar sem brúðgumi, bruna af dýrum sal. hjartans hörpur þrumi, hefi þakkartal. Birtast ljósabrunnar tveir, blómann rósa vinna þeir, heiður kjósa hvor þó meir, hinum æðra skal.

3. Lind lífdrjúpandi, lífs af hæðum sú, líf allt lífgandi, lífsins dreyra nú, ferskum til vor fleytir, ferskan blóðs af und, friðgjöf ferska veitir, ferskan viður mund. Faðmi lýður fengið hnoss, fagran býður ástarkoss, Jesús fríður öllum oss; eja, gleðistund!

4. Glaðværðar gæti, gefur mèr í dag, sú sálarkæti, sendist yðar hag, kæri fósturfaðir! fylgir bæn af rót, að í Guði glaðir, gjöf hans takið mót; sinnið varmi Símeons lyst, sveipið armi Jesúm Krist, bljúgum hvarmi barnið kysst, blíðki trygðarhót.

5. Hans heitið æðsta, hans umskurnar sár, hans mildin hæsta, hans hin fögru tár, lýsi, leiði, hressi, lífsins yðar hag, bevari, styrki, blessi, bæði nótt og dag; hjúpi dáðum hjartað mest, hyli náðum allan brest, vilja og ráðum vendi bezt, víki rauna slag.

6. Dygð yðar dýra, daglega til mín, Guðs gæzkan hýra, gjaldi launum sín, happa gróður hæfi, hennar sáð í öld, uppskerunnar æfi, aldrei finni kvöld, fram svo þræðið tára tíð, teppist mæði, fár og stríð, yður blæði ár og síð, ástin Guðs margföld.

7. Gott ár í Guði, göfuga hússmóðir! frið með fögnuði, fæðir enn af sèr, undirlanda ljóma, lífgyllini rós, yðar sálar sóma, sýngið Drottni hrós. Upp er runnin sólin sú, sem þèr unnið bezt í trú, hjartans grunni hlýið nú, hennar viður ljós.

8. Leikið lofstrenginn, lysting hefist öll, frægur framgenginn, fílabeins af höll, yður er nýfæddur, andar brúðgumi, klárri myrru klæddur, kesju og alói, hans hið fríða höfuðgull, hárin prýða daggarfull, blóðug lýða brot sem ull, blæhvít gjörandi.

9. Mjúku málfæri, munns og hjarta sín, kallar hinn kæri: kom þú, dúfan mín! mynd fegurðar mæta, mig lát þína sjá, gleðiraust ágæta, glöggt og heyra fá, hjartans dýra mildin mín, minníng skýra ber til þín, brjóstið hýra býður sín, blíðvik þèr að tjá.

10. Eja! gottyndi, ó, þau vilkjörin, andar ástlyndi, yðar framboðin; njótið nú sem krefur.

náðar græðarans, allt hvað í sèr hefir, eðla mildin hans, yðar skíni heiðurshag, og heillum krýni nótt sem dag, runninn sýni raunaslag, ráðinn gleðidans.

11. Líf, lausn og yndi, leiðarstyrkur jafn, sól, sigurlindi, sè yður Jesú nafn, blessan þess innblæði, brjósti og högunum, eins og Arons klæði, umflaut balsamum; Drottins varma dreyrinn klár, deyfi harma gjörvöll sár, yðar hvarma ylni tár, í hans blóðdropum.

12. Guðs náðar nægða, njótið hverja tíð, og alls kyns hug-hægða, í heimi fyrr og síð, aldri og æsku minni, alin dygða slóð, gjaldi yður gæzku sinni, Guðs og meyjar jóð; engar feilist óska spár, af svo deilist vöngum tár, að finnið eilíft fagnaðarár, fósturmóðir góð!

---

## Sumarvísur
## til
## Láritz Hanssonar Skevings.

Lagið. Upp á fjallið Jesús vendi.

1. Rennur ósk af hug og hendi, hjarta frómi Láritz minn: allar tíðir sælar sendi. sálu þinni Lausnarinn, frá hans engla víst ei vendi, vöktun heldur líkaminn.

2. Eitt er það sem hug minn hvetur, heilsan slíka að inna þèr, þú hefir mörgu barni betur, bóknáms menntir iðkað hèr, fim umliðna lærdóms vetur, ljúfur, gegn og hlýðinn mèr.

3. Því skal bæn af hreinu hjarta, í himininn sendast vegna þín, að aukast megi og á þèr skarta, aldur, náð og vizka fín, fram til þess í friðnum bjarta, forlaganna skugginn dvín.

4. Nú með sumars blíðu blómi, beinist að þèr gæfan sterk, minn geðspektarfuglinn frómi, fagni þèr Guð og öll hans verk; eins í lífi, dauða og dómi, dugi þèr hans trygðin merk.

5. Þig umflýi fár og pína, frá þèr spyrnist heimurinn, undir fætur þrykkist þína, þúsund vèla smiðurinn; rekist æ þín lukkulína, löng og viss í himininn.

6. Hag þinn allan gleði og greiði, Guð sem hjálp á jörðu lèr, ástarfaðminn blíðan breiði, blessaður Jesús móti þèr, heilags Anda huggun eyði, hrellíng þitt ef brjóstið sker.

7. Lifðu æ með dygð og dáðum, dýru nafni svarandi, hlaðinn sóma, heill og náðum, hèr um dægur varandi, gjarnan hlýðinn góðum ráðum, Guði líf þitt sparandi.

8. Nær sem þinni hèrvist hallar, heims úr öllum nauðunum, Herrans engla hirðin snjalla.

hefi þig með sauðunum; standi Jesú undir allar, opnar þèr í dauðanum.

9. Yfir þig sem dögg hans drjúpi, dreyra foss við heljar grönd, sínum rauða hjartans hjúpi, helgur sveipi þína önd, mitt úr köldu dauðans djúpi, dragi þig hans líknarhönd.

10. Efni, ráð og æru þína, orð og verk, sem heyrn og mál, heilsukjör og hagi fína, hugsun, minni, líf og sál, fel eg Guði í geymslu sína; gefna þiggðu sumarskál.

---

## Nýárskveðja til ástmanna.

Lagið. Þá Ísrael fór af Egiptó.

1. Blessaður Jesús, bróðir minn! bezti sè nýárs gróði þinn, nafn hans þig endurnæri, umskurn hans hjartað umskeri, útrunnið blóð af synd hreinsi, tár huggun ferska færi, reifar hans helgun reifi sál, raustin ómálga styrki mál, máttveikjan hans þinn máttur sè, munaðarleysið víst hæli, öll hans læging þín hefð og hlíf, högg vægð, bönd frelsi, dauði líf, ak, eymd, óró, eja, dýrð, hó!

2. Fagni þèr gæzka Föðursins, fagni þèr miskun Sonarins, fagni þèr Andans friður, fagni þèr englafylking góð, fagni þèr Guðs útvalin þjóð, fagni þèr flest hvað styður, fagni

þèr lífsins farsæld merk, fagni þèr Drottins handaverk, fagni þèr mannorðsfrægðin dygg, fagni þèr heilsukjörin trygg, fagni þèr sèrhver fjörstundin, fagni þèr loksins eilífðin, allt hvað Guðs er, æ fagni þèr!

## Önnur nýárskveðja.

Lagið. Mikilli farsæld mætir sá.

Nýárstíð holla nú framber, nýtt ljós af hæðum skín, nýfæddan Jesúm nefni eg þèr, í nýársgjöf, systir mín! nýrrar umskurnar njóttu hans, ný sè þèr helgun tjáð, nýskerðist hvers kyns neyð og vans, ný-blómgist allt þitt ráð; endurnýist þèr líf og ljós, lán, heilsa, friður, yndi, hrós, allrar nauðþurftar uppfylling, öll mennt og guðleg dygð, Jesú dreyra rósrauð smurning, rèttlæti, náð og trygð, í dag, á morgun, ár um kring, og allt inn í himna bygð!

## Sumarvísur
## til
## Kristínar Jónsdóttur, 1737.

Lagið. Upp á fjallið Jesús vendi.

1. Það hefir kraptur guðdóms gæða, gjarnan fest við dygðirnar, meir sem vottar reynd

en ræða, að renni blóð til skyldunnar, sèrdeilis ef saman blæða, sætar andans trygðirnar.

2. Verða má þann yl mèr örfi, elskulega systir mín, þinna dygða gott atgjörfi, gæfulegt að heyrn og sýn; friðurinn aldrei frá þèr hverfi, fjörs á meðan dagur skín.

3. Þrotinn sýnist þessi vetur, þökk og æra Guði ber, oss er tíðir mildar metur, miskunarinnar væng under, hann af gæzku svo til setur, sumarið enn að höndum fer.

4. Komi það nú með byr og blóma, blítt af hæðum þèr á mót, hafðu not af himins ljóma, hauður, eldar, vatn og grjót, unni þinnar auðnu sóma, engin pín þig snerti hót.

5. Loptið, vindar, grös og geimur, græðis hyrjar kyn margfalt, dýpt og hæð, sem dögg og eimur, dimman, ljósið, heitt og kalt, fuglar, dýr og fegri heimur, fagni gæfu þinni allt.

6. Guðs þig faðmi gæzkan hreina, gleði þig hans eilíf náð, öll sè bótin andar-meina, öndu þinni jafnan tjáð, virðist Guð þinn veg að beina, og vera þinn skjöldur, líf og ráð.

7. Sálu þína svipti móði, signuð Jesú krossins mynd, hann með sínu hjartans blóði, hreinsi þig af allri synd, fríðan ástarfaðminn bjóði, flotinn sætri náðarlind.

8. Veiti Guð þèr vörn inndæla; vinnist ei til skaðræðis, heiminum þinn hug að tæla; hvergi farðu góðs á mis, þèr upprenni, systir sæla, sólin eilífs rèttlætis.

9. Við Kristum ertu kennd að nafni, kristni Drottins innplöntuð, Krists útvaldra kjörin safni, Kristó sjálfum trúlofuð; æ, þèr Kristí elskan dafni, í honum sèrtu margblessuð.

10. Ástargæðum hýr þig hressi, heilagur Andi fyrr og síð, styrki, leiði, lífgi, blessi, linni gjörvallt hugarins stríð, safnið dygða sætt innpressi, sálu þinni lífs um tíð.

11. Skaparans englaskarinn mæti, skjaldborg seti kríng um þig, ekkert heimsins eptirlæti, engin mæða skaðvænlig, hrindi þèr frá Guðs ágæti, gakktu beinan lukkustig.

12. Æra þín og auðnu vegir, upprennandi lífs um ból, rekist, sem af rökkri megi, renna björt í heiði sól, Guðs að vilja, þó sem þreyir, þitt sè tempruð gæfu-hjól.

13. Menntaríkið lukku ljósa, leggi þèr og einnig til, heiður þinn svo kunni kjósa, kvennprýðinnar háttaskil, marg-vinsældir manna og drósa, mjúkast falli þèr í vil.

14. Öllu framar á þèr skíni, alls kyns dygða fagurt blóm, þig um æfi þar með krýni,

Þrenníng sælum mannorðs-róm, Guð af sætu gleðinnar víni, gefi þèr svölun eptir dóm.

15. Lífsins þegar forlög falla, fram á dimma grafarbraut, Drottins Jesú dreyrinn alla, dauðans pína mýki þraut, svo þú megir höfði halla, hans í friðar eilíft skaut.

16. Æru, kjör og ástmenn þína, önd og líf um táraslóð, í forsjón taki Faðirinn sína, fyrir Jesú Kristí blóð; kveður þig svo ljóðalína: lífðu blessuð, systir góð!

---

## Aðrar sumarvísur
## til
## Kristínar Jónsdóttur.

Lagið. Kær Jesú Kristi!

1. Gott ár í Guði, góða sumar-tíð, ferskum fögnuði, frjófgaða eg býð, þèr af huga hreinum, hjarta systir mín, mesta bót á meinum, miðlist högum þín, sem nú gróa vítt um völl, við yl-fróa sæðin öll; auðna þróist þín gjörvöll, af þeim er hæstur skín.

2. Allt endurlifni, áform þitt til góðs, dugdrjúgar þrifni, dygðir hyggjusjóðs, söngum sáðfuglanna, samstemmi þín raust, Drottinn dýrðar ranna, að dýrka mæðulaust; hjartans

yndi hann sè þitt, hug þinn bindi fast við sitt, ástarlyndi kala kvitt, krapti, von og traust.

3. Í lund friðar ljósum, Lausnarans undir hönd, rèttlætis rósunn, rík-blómgist þín önd, fögur lystililja, lifandi Guðs á hæð. Verk þín, orð og vilja, veiti sèr nástæð, í æruneytri dáð og dygð, dreyra heitust Jesú trygð, hans þèr sveitinn sefi stygð, og svali hjartans æð.

4. Hvað hug þinn grætir, hjaðni og dofni allt, hvað hjartað kætir, heppnist þèr ávallt, fagni farsæld þinni, fuglar, dýr og sáð, blæði blessaninni, bæði vötn og láð, heilsa, friður, hægð óspör, haldist viður öll þín kjör, vinsæld iðug faðmi fjör, og fleyti mannorðs dáð.

5. Alls góðs þèr unni, almáttugur Guð, Jesú blóðbrunni, blessuðum ádöggvuð, lifðu frið umflotin, fróma systir mín! græðarans gæzku notin, geisli á högum þín, allar stundir æfitóms, eptir mundir lausnardóms, sittu að lundi sælu blóms, þar sumarið eilíft skín.

---

## Útfararminníng
## Ingveldar Sölvadóttur, 1735.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

1. Svo líða sorgarmundir, sinna lífs nauða kennir hverr, meðan Krists merkjum undir,

mæddan líkama dauðans ber; forlög að erfðum falla, fæðist í heiminn jóð, gleðinnar býður galla, grátur, þess fyrsta hljóð, ótignum, eðalbornum, auð er vök sama kífs, fer að skilmála fornum, fæðíng og endir lífs.

2. Hèrvistartíminn tæpur, tefst undir ljósaskiptunum, sældar og sútar hæpur, síkafinn margs kyns tiptunum, heimur ei lètt við leikur, lýr holdið andarmátt, samvizku-sviðan eykur, syndirnar fjölga þrátt, heilsunnar byr og blómi, bregður sem kulni strá; dregur svo fjör að dómi, dauðastund loksins á.

3. Ó, hvað sæll er sá maður, afneitar jafnan heiminum, gengur syrgjandi glaður, gefur sig allan himninum, trygðar og bænar tárin, til Drottins elur skær, æ þó margfaldist árin, elli með dygðum nær, Jesú friðsjónar fundi, fagnar og meðlætist, burtfarar hægum blundi, borinn í dýrðar vist.

4. Hans líf er Herrann Kristur, honum er dauðinn ábati, hann er oss hvergi misstur, hans eigum von á samfundi; hann skal með heiðri krýna, hans minníng æruverð, hans önd ei hittir pína, hans eru tár afþerrð, hann er til sigurs hafinn, hans yndi stár óvalt, hann er Guðs heillum vafinn, honum er Jesús allt.

5. Sætir nú svoddan prýði, sinn eptir þeginn lausnardóm, ein með útvaldra lýði, Íngveldur Sölvadóttir fróm; Guðs eptir góðum vilja, getin, fædd, helguð var, lystileg Drottins lilja, lifandi dygðir bar, úng í Guðs ótta nærðist, unni Skapara sín, hennar því högum tærðist, heiður og blessan fín.

6. Fróm-artug friðinn æfði, foreldrum hlýðin, ástarþekk, menntir við mátann hæfði, mannúðleg, settlynd æ framgekk, almælis hafði hrósið, hyllirík, ör og greind, við lífsins orðaljósið, lyst hennar mjög var eind, góðvikin mæddra meinum, meðaumkun yfir bar, varla stygð veitti neinum, verkkaupið loks uppskar.

7. Undir sinn tvítugs aldur, allmjög í dygðum þróaðist, vildi þá Guð alvaldur, vitjunarstundin nálægðist, hérvistar heilsu tíma, hratt að síðasta púnkt, löngum krossburðar líma, lúði mjög holdið úngt, blóðug Krists benjasárin, brjóstið lét hugga þó, andvörp og augnatárin, öll hennar til sín dró.

8. Krankdæmis kafin mæðu, kröptug í trúnni mettaðist, sannhelgri sálar fæðu, sveipaði hjartað Jesúm Krist, himnesku dýrðar hnossi, hlakkaði til að ná, kveðju með ástarkossi, kæra gaf eptir á, sínum sameiginlega, sérhverjum

ástvin þar, þakkandi, þó með trega, þeim öllum dygðirnar.

9. Fèkk síðan fáar stundir, framdregið, þar til veraldar ljós, hennar gekk augum undir, útvalin Jesú dygðarós, hnè fyrir hægan dauða, hans í miskunar faðm, öllu svipt angri nauða, unir við lífsins baðm, vitnisburð hæfan hefir, hlotið í Paradís, minníng þar glæsta gefur, Guð hennar dygða prís.

10. Í lifanda lífsins blóma, lofsæl um aldir fegurð skín, heiðbjörtum himins ljóma, hreinast inndrekkur gleðinnar vín, útvaldra kjörin kransi, krónu rèttlætis ber, Drottins lofgjörðar dansi, dreifir af vörum sèr, öll hennar dýrð og æra, ódauðleg þar af stár, að Skaparans auglit skæra, hún skoðar um eilíf ár.

11. Vèr sem í von inndælli, við hjörum lífsins táraslóð, samfögnum hennar sælli, sigurvinníng fyrir lambsins blóð; en þó kífs undirrótin, oss beiski forlögin, ríkust er raunabótin, rètt að vèr allir senn, öruggir heilum huga, heitum á Jesú brjóst, eins mættum yfirbuga, allrar heimsmæðu þjóst.

12. Jesú! þín bönd og benjar, blóðugur sveiti og dauðastríð, mýki svo A d a m s menjar, með oss á þeirri hörðu tíð, er lífsins andar

værir, uppþorna líkt sem hjóm, og dauðans sverð útsærir, sálina fyrir þinn dóm, að vèr þá innsveipaðir, allri þíns hjartatrygð, heimleiðumst hugarglaðir, hèðan í sælubygð!

---

## Útfararminníng

### sýslumanns Spendrups,

### er druknaði af ferju í Hèraðsvötnunum nóttina milli 5. og 6. október 1735, en var grafinn að Reyninesstaðar kirkju, hinn 18. sama mánaðar.

Lagið. Syrgjum ekki sáluga bræður.

1. Hví kvöldar? Hvað byrgir ljósið? Hverr deyfir gleðinnar hrósið? Hví þyljast harmar af túngum? Hvað veldur andvörpum þúngum?

2. Hverr kallar? — lífið. Hvað? — dauðann. Hvar til? — hann gjörir sess auðan. Hvern? — þann er frægur var fundinn. Fyrir hvað? komin er stundin.

3. Hvað rómar kallandi kraptur? — Komið þèr blessaðir aptur, fangaðir, fyrr dauða mæddir, frelsaðir, lífinu gæddir.

4. Hverjum er kjörin sú kveðja? — kappa Guðs útvöldum; beðja, sorganna, sem ei gat haldið, en sæll Jesú blóðfaðmur valdið.

5. Úr köfum angurs og dauða, óværðar, sjúkdóms og nauða, í frið og fagnaðar mæti, frelsi, líf, heiður, ágæti.

6. Grein mèr þann Guðs vin með nafni, sem glæstan í dygðanna safni, þú lèzt fyrir skömmu hèr skína, og skjótt bíða formyrkvan sína.

7. Ritað á bók lífsins bjarta, blessað hans heiti mun skarta: Jens Matzson eðla-göfugur, að auknafni Spendrup, sálugur.

8. Dýr, valinn, dyggur höfðíngi, dómari í Hegranessþíngi, ættstór og einkavel metinn, áður á Jótlandi getinn.

9. Hans feðra heiti, nafnbætur, hús, arfa, kvinnur og dætur, alls veit eg ekkert að reikna, annað mig girnir að teikna.

10. Sem er hans eilífur sómi, sá, að Guðs ástvinur frómi, fæddur af föðurnum ljósa, feðranna dygðum nam hrósa.

11. Rèttsýnn og röggsamur talinn, ráðhollur, einnig útvalinn, laganna grundvöll að leggja, lýðum til nytsemda tveggja.

12. Vegsemdar vegu rekjandi, vildasta nam hèr á landi, rèttarins fullmakt að færa, fram gekk svo höfðíngjans æra.

13. Stjórnsemi veglega valdið, víst gat og lögum upp haldið, matti svo málin sem krafði, manngreinarálit ei hafði.

14. Farsæll og forsjónartamur, friðgjarn, en vandlætissamur, ódygðarháttum að hnekkja, hugði víst engan að blekkja.

15. Böl ekkna bætti með prýði, brjóstgóður þurfanda lýði, vinsælda vann sèr ágætið, val manna kallaður ætíð.

16. Guðræknis hlutskiptið hæsta, honum bjó virðíngu stærsta, lyst hafði í lögmáli Drottins, lít eg það glöggvasta vott hins.

17. Guðs kirkju gjarnan vitjaði, Guðs orð af hjarta stundaði, Guðs tiptun geðprúður sætti, Guðs dýrkun brjóstinu rætti.

18. Líf, heiður, önd, eign, umsorgun, ástvini, kvöld hvert og morgun, hús, kvinnu, hjú, börn, sem þáði, hann Guði befala náði.

19. Frægastar framleiddi stundir, Frelsarans blóðmerkjum undir, velbygður von og þolgæði, vannst honum Drottins hjálpræði.

20. Út rann svo æfinnar hlaupið, inn til þess dygðaverkkaupið, sætt fann á Símeons stundu, sælli við Jesú blóðundu.

21. Fimtygi og fim ár í heimi, fjáður af dygðanna seimi, lífs þreyði, lifir margfaldur, lofsællar minníngar aldur.

22. Vindbyl og vatnsstrauma hreina, vagnleiðir Helíus' beina, samt efnið helgunar salla, af sorgum lèt Guð hann út kalla.

23. Vötn dauðans vök honum gjörðu, vatnsbrunna á lifenda jörðu, líkvatna liðinn frá bóli, lífdrykkja vötn af Guðs stóli.

24. Úr myrkrum leiddist í ljósið, lífs nauð í sælunnar hrósið, hrygðum í himneskan fögnuð, hans er því gleðin almögnuð.

25. Skínandi skrúða rèttlætis, skrýddur í vist friðarsætis, pálmavið hefir í höndum, heilagra samfagnar öndum.

26. Fríðustu faðmlögum vafinn, Frelsarans Jesú til hafinn, arfskiptis eilífra gæða, öll er hans burthorfin mæða.

27. Fagni því himin og hauður, honum er lokinn sá auður, sem ryð kann ei granda nè rotti, Ritníngin tel eg það votti.

28. Fagnið hans ástvinir allir, sem eruð í gleðinnar hallir, kjörnir að koma á hans fundinn, kveinið ei, nálæg er stundin.

29. Senn kemur Drottinn að sýna, hvað Sonarins bænir og pína, hlífir, þá heimur ei líknar, en holdið af dauðanum bliknar.

30. Vakið til vegferðar hraðir, verið æ syrgjandi glaðir, dregur að hjálpræðisdegi, dómarinn biðleikar eigi.

31. Drottinn, sem lífgar og deyðir, úr djúpinu síðan upp leiðir, veri ykkar athvarf og yndi, öll við sín fyrirheit bindi.

32, Láti sitt liðsinni mesta, líf og sál aldregi bresta, þar til í dauðanum dofnið, og Drottins á örmunum sofnið.

33. Alfrí af alls konar mæðum, uppskerið fögnuð á hæðum, í sambúð ástvina þráðra, ókvíðin skilnaða bráðra.

34. Jesús vort höfuð og hirðir, sem hugmædda sorgunum firrðir, allra vor meinsemdir mýki, og mæðu til rósemdar víki.

35. Veiti oss í voninni að þreyja, viðbúnum síðan að deyja; þar, þegar, þannig á láði, sem þægt er hans alvísa ráði.

## Útfararminníng Hallgríms Magnússonar, er deyði hinn 11. janúar 1737, á 25. aldurs ári.

Lagið. Guði lof skal önd mín inna.

1. Ó, Guð í eilífðinni! alvís, heilagur, sæll og trúr, þú sem af elsku þinni, þrá-leysir holdsins böndum úr, sálirnar sorgum beygðar, sem undir náðinni, ektaðir áður leigðar, í þínum víngarði, fagran opnandi faðminn, fyrirheitanna þeim, við lífsins bjarta baðminn, í bygðarsælli heim.

2. Þitt vald og dýra dóma, dásemdarverk og æru skal, mín önd og munnur róma, meðan eg byggi táradal, enn þó ömunarslagur, aðgusti þönkunum, og sorgardimmu dagur, dreyfist að högunum, við huggun þá eg þreyi, þar kemur loksins að, mitt angur, mein og tregi, mèr verður umbunað.

3. Þessarar tæpu tíðar, tvöfaldleg hrygð og mótlæting, sèr hefir kjörin síðar, sjöfaldrar dýrðar ávinning, reiknast ei svoddan sælu, sannlega verðug þó, sem eptir súta kælu, sínum Guð Drottinn bjó, þann fögnuð augað opið,

einskis manns litið fékk, hefir sízt heyrn inndropið, huganum fjær það gekk.

4. Af þerrar angurstárin, útvaldra kinnum Drottins hönd, rakur þó rotni nárinn, rèttlætis hjúpur skýlir önd; beinin í friði blífa, bevöruð utan meins, hár þau af höfði drífa, hefir Guð talið eins, dauðann að sætum svefni, sjálfur þeim gjörði hann, ekkert hörmúngarefni, öndina snerta kann.

5. Hverr er sá grundað geti, Guðs barna fögnuð annars heims, meðan í hrygðar hreti, hjarir veraldar innan geims? Sjúkdómur enginn sýkir, sorg öll er horfin þá, himinsins ljóma líkir, leiptra þeir englum hjá, Guðssonar hægri handar, heilög útvalin börn, lèttfærir eins og andar, engin sèst gleði þörfn.

6. Rèttlætis krýndir krónu, klæðin hvítfáguð bera þeir, glansinn af Guðs ásjónu, gleður þá allri sælu meir, bjartir í höndum halda, herlegri pálmagrein, Lausnarans lof margfalda, lífsvötnin drekka hrein; sú lind um eilífð aptur, af þeirra lífi gár, kætir innbyrðis kraptur, kærleikans furðu hár.

7. Þó alheims eptirlæti, allar hans tíðir fram til dóms, hèr á einn hlaðist gæti, hæstar að gildi maktarblóms, skár jafnast skugginn

viður, skínandi í heiði sól, en Drottins dýrðar friður, dauðleikans gæfu hjól; hæst er líf, heill og yndi, himneskan Guð að sjá, leikur því allt í lyndi, lofsöngvurunum hjá.

8. Í þennan ódvínandi, allra trúaðra vilfögnuð, dró hèr af dauðans landi, dýrðarsamlegur himna Guð, minn ærumerkan bróður, mæðunnar stytti von, heitinn var hjartagóður, Hallgrímur Magnússon, æskublómsárin fjögur, yfir tuttugu bar, hans þegar ferðin fögur, fèll í Guðs hendurnar.

9. Líknarvild Herrans ljósa, lífs allir þakka skyldum vær, hans verkum einnig hrósa, heyrðum og sèðum fjær og nær, gullvægan ávöxt gefur, Guðs dýrðar leitun öll, þann lysting hennar hefir, hendir ei glæpa föll, því vil eg sælan segja, sèrhvern er hana jók, fyrr lífs en fór að deyja, og friðarins höfn svo tók.

10. Maklega má eg hrósa, míns vinar látins þeirri dygð, skýrar en skærust rósa, skein hans líf hèr í æru og trygð, viðfeldinn, viðmótsgóður, vinsæll og friðargjarn, síþekkur sinni móður, sem dygðugt einkabarn, hýrmáll, í hófi kátur, hneigður til mennta víst, guðrækinn, lítilátur, lastmælum eirði sízt.

11. Tryggorður, trúnað festum, til ódugnaðar hvergi brá, ei var tál auðnu-hresstum, eður lausmælgi fundin hjá; einlægur út af hjarta, ásthugull vinum þó, siðgæðisblómann bjarta, bar víst, en ekki dró, þroskaði dygðum þanninn, þægur sitt únga líf, framleiddi fjörs um ranninn, fast við þá sögn eg blíf.

12. Utan mótlætis enginn, í gegnum dauðans myrkur er, Guðs dýrðarvist inngenginn, gjör vitnar Pálus þetta mèr. Allt hold sem fatið fyrnist, forlögin valda því, sitt efni sèrhvað girnist, sig loksins myndað í, líka sem reyr og rúða, rjóð liljan fèll og blá, elliskerf æskan prúða, einneginn þiggja má.

13. Í lífsins bezta blómi, beiskjunnar kaleik þessi minn, ættbróðir einka-frómi, áskenktan þáði líka sinn, vikurnar vel svo tíu, við dauðans fætur lá, inn til með ári nýju, upprèttan þeim í frá, krossins hjúp Guð afklæddi, kær í hans faðmi dó, helga braut heim svo þræddi, hèðan með Stephanó.

14. Þrekaður þvíngun meina, þáði tvisvar á banasæng, hold og blóð Jesú hreina, hann með öflugum trúarvæng, allan fèkk að sèr vafinn, ei fannst á nokkurn hátt, þolgæðiskraptur kafinn, krossins þó drýgði mátt, heilagar hóf

upp löngum, hendur og lausnar bað, fèllu tár vörm af vöngum, viðstaddur sá eg það.

15. Sorgar þó sældi regni, særður í dauðans böndum einn, freistar ei frekar megni, Frelsarinn Jesús gæzkuhreinn; sampínist eymdum sinna, sætasta mildin hans, metur forþènan minna, misgjörðir syndarans, kemur í krapti hreinum, kveðju nær þykir mál, hèðan frá holdsins meinum, hjartans örmæddri sál.

16. Eins hefir hann álitið, hèr greindan vin og bróður sinn, mæddum gaf mál og vitið, mitt undir síðust andvörpin, leifði svo lyktan hörmum, leysti hvað bundið var, sálina sèr á örmum, í sæluhús inn bar, meðal vor hvíldir hefir, hold í Guðs barna reit, þar til hann þess útkrefur, þann dag er sjálfur veit.

17. Þakkir, lof, heiður þýðast, þiggi nú Guð á himnatrón, fyrir það einka-fríðast, frelsið, er veitti sínum þjón; en eg sýng: aví, bróðir! undir stríðsnótunum; aptur þó: eja, bróðir! yfir þeim sigrinum, Guð sem þèr gaf og lènti, gæzkuhreinn, fyrr en mèr, sála þín hnossið henti, hvert eg veit, en þú sèr.

18. Um þig dauðmoldar manninn, margur ber æruvitnið sitt, lystir mig líka þanninn, lengur en skemur virða þitt, merkismannkosta

næmi; mikils þó hefðir ei, ráð eða ríkidæmi, rètt varstu forsjál mey, þíns Guðs, er þig elskaði, þægur af hjarta meir, mörgum þeim mig stundaði, meðan hèr lifðum tveir.

19. Elsku mèr ávallt sýndir, óska-dýr söngur þinn mèr skín, nú eru tímar týndir, trygðar og æru sakna eg þín. Ei gefur moldin málið, mína sem kætti lund, þá súpum sama kálið, sorganna lífs á grund; mig annars meira gleður, munum við aptur sjást, kjörheillum krýndir meður, kyssast í fegri ást.

20. Sofðu nú, sæti bróðir! sæll í Guðs jörðu fram til dóms! þína marg-hressi móður, miskunar-heitin Kristí róms; eins hennar ektamaka, ellinni hrjáðan mjög, traust að sèr virðist taka, trúr Guð á allan veg, breiðandi beggja högum, blessaðar hendur mót, inn til þess að forlögum, öll hefst á meinum bót.

21. Sá Drottinn lífs og dauða, dýrstur var, er, og koma mun, sinna vitjandi sauða, síðustu lífsins útfölun, veiti oss öllum væga, við dýkið Jesú blóðs, ástarmund höfði hæga, hirði, sem móðir jóðs, klárir við andarkvíðann, kvellíngu, stun og sorg, að hittumst allir síðan, í Drottins friðarborg.

# Útfararminníng Höskuldar Jónssonar, 1737.

Lagið. Lít upp mín ljúfa önd.

1. Allt hefir umbreytíng, að skipun forlaga, sækir án tafar heims um hríng, hvað til síns uppruna.

2. Vötnin sem falla frá, flæðandi sjáfarhyl, í djúpið hafsins aptur gá, uppsprettu þaðan til.

3. Skúrin, sem draup í dag, dregur sig loptið í, samgróin ský með svoddan slag, senn gefa dögg á ný.

4. Eins hvað á jörðu óx, aptur til jarðar snýr: eikur, sáð, runnar, aldin plógs, ormar og gjörvöll dýr.

5. Mynduð af jarðar mold, manneskjan er til sanns, því verður liðið hennar hold, að hníga til upprunans.

6. Nær sem það kall á knýr: komið þèr manna börn; trúuðum stundin trega-rýr, tæmir sú alla þörfn.

7. Dýrmætan andlátsdúr, Drottinn Guð metur þeim, upp heiðir sæluskin af skúr, skaprauna fyrri í heim.

8. Hverfa þeir hèðan til, heilags uppruna síns, settir við nægan svalahyl, sætasta gleðivíns.

9. Hætt yfir heljar djúp, heimleiddir sorgum frá, rèttlætis Jesú rauðum hjúp, reifaðir sigri ná.

10. Byggja sitt eðlisból, beinin til grafar færð, andinn veglegur yfir sól, í Guði tekur værð.

11. Sínum því sauðum bjó, sjálfur þann gleðihag, allir þeir fyndi eilífa ró, eptir sinn mæðudag.

12. Og sem hèr yfirgár, ímyndan, heyrn og sjón, Drottins útvaldra heiður hár, hæst fyrir lambsins trón.

13. Svo mikil sorgum þá, sælugnótt eptir fer, þeir aldrei minnast þaðan í frá, þrauta, sem báru hèr.

14. Sofnaður, sálar hress, sætan við andlátsdúr, hlutskiptis notið hefir þess, Herrans ástvinur trúr.

15. Vor bróðir alinn einn, undir veraldar ljós, elliprúður og æruhreinn, eptir sig lagði hrós.

16. Merkis manndygða sín, meðan oss þreyði nær, hans minníng sæl á himnum skín, hún skal oss einnig kær.

17. Blómgast hans beinin köld, bygð andans sælli mót, þar var sá maður einn í öld, er elskaði Guð af rót.

18. Hátignar einatt hans, helgidóm kepptist að, góðrar siðvenju gaf ei stans, guðrækinn söng og bað.

19. Hollur sitt hús án kífs, hann í Guðs dýrkan jók, þjáníngar byrði þessa lífs, þolugur jafnan tók.

20. Fannst honum fríð af akt, friðsemin hjartans þekk, eins og það ljós er logar spakt, lundhægur áfram gekk.

21. Skilríkur skiptum í, skapörr á góðvildir, ágætrar mannorðs æru því, aflaði frómur sèr.

22. Fyrir þá friðarást, frekast er æfði þó, jafníngjar hans nú færri fást, fyrnar so kyrð og ró.

23. Með greindum sóma sið, sín dægur gjörvöll ól, inn til við hægast andlátið, öndina Guði fól.

24. Sem fyrrum segir ljóst, settlyndis dagfar hans, eins hèr að lyktum inndæll bjóst, afgangur dygðamanns.

25. Við heilsuvana þrótt, veikan þó mjög um stund, sig bar á fótum, síðast rótt, sofnaði næturblund.

26. Að morgni máttarhress, meir venju kvaðst, á ný, höfgaði lítt, en sælu sess, sálin tók ört í því.

27. Líka sem annað ljós, liðinn af þessum heim, við Sarons unir rauða rós, ríkur af dýrðar seim.

28. Hann Drottins heiður jók, hann Drottins ok vel bar, hann Drottins faðmur hèðan tók, hann Drottni lifir þar.

29. Lík hans er lagt í mold, líflegast öndin skín, sællrar upprisu heilagt hold, harmalaust bíður sín.

30. Hans dygða minníng mæt, með honum ekki þó, heiðvirðum skartar hún ágæt, heilögum fegur þó.

31. Far vel, þú fróma sál! friðinn, sem æfðir hèr, friðhelg við Jesú friðarmál, friðarvon sáðir þèr.

32. Heimsins ófriði fjær, friður þinn blómgist nú, eins og það lauf á lundi grær; lyktast ei frjófgun sú.

33. Afleystur allri pín, eg megi fagna þèr, holdsins þá eymdarhagur dvín, hæstur Guð veiti mèr.

34. Andlátið eina þitt, ó Jesú, Maríu son, heldofið næri hjartað mitt, himneskrar sælu von.

35. Og sem það firrist önd, afþerruð gjöri klár, miskunar þinnar mjúkust hönd, mín öll af kinnum tár.

36. Kvittum við raunaról, renna lát sálar hag, eilífs rèttlætis eilíf sól, eilífan gleðidag!

---

## Útfararminníng systranna, Guðrúnar og Guðnýjar, Íngimundar dætra, sem önduðust á sumardegi ársins 1738.

Lagið. Ó Drottinn allsvaldandi.

1. Sú tekur senn að hækka, sár harmaklögun Davíðs ein, heilagir fyrnum fækka, fjölga trúlyndra dofin bein, rósir líkt, reynum falla, raunir slíkt, má vel kalla, dauðinn ríkt, duptinu þekur alla.

2. Vinsældir, vizku, trygðir, vænleik og hreysti líkamans, mannvit, auð, merkar dygðir, metur einn skugga bræðin hans, þá svo ber, högum hagi, holdið sèr, moldin dragi, en sæld óþver, sálunum fornægi.

3. Skilmálinn er svo skaptur, skepnu mannlegri um allan heim, enginn lífsanda kraptur, afl hefir til að raska þeim, rómur skár, reiðarslaga, rís upp hár, dóms forlaga, þú skalt nár, þinnar saddur daga.

4. Hnossið þó annars hljóta, hverir sem elska Jesúm Krist, þegar lífsárin þrjóta, þeim er tilbúin dýrðarvist, geymdir við, gráti og trega, gæddir frið, alla vega, hjá Skaparans hlið, skína þeir eilíflega.

5. Mótlætis ekki minnast, meðlætis hagur skín svo hreinn, þúsund ár þessum finnast, þvílík sem væri dagur einn; hátt við stól, Herrans dansa, heitri sól, fegur glansa, eilíft hól, aldrei má þeim stansa.

6. Þeir sem dagsþúngann sveittir, þolinmóðlega báru hèr, síð og ár samt óþreyttir, sáðverkin dygða tömdu sèr, fögnuð á, friðarins landi, ferskum ná, uppskerandi, verðlaun há, í vegsemd ódvínandi.

7. Lifandi lærðu að deyja, lífið í dauða hrepptu því, þeir gjörðu lífs að þreyja, það líf nú sjálfir gleðjast í, rósin lífs, líf þeim greiddi, ljós einhlífs, vegar reiddi, hrós án kífs, hafa þeir slíkt hann beiddi.

8. Guðs barna gleði slíka, guðhræddar systur bygðar trú, Guðrún og Guðný líka, Guðs hafa báðar þegið nú; sælu nær, sál ei grætur, sóktu þær, harmabætur, ærlegar tvær, Íngimundar dætur.

9. Önnur í ekkju standi, elskhugum tveimur skilin frá; hin geymd í hjónabandi, holdsins útfarardegi á, skærust kjör, Kristí brúðar, kær, óspör, gistu lúðar, værast fjör, vistuðu elliprúðar.

10. Missirið mundi sama, mælíngar lífsins daga jók, báðum fyllíngu frama, fríður Guð, sem þær að sèr tók, hepti flóð, harmanauða, hold og blóð, Jesú rauða, synda móð, svipti þær í dauða.

11. Að lyst og lífsins dáðum, líkar sem skyldar voru þær, blessun að dundi báðum, breytni þeirra var Guði kær, ríka trygð, rausn haglega, ræðublygð, andartrega, og beztu dygð, báru þær marga vega.

12. Menntanir hugvits hæfar, hagsæld og mannorð æruneytt, ráðs og minnis gjör gnæfar, gáfur þeim hafði Drottinn veitt, hlýðir grein, happs til leggja, hittist ein, rótin beggja, kosta hrein, kynstafanna tveggja.

13. Af Guði fegurst fæddar, fræddar af Guði sönnum bezt, Guðs Anda krapti gæddar, guðlegri dýrkan sinntu mest, Guð um náð, gjarnan báðu, Guðs hjálpráð, jafnan þáðu, guðleg sáð, Guðs kornhlöðu náðu.

14. Sæll er nú sigur fenginn, sæmd, hagur, yndi, líf og prís, glaðværð, en grátur enginn, Guðs liljum þeim í Paradís; viður trèð, lífs þar ljóma, laða geð, öllum sóma, reifðar með, rèttlætisins blóma.

15. Hagur kífs hepti dægur, hèr í jarðneskum táradal, dagur lífs þeim er þægur, þar í himneskum gleðisal, ást við Krist, að margfalda, eptir vist, heimsins kalda, þróar lyst, þeirra um aldir alda.

16. Heillir svo háblessaðar, hólpinna þar í dýrðinni, sèr krefja samfagnaðar, syrgenda hèr á jörðunni, stund að ber, stygðum hafnar, styrjöld þver, angur kafnar, ljúfum sèr, loks þá Guð heimsafnar.

17. Þeir sem í Drottni þreyja, þreyjandi í Drottni finna ró, í Drottni sèr þá deyja, deyjandi lifa Guði þó; í ljóssins heim, líf án dauða, lènar þeim, hirðir sauða, sviptir eim, sorgar, hels og nauða.

18. Þá eru þegin sælli, þekkíng, líf, heilsa, girnd og makt, ásjónu Guðs inndælli, yfir geislandi furðu spakt; skulu þar, andir una, útvaldar, sút ei muna, vellystar vötnin að þeim bruna.

19. Allt hvað til ama neyðir, allan veg burtu rýmt er þá, allt hvað manns yndi beiðir,

aldrei kann veikjast þaðan í frá, eilíf nægð, guðshúss gæða, gefur þægð, lof að ræða, útaf hægð, hverra lífsins æða.

20, Ó, að vèr settum sinni, svoddan fagnaðarvist að ná; æ, að vor önd hún kynni, eilífan Guð sem fyrst að sjá, upprunans, í rèttlæti, og við hans, tignar sæti, magna dans, mestu sigur kæti.

21. Jesús, sem dóst og deyddir, dauðann fyrir þitt maktarhorn, þar með í ljós framleiddir, lífið og ódauðleikann vorn, veit oss hèr, værð að þreyja, vel sem ber, síðan deyja, líka þèr, lof um aldir segja.

---

## Útfararminníng móður skáldsins, Þorgerðar Eyjólfsdóttur.

Lagið. Kær Jesú Kristi.

1. Sæll engla sómi, sálarheiður manns, lífs dyr og ljómi, lind ódauðleikans, þú, sem þína taldir, þinni dýrð er skein, heimsins áður aldir, upptök höfðu nein, mildar síðan mundir ófst, mann og fríða kvinnu skópst, beggja þjóðar högum hófst, heillir utan mein.

2. Forvizku frægðir, fagurt heimkynni, hvers konar hægðir, og heilagt sjálfræði, skæran skilníngsanda, skepnu, ráð og vald, lystug gæðin landa, sem lífsins maktarhald, gaf þín fróma gæzkan þeim, gjörði róma báðum tveim, boðs hið gróma brot í heim, bíða mundi gjald.

3. Alls eðlis höfund', unnu þau svo ríkt, að Andskotans öfund, ekki þoldi slíkt, rigndur reiði djúpi, renndi svika bönd, skreið í höggorms hjúpi, helvízk flærðar önd, manninn veiddi vèlahind, vann og sneyddi Guðs ímynd, hann innleiddi sèr með synd, sálar eilíf grönd.

4. Beisk lagabrotin, báru niðjum gjöld; hèr út af hlotin, heims er mæðan köld, örbyrgð, húngur, ótti, ömun, kvíði, tár, sorg, armæða, sóttir, síðast dauðinn blár; þrengist hold í heims óværð, hnígur mold um síðir tærð, undir foldu sveipuð, særð, seður orma nár.

5. Nístur neyð strangri, nakinn fæðist mann, eymdum og angri, yfirklæðist hann, saddur sorgar brauði, svölun tára hlaut, hafnar heill og auði, heilsan þegar laut; snauðum otur snakar blygð, snýr að lotum vina trygð, frestar notum fáguð dygð, færri mýkja þraut.

6. Byr lífs og blóma, bregður þannig skjótt, líka sem ljóma, leiði dags að nótt, það

sem fögnuð færði, fyrr á æskutíð, burt við aldur bærði, bitur mótgangs hríð, láð sem hafið læsir kríng, líf er vafið umbreytíng, heitum grafið harmastíng, hremmist út um síð.

7. Að ýmsir tregar, upp á falli þeim, dáðir daglegar, sem drýgðu þó í heim, vottar vísdóms andi, var það fyrir spáð, fersk á frið arlandi, fengist hvíld ei náð, utan gegnum þrengist þjóð, þrautir megnar lyndisgóð, Krists um dregna krossins slóð, kramin, hrygg og þjáð.

8. Hörmúngarhæfi, harðla mæðuríkt, efra hlut æfi, undirlagði slíkt, minnar kæru móður, maktarhendin æðst, frek við tára fóður, fèkk þó dygð ei mæðst; þolgóð sínar þrautir bar, þegar pínan holdið skar, og blóðug lína lífsstundar, lá sem helju næst.

9. Særð sorgar eimi, sæmdahrein og klár, hèr bar í heimi, hrygð um þrettán ár, knúði kross óvægur, klökkan harma söng, risin raunadægur, rekja þókti löng, heit við stundi hjartans æð, brönnum dundu tár hagstæð, girntist fundi Guðs á hæð, geð úr eymdaþröng.

10, Andvarpsins iðju, æ því meira jók, sem sorgarviðju, særíng herða tók, ört að fimtugs aldri, æfiglasið rann, hún þá hèrvist

kaldri, hætt að þrengja fann, Herrans Kristí hold og blóð, hennar tvistan gladdi móð, lausnarþyrsta lindin góð, lífs þá hressa vann.

11. Fám dögum fjærri, frí við harma grönd, vist engla værri, við tók hennar önd, eptir hrakníng hlotinn, hefir eilíft skjól, fögnuð lífs umflotinn, fyrir lambsins stól; í sætum blundi hvílir hold, heilagt undir vígðri mold, unz að grundar fegins fold, fagurt eins og sól.

12. Hægan svefnhöfga, hlaut við andarslit, Guðs mildin göfga, gaf henni mál og vit, fram til þess að færðist, frið af holdi sál, hjartað æ við hrærðist, heilög bænarmál, sem þá ljóma svipar af, sitt hið fróma líf upp gaf, dýrðarblóma hefir haf, hlotið utan tál.

13. Glaðværðargæti, gefur sálu mín, fersk friðarkæti, fengin öndu þín, hjartans milda móðir, mig sem gladdi bezt, og um æfislóðir, unnir jafnan hresst, hlynnti skást að högum mín, hugul ástin dygða þín, kunni ei þjást í kvöl og pín, kærleikshyllin mest.

14. Af elsku brunnum, andarheit og klár, útveittust unnum, augna þinna tár, mèr svo fengist friður, frelsi og heill á jörð, blessaðar bænir viður, brunuðu þau óspörð; það er ótæpt

þanki minn, þeirra fljóti krapturinn, mèr til bóta sèrhvert sinn, af sálar hæstum vörð.

15. Von væri eg myndi, vansalaust til þín, æ, kvaðst þèr yndi, að návistum mín, huggun holla tjáðir, hjartað til mín skreið, með æru og ástardáðir, allt í dauðan deyð; Guði hlýðug gladdir þjóð, gæzku þýð nær hagur stóð, auðveld, líðug, lyndisgóð, lífs þá kenndir neyð.

16. Öll er nú unnin, þín eymd og sorgarbað, rjóðust upprunnin, rós í þyrna stað, kvíða kafið lyndi, kvellíng, óp og vein, snúið allt í yndi, ekkert bagar mein, svíðakrömu sárin þín, sjást ei fremur, gæzkan mín, gleymd er ömun, grand og pín, gleðjast marin bein.

17. Ekkert angræði, ýfir meir þitt hold, sannheilagt sæði, sáð ert þú í mold, huguri nn heiðri saddur, harma fyllist bót, einn í stríði staddur, stofn af þinni rót, yfir leiðis þiljur þín, þessi breiðir laufin sín, tært út seyðir tára vín, og tregar á þitt mót.

18. Guð, sem hèr gladdi, gæfu þinnar ljós, mjög síðan mæddi, og myrkrum yfir jós, lífs angistar lúðast, leyfði þó um síð, fyndi frelsið prúðast, frið og sælu tíð, anni minnar andar slóð, upp til þinnar, móðir góð, Jesú vinni blessað blóð, bug á mótgangs hríð.

19. Ó, eg víst vona, veit eg trúi fast: gæzkan Guðssonar, gefur það auðnast, svo sem fyrr eg sá þig, sárveinandi hèr, svo munt þú og sjá mig, samfagnandi þèr, lambsins tróni ljósum nær, lífs þar krónu skartið grær, og Guðs ásjónu gleði skær, geislinn aldrei þver.

20. Þig þannig kveður, þakklætisins klár, minn, æru meður, munnur, geð og tár, sofðu sæl í Drottni! sveipuð andarværð, blökk þó beinin rotni, blómgast þau við hrærð, þegar skín af æðri öld, öll svo dvína mæðugjöld, sem og hlýna sæðin köld, saft ylmandi nærð.

21. Ó, Jesú unni, alls kyns hægðar þeim, af gæzku grunni, sem glöddu þig í heim, hrellíng frá þeim hrindi, hjúkri sætt í neyð, eilíft sè þeim yndi, eptir væran deyð, dýrðarljósum degi á, Drottinn kjósi mèr að sjá, undir rósum alla þá, sem ör þíns hjarta sveið.

22. Lind lífsins dáða, sem lagaði skær á kross, mynd kífsins máða, meti værast oss, þegar högum hlotið, hjaðnar auðnu rúm, og að augum flotið, yðar dauðans húm, hraði málum blíðast blóð, baði sálum, eyði móð, að forsjálum gleðin góð, greiðist með úngfrúm.

---

## Útfararminníng föður skáldsins, Þórarins Þorlákssonar, er deyði hinn 17. maí 1739.

Lagið. Árið hýra, nú hið nýja.

1. Allri tára tíð í heimi, takmörk hefir dýrðarfrægur Drottinn sett', sem að skertum skúrareimi, skíni sól í heiði nægu, hrygð er lètt, hverjum þeim sem himininn kallar, heims og tíma kjörum frá, sveipast unun sælu hallar, sálir allar, Guðs er fögnuð girnast á.

2. Ánauð lífs þó yfirgnæfi, eptirlætistíðir manns í táradal, það er stund en engin æfi, innan skamms er hafinn dans í himna sal; líkt sem vatna liði straumur, leiðarbeint í hafsins flóð, út svo rennur yndisnaumur, æfidraumur, skipast önd umskiptin góð.

3. Enginn hagur, enginn sómi, engin prýði veitt er sú í veröldu nein, að Herrans ótti hans fyrir dómi, heilög bænariðja, trú og elska hrein, endalaust ei yfirgangi: auður, speki, virt og makt, allt í dauðans fölnar fangi, fleygir rangi, dygð og æra drottna spakt.

4. Mannkostanna minníng hreina, má vel kalla líflegustu líkhríngíng. umsal gott og

blómgun beina, blóðdöggvaðrar Guðs unnustu heims um hríng, dillar hug og drjúgum græðir, dauðans harma lifandi sár, huggun sú í hjartað blæðir, hrygð ef mæðir, míns er vinar minníng klár.

5. Súran skerf af sorgar ekka, sykri þessu byrlaðan finn eg brjósti mín, Guðs af hendi gefinn að drekka, gleði og angur leifir minníng lysta þín, í allri dygð og æruprýði, auðnu minnar gimsteinn klár, hjartans ástar elsku þýði, faðir minn fríði, þín eg harma þrotin ár.

6. Eins sem Guð mèr upp á lagði, ást og hylli verðuga lífs að veita þèr, líka tjá með ljúfu bragði, liðsemd, æru, þægð án kífs og hlýðni hèr, blessaðra molda blómgan þinni, byrjar svo eg unni fast, meðan verkan valda sinni, vit og minni, tíð og kraptar til endast.

7. Kristí brúðar kyngott. sæði, kviknað undir friðarins vængjum fæddist þú, skrýddur helgu skírnarklæði, Skaparans bjó þitt hjarta sæng hin hreina trú, lánið, heilsu þroska þáðir, þig bar Guð á höndum sín, æskutíð með æru kljáðir, uxu náðir, heill og blessan högum þín.

8, Ærlegrar kvinnu ektabandi, undir hèr í talin sex og tuttugu ár, sorgir deyfði ástar-

andi, ykkar sæng án hvílu flekks var haldin klár, fjögra barna frjófgun þáði, fagnar eitt í himnavist, hin með lífsins harmaráði, heims á láði, dyggvan þreyja föðurinn fyrst.

9. Ótta Guðs um æfi sinntir, ástarhollur bæði kvinnu, börn og hjú, þrásamlega þar á minntir, þakklátur og bænrækinn með tár og trú, hyggjuspakur, happanægur, heilorður og góðvikinn, frómur í hjarta, friðgjarn, hægur, flestum þægur; sá er hróður sannkveðinn.

10. Elskumerkin ögunar sinnar, á þèr Drottinn þægur birti, þinn hússkross, hærri barst um hlut æfinnar, Herrans tiptun æ þèr virtir ástarkoss, styrkur trúarstríðs, þolgóður, stöðuglega barðist þinn, þar til beiskur harma hnjóður, minnar móður, fullsnèrist í fögnuðinn.

11. Sælu himna síðan þreyði, sálin þín, til Guðs heimkynna fyrri fús, ei var lokið árs-ins skeiði, áður hennar leið bar inn í lifenda hús; sannauðmjúkur síðast þáðir, sálarvörð á kirkju fund, heilsu brugðinn hægt þig tjáðir, heim svo náðir, sagðir líða að sælli stund.

12. Furðu viss um frelsið hraðast, fram-leiðst undir Herrans klárum hlífðar væng, and-vörp heit í Guði glaðast, grátinn hófst og döggv-aðir tárum dauðasæng, lofaðir Drottins að-

stoð alla, æskilega hèðan bjóst, vinunum blessan valdir snjalla, vits án galla, sæll í Guði síðan dóst.

13. Tignarverklaun trúrra þjóna, tók þín sál í frið heim boðin, frjáls við mein, leiptrar henni lífs kóróna, Lausnarans Jesú blóði roðin, björt og hrein, hafnar synda hugraun kælli, hvergi dauðans kennir fár, allri vitund sómasælli, sjón inndælli, fagnar Guðs um eilíf ár.

14. Í þeim heiðri skært að skarta, skoða og smakka Drottins húsa dýrð og nægð, ann eg þèr, mitt ástarhjarta, í veröldu mèr góðfúsa mjög vanst þægð; þín var dygðin holl í heimi, hagur, ljós og unun mín, sætt hafnaði sinnugeimi, sútareimi, tilhugsunin trygða þín.

15. Hag minn gjörðir hefja og styðja, hvattir mjög á alls kyns dygð, en einkum þó, að óttast Guð og æ tilbiðja, orð hans rækja, stunda blygð og styrkja ró, sjálfur æfðir sömu dáðir, sællrar auðnu baðst mèr títt, aldrei særðan hug minn hrjáðir, huggun tjáðir, mig ef þekktir mæða lítt.

16. Nú er þessu lokið láni, lífsins okkar dauðinn skilur stað og stund, í auðn er sem fyrir augum bláni, andláts skuggi þinn mitt hylur ljós og lund; mèr þinn sess á móti grætur,

mín við hann eg felli tár, svo munu eyðast eymdanætur, angurs bætur, jafnhefist og júbilár.

17. Senn upp skín — það svalar geði, sofenda, þó húmi af ljósum — hagur inndæll, kveð eg þig með gráti og gleði, í Guðs lifenda bindinis rósum baðaðu sæll! dygð að erfðum dæmi þína, Drottinn Jesús minni sál, svo megi hún eptir mæðu sína, með þèr skína, samkveðandi sigurmál!

18. Allra heilla Faðirinn friði, fyrir sáran Græðarans dauða, kvein og köll, meti oss bót á mæðu og stríði, marin smyri blóði hans rauða beinin öll, ferskum óskafundum blandi, föl þegar heljan dynur á, eilífrar sælu undir standi, á yndis landi, vist oss festi vinunum hjá!

---

## Sigurhrós sálarinnar í himninum.

Lagið. Upphef eg augun mín.

1. Ó, hó, minn dýrstan arf! ó, hó, minn frelsis hag! eja, mitt unnið starf! eja, minn sigurdag! eg sem fyrr döpur dró, dauðlegan sorgum mædd, líkama þolug þó, þeim er nú loks afklædd.

2. Minn fyrir synda sekk, Serafims klæða skart, náðar þyrst nú eg fèkk, næsta mjög hreint og bjart, Guð lífsins gaf mèr sæll, grátinni lausnar dóm, hans faðmur hýr, inndæll, hefgar minn sigurróm.

3. Sú dimma sorgarnótt, sem æ bar gleði þörfn, horfin er furðu fljótt, flaug eg sem bráður örn, hátt upp úr dauðans dal, dýrðar Guðs hæða til, komin í kóngsins sal, klíngja læt gleðispil.

4. Alls kyns værð vafin hèr, við lífsins eik eg skín, hún gefur hunang mèr, af hverjum kvisti sín, hennar vínberja blóm, blessað og ylmandi, gjörir mèr sætan góm, gleðinni mettandi.

5. Grætir ei geðið neitt, geislar af sínum stól, allan veg að mèr heitt, eilíf rèttlætissól, beð mitt er búið kríng, blankandi liljunum, hörpunið allt í hríng, heyri eg með dansleikum.

6. Engan hef eðlisbrest, andvaralaus er værð, kærleikans kæti hresst, kraptanna styrkíng nærð, girndin í Guði öll, gjör opnuð þekkíngin, heilsunnar hvergi spjöll, hugur, mál fullkomin.

7. Sem engill sólfagur, sýng eg í þeim fögnuð: heilagur! heilagur! heilagur Drott-

inn Guð! lambinu lofgjörð vís, líkt verði æ samin, heilsa, makt, heiður, prís, hæst vald og dýrð, Amen.

## Grafletur.

Örendur heiðurs hærum
hér sáði loks til náða
Þórarinn, þegn hinn dýri,
Þorláksson, æru borinn,
sæld jók við sjötugs aldur,
samblundar ektasprundi,
byggja dýrð andir beggja,
bein frjófgar minníng hreinust.

## Útfararminníng
## Láritz Hanssonar Skevíngs,

sem andaðist á heimferð sinni til Íslands frá Kaupmannahöfn 6. júní 1741, á 18. aldursári, við Norveg, og er jarðaður þar.

Lagið. Guð Faðir, Son og Andinn hreinn.

1. Því er nú kjörum þannig breytt? Þögn erfir sætan hljóm, skerðir óvörum skinið heitt,

skúrviðris dimman gróm, eymir af skörum, enn er leitt, út á líkbörum hèðan eitt, uppþornað eðla blóm.

2. Því er mín hjartans lyst og ljós, liðin svo brátt af fold, mitt vonarskart og hugarhrós, horfið svo djúpt í mold, mín æsku bjarta yndisrós, eymstruð svo hart á bylgjum sjós, að svipt er sálu hold.

3. Út pressar tárin augna mín, angrinu hjartað sker, minn kæri Láritz minníng þín, frá móðurknjánum hèr, þín dæma klárust dygðin fín, þær dauðans bárur gegnum skín, sem hèðan sviptu þèr.

4. Upprunnið blóm af eðla rót ættar og dygðar mest, girnd í barndómi gafst þèr fljót, Guðs veg að stunda bezt, blíðleikans fróma barst viðmót, birtir með sóma þægðarhót, mèr æskumanna flest.

5. Hlýðninnar dáðum innst af akt, æra þín sinnti klár, góðum heilráðum gafst æ vakt, geðprúður síð og ár, ávarpið tjáðir öllum spakt, ástheilla þáðir gengið stakt, lofstír og lukku spár.

6. Gáfum ei síður Guð þig bjó, glæstu þær dygða krans, nettskarpur, fríður, námsæll þó, náðir veg þjóðframans, manngæzkuprýðin

menntafrjó, mesta hrós lýða til sín dró, utan sem innan lands,

7. Ó, þitt skammvinna líf á láð, lífsverðugasta blóm! Æ, hvað eg þinni æskudáð, unni hèr lífs um tóm, hjartað í minni hefir það sáð, hèr meðan sinni gefst og ráð; minn þekki eg mæðudóm.

8. Elli með dygðum æfi þín, árdegis hefir náð, falin Guðs trygðum fèkk vel sín, forlög á enda kljáð, í himna bygðum hugurinn skín, holdsins afskygður sút og pín, lík hylur Norvegs láð.

9. Veraldar fær ei vonzka nein, vèlað meir þína sál, heilsunnar særíng, hugarins mein, heimsböl og andartál, sízt kann þèr næra sinnukvein, sál þín og æra geislabrein, mæðist ei sigurmál.

10. Við þau að skarta vilkjör fín, og venda í sælu rann, út af Guðs hjarta gleðinnar vín, grátfeginn þèr eg ann, fundunum snart eg fagna þín, frómleikans bjarta liljan mín, ei kiljums upp þaðan.

11. Ástvina þinna sorgir sèr, samtengi Jesús klár, hæstar svo finni hugganir, hans fyrir blóðug sár, ljúfur þeim inni liðsemdir,

loksins af kinnum þeirra hér, öll þerri angurstár.

12. Lífkröptug æðalindin þín, Lausnarinn Jesú kær! öll hugarmæða, eymd og pín, angursbót sè mèr vær, himneskra gæða heilsuvín, hjartanu blæða láttu mín, dapur þá dauðinn slær.

13. Vinina fróma veit þú mèr, verndarinn trúr! að sjá, sveipaða ljóma, líka þèr, lifenda bygðum á, kærleikans blóma þar ei þver, og þínar hljóma lofgjörðir, ó, Guð! um eilífð há.

---

## Útfararminníng
## sr. Skúla Illugasonar,
## er deyði á 44. aldursári, 1744.

Lagið. Á einn Guð vil eg trúa.

1. Far vel hinn forni heimur, far vel þú hærða tímans öld, þinn hagur, hefð og seimur, heilsa, fríðleiki, mennt og völd, ykkar eg engan þáði, eignarrètt lífs um tóm, hugur minn heldur þráði, himneskan eigindóm, sem fugl á flugi beinu, fram ört um tárastig, úr móðurskauti einu, til annars báru mig.

2. Ó, veröld yndisnauma! eg hefi sagt þèr góða nótt, við þína stygðar strauma, stúrði eg fyrr með harma gnótt, mèr jókstu margar tíðir, meinsemdum þrúngið brjóst, æfispor öll um síðir, að því takmarki dróst, mettaðir mæðu langri, mitt á útlegðar fold, drykkjaðir dauðans angri, og duptinu þakið hold.

3. Þínum þjáníngum undir, þjökuð er öndin lífi frá, mínar mótlætisstundir, máttir þú ekki lengur kljá, baráttan burtu flúin, brynjað fagnaðar hrós, fjötur í frelsi snúin, framreitt af myrkrum ljós, sorgum í sælu hrindir, saftir útgefa þær, himnesku Helims lindir, horfin er Mara fjær.

4. Drottinn, sem fyrir mig forðum, friðarins boð lèt úthellast, og í sáttmálans orðum, allt sitt hjálpræði kunngjörast, veiku sáðverki mínu, veitt hefir umbun þá, framstiginn fjörs af línu, fæ eg hans dýrð að sjá, mitt brauð er fólgið Manna, minn drykkur gleðin ein, mitt túngumál englanna, makt á lífstrènu hrein.

5. Æðsti Guð hinn útvaldi, er mig í heimi skikka rèð, vörð á Zíons varðhaldi, vitnisburðarins ljósi með, lífs hefir lampann sjálfur, leitt fyrir sínum þjón, hátt yfir heimsins álfur, að himna veldistrón, von minni víst ei hnekkti, vitnis-

burð þann eg hlaut, og nafn, sem enginn þekkti, annar en sá þess naut.

6. Hèr ber eg hvítglansandi, heilagan skrúða Serafims, með sigri samdansandi, söngvaherskara Kerúbims, heilsunnar hlaðinn blóma, himins á rósum geng, lofið Guðs leyndardóma, leik á Guðs hörpustreng, mótlætis, mæðu og synda, minníngu viðskilinn, ljóssins umgefinn linda, lausnarhag þakka eg minn.

7. Voldug vegsemdar króna, veglega mèr á höfði skín, geislandi Guðs ásjóna, gleður forkláruð augu mín; læt eg því ekki linna, lofs og fagnaðar dans, meðtekinn sælla minna, mitt í ástvina krans, vellyst þá við að skína, vilkjör sem öll ákvað, síþyrsti sálu mína, sjá, það er fullkomnað.

8. Frelsi því fagna skyldir, fyrrum ástkæra sóknarhjörð, það einnig þakka vildir, þínum helgasta sálarvörð, að mig frá mæðu strangri, meðtók í fögnuð sinn, elskugeð þitt ei angri, andláts skilnaður minn, Guð mun þèr gleði senda, greiðandi kjör í lag, og verndar kápu venda, voldugur yfir þinn hag.

9. Lög hans og líknardóma, líf og huggunarreglu þèr, haltu með hegðan fróma, honum þakklát í öllu ver, svo mun þinn sómi fagur,

síð og ár margfaldast, eptir á yndishagur, eilífur fullkomnast, mig gladdir mildiþýður, meti Guð dygðasafn, fegins að fundum líður, far vel í Jesú nafn'.

10. Ó, mín kær ektadúfa! eptir syrgjandi mædd í heim, með höfuð og arma hrjúfa, huggaðu þig af kjörum þeim, að eg, sem eymdum vafinn, í þínu skauti lá, til eilífrar heilsu hafinn, hægð alla ber nú þá, sem Drottins dauða harmar, dýrðlegu keyptu mèr, og hans blóðdrifnir armar, örmagna gáfu af sèr.

11. Frá mínum faðmi skilin, faðmlögum Jesú taktu mót, Herrans brjóstunda ylinn, inndragðu þèr í hjartans rót, svo þínum angurs örum, eyði það gleðihnoss, veittu hans trygða vörum, varman hugástar koss, hann er þinn hjartans maki, hann er þín andar sól, hans vængur yfir þèr vaki, og veri þitt hlífðarskjól.

12. Yfir minn andláts skugga, útgef nú framar tár ei þín, heldur lát sinnið hugga, hèr eptir kemur þú til mín, blessuð í brúðkaups klæði, búum þá síðan að, heilög og hólpin bæði, í himneskan friðarstað, trega senn tíðir þverra, treystu því síð og ár, þinn Jesús mun afþerra, þín loksins gjörvöll tár.

13. Far nú vel hjartað fróma, falinn ásthylli Græðarans, haf þökk og heilla sóma, heit fyrir goldin trygða bands; einn Guð sem öllu ræður, úngunum dilli þín, heims við úthafnar mæður, hefi þau upp til sín; eg bíð á yndislandi, eptir þeim gleðifund, jafnan júbilerandi, við Jesú hægri mund.

---

## Andvarp ekkjunnar.

Lagið. Lít upp, mín ljúfa önd!

1. Svo leiðir skýjaskúr, skírviðri dags um frón, sorgar andvöku sældar dúr, sætt fèlag yndistjón.

2. Svo dimmir degi af nótt, Drottinn Guð sjá til mín! gegnum angistarhúmið hljótt, horfi eg upp til þín.

3. Þú hefir myndað mig, mín sálar unun kær, ástvin trúfastan á eg þig, allir þó standi fjær.

4. Faðir og móðir mín, mig yfirgáfu hèr, en hugul ástarhöndin þín, hefir sídillað mèr.

5. Skírnarlaug skæra við, skart andar minnar bjó, lífs heiður, yndi, lán og frið, lènt hefir síðan þó.

6. Allan minn hag í heim, hún að sèr jafnan tók, leiddi mig fram að lundi þeim, lystir míns hjarta jók.

7. Gæðum var gróinn krans, geisla mèr yfir brá, sólskin á laufum leit eg hans, ljóma Guðs hæðum frá.

8. Kristí blóðfalla krapt, kjarndreginn hafði sèr, hans af ávöxtum helga sapt, hrærðu Guðs verkanir.

9. Löngum mèr lènti sitt, ljós og ilm kærleikans, blíðlega vöfðu brjóstið mitt, blessaðar greinir hans.

10. Sat eg við auðnu sól, sinnisglöð undir þeim, mitt voru þær og minna skjól, með Guði í þessum heim.

11. Æ, hversu hverfult er, hagsyndi manns á jörð! mitt við fegurstu farsældir, fram brunar eymdin hörð.

12. Bergi eg nú af þeim brunn, beiskjunnar vökva þann, að minn laufgræna lystirunn, lít eg uppþornaðan.

13. Svellur hið djúpa sár, sorg veitir högum að, döpur á vöngum dynja tár; Drottinn, aumkaðu það!

14. Miskunar unntu mèr, mæni' eg á hjálpráð þitt, sjáðu hvað lífið sárt það sker, sundrað er hjartað mitt.

15. Brákuð og marin 'bein, burthorfið augnaljós, styn eg sem dúfan sturluð ein, stúngin er þyrnum rós.

16. Vakir mitt harmavers, við mæðukjör einsæt, yfir nából og auðan sess, ástvinar míns eg græt.

17. Þinn hefir dauðans dúr, duptað mitt höfuðskart, minn hjartans ekta-maki trúr! myrkvað er ljósið bjart.

18. Lýstir þú lífs á veg, lífi og sálu mín, geislaði náðar gleðileg, Guðs birta' af vörum þín.

19. Flutti mèr friðarróm, fögnuð og andar traust, þín meðan gaf í heimi hljóm, hirðis básúnu raust.

20. Þèr hefir Skaparinn skær, skikkað laun vökumanns, þar himna fylkis harpan slær, honum lofgjörðar dans.

21. Krossins þó kenndir títt, kysstir þú Herrans vönd, heilög trú, bæn og þolgeð þýtt, þig báru Guðs á hönd.

22. Mjög var meðaumkun þín, mótlættum hjálparfús; nú seður Guð þig nægtum sín, numinn í sælu hús.

23. Sem Önnu ástþollur, Elkana varstu mèr, dygð hefir alla dásamur, Drottinn umbunað þèr.

24. Þín gladdi hjúkrun hlý, hag minn við sorgar lút, nú má eg eins og Naemí, nefnast ein Mara af sút.

25. Ó, Jesú! angur þitt, af þerri tárin mín, sveipaðu lífið særða mitt, signuðum faðmi þín.

26. Þú sem örþjáður fyr, af þínum krossins stól, hag þinnar móður huggaðir, og henni lagðir skjól.

27. Rèttu mèr hjálparhönd, heitorðin minnstu góð, þín hefir blíð og blessuð önd, bundið sèr ekknamóð.

28. Munaðarleysið mitt, meðlæti hjástoð þín, faðmi dýrasta forsvar þitt, föðurlaus börnin mín.

29. Geymdu þau, Guð minn trúr! grandlaus í vöku og blund, vegur, sól, hæli, vagn og múr, vertu þeim alla stund.

30. Í þínu ljósi leið, líf og önd þeirra og mín, eptir sykraða síðustu neyð, safnaðu oss heim til þín.

31. Ó, Guð! eg þakka þèr, þinn sannleiks rètt og dóm, þú lèntir bæði og burt sviptir; blessuð sè náð þín fróm.

32. Æ, kom og ekki tef, ástkæri Jesú minn! skjótt mig úr dauðans skugga hef, í skoðunarljóma þinn.

33. Ó, minn unnusti sæll! eg þig með tárum kveð, hug þínum sè Guðs himin inndæll, holdi sætt jarðar beð.

34. Þakka eg sambúð þín, þægasta lífs um stund, eg veit þú kemur ei til mín, á þinn eg sæki fund.

35. Þú hefir þegið frið, þín sól ei undir gár, lifðu, ó, guðsmann! ljós það við, lofsæll um eilíf ár.

---

## Útfararminníng
## Jóns Jónssonar,
### að Vöglum í Hörgárdal, er deyði 1758.
### Undir nafni barna hans.

Lagið. Upp á fjallið Jesús vendi.

1. Ó, þú lindin eilífs góða, ilmsætasti Jesú minn! hjálpin allra heimsins þjóða, hvers kyns meina græðarinn, þú sem kallar þjáða og móða, þíns í ríkis fögnuðinn.

2. Guðdóms ást og gæzku þína, get eg aldrei fullþakkað, sorgum firrtir sálu mína,

sjálfur þoldir heljar bað, svo þín tára laug og lína, leiddi mig í sælustað.

3. Bezta skarti brúðar þinnar, bjóstu mig í skírnarsá, eiðbatzt þig til andar minnar, alla kvittir syndaþrá, nægstu svölun náðarinnar, nem eg þínum brjóstum á.

4. Lífið mitt í lyst og vanda, lífi þínu er innsiglað, þreyttan hressir það minn anda, þjáning hver sem fellur að, millum þinna móðurhanda, mjúkan finn eg griðastað.

5. Þó eg heilsu, yndi og auði, afklæðist og verði hèr, lík, sem þekur leirinn rauði, lífsins huggun er það mèr, hvorki sorg nè dapur dauði, dregur mig af höndum þèr.

6. Andláts þegar að ber stundin, eflaust trúi eg verði þín, blóðfegursta blessuð undin, blæja og hreiður sálar mín, eptir dáins óskablundin, æ samdrekkum gleðivín.

7. Nú að sinni tek eg tára, tíð, er högum brugðið fær, megn upphafin mæðu bára, mínu hjarta gengur nær, burt er horfið æskuára, athvarf mitt og lampi skær.

8. Raunir skyldu rakna blóði, renna tár, en bliknar kinn, hèðan tókstu, Herrann góði! hjartkærasta föður minn, þann er veiku valdir jóði, vin og ríkisarfa þinn.

9. Hann þú prýddir helgum sóma, heimsins voða geymdir frá, honum gafstu hjartað fróma, heill og sæmdir jörðu á, hans í dygða heiðum blóma, hærur skygðar lèztu sjá.

10. Þinni mynd í krossi og kæti, klæddur innra mannsins bar, trú, guðrækni, trygð, örlæti, tamur dáðum miskunar, gladdi þjóð í gæfusæti, girntist öllum velferðar.

11. Undi sætast orði þínu, elskaði þinn helgidóm, bæn og þol í brjósti sínu, bar og æfði lífs um tóm, sann-auðmjúk í sorg og pínu, sèð var æ hans lundin fróm.

12. Æfidægur út svo kljáði (eru þess vitni mörgum hjá), sæmdardaga sinna á láði, saddur harma bylgjum frá, lífsins höfn og landi náði, lengst er eptir gjörði þrá.

13. Undir sorgum efstu nauða, eilífs hafði lífs forsmekk, máls og rænu mitt að dauða, mjög farsælum notið fèkk, blóðs við Jesú brunninn rauða, burt sem ljós af heimi gekk.

14. Ó, minn faðir! þig eg þreyi, þín guðrækni, trygð og ást, vann mèr hag frá vöggu degi, velferð minni lýsti skást, æru lífs og auðnuvegi, áknýjandi fyrir mig þrást.

15. Blessaðar lèztu bænir vaka, blessan hússins stundaðir, blessaðir ektabörn og maka,

blessað hjarta sýndir mèr, blessuð laun ert búinn að taka, blessan hvar ei nokkur þver.

16. Minníng þín með sigri og sóma, sáð í blessan ekki dvín, holdið leyst af hrygðar dróma, hvílir sætt, en öndin skín, þar til Guð á degi dóma, duptuð frjófgar beinin þín.

17. Allra heilagra messa mundi, mæðu þinnar lykja dag, allra heilagra friðarfundi, fagnar þú með yndishag, allra heilagra lífs að lundi, leikur dýrðar hörpuslag.

18. Eg mun þig á himna hæðum, horfinn allri sút og þrá, yfirskrýddan Kerúbs klæðum, kórónaðan sigri há, í helgustu ástargæðum, eilíflega finna og sjá.

19. Dygð og blessan dæmi þína, Drottinn Jesús mèr í arf, láti mæða miskun sína, mèr að inna lið, sem þarf, leyfi hjá þèr loks að skína, lífsins eptir mæðustarf.

20. Herra Jesú! veit mèr væra, von og styrk í dauðans þrá. Mildi Jesú! mína ástkæra, mèr unn þú í dýrð að sjá. Þýði Jesú! þèr sè æra, þökk og prís um eilífð há.

# Útfararminníng
## hinnar góðfrægu höfðíngskonu, Guðrúnar Vigfússdóttur, sem deyði nóttina milli hins 3. og 4. desember á 66. aldursári, 1767.

Lagið. Sólin upprunnin er.

1. Hvað skyggir hreina sól? hvað stjörnur klárar? hvað grætir hauðurs ból? hverju vill ára? hví gefa hljóm, helgidóms málmar fríðir? vakinn sem vísi dóm, vottandi klökkvum róm, tárugar tíðir.

2. Útrèttur Drottins er, armleggur fundinn, þangað sem hafði hèr, hinn skæra lundinn, fyrr gróðurfest, fegurstu aldingæðum, víðsýndar vaxinn mest, vökva lýsandi bezt, af Zemaks æðum.

3. Þennan með brum og blóm, blæ líkan fáum, í dauðans húm og hjóm, horfinn nú sjáum. Æ, angurs pín, ylsætar kulna glóðir, sorgbitnu sinni mín, sárt er að minnast þín, mild eðla móðir!

4. Uppgekk þitt æfihrós, að Drottins ráðum, kransfögur kvennarós, krýnd aðaldáðum; sæl Kristí mynd, systir og elskubrúður, margdrykkjuð lífsins lind, lífsins faðmaðir hind, við lífsins lúður.

5. Hans ást þèr ilmaði, ok hans trú glæddi, hans orð þig helgaði, hans andinn fræddi, hans hægri hönd, hollust var þín ábreiða, sú vinstri svæfill, önd, svo máttu ei nokkur grönd, andarhvíld eyða.

6. Eitt blóm af eðla rót, eins varstu manna, eitt blóm að erfðum fljót, aðals himnanna, eitt blóm í öld, atgjörfis, hold er prýddi, eitt blóm að auðnu töld, æfinnar fram á kvöld, hvern tíð sem hlýddi.

7. Ypparlegs ektamanns, önd og kóróna, hag og lífsyndi hans, hugkvæm að þjóna; heill, hefð og ljós, hússins á alla vega, barnanna byr og hrós, blessunar hind og rós, metin maklega.

8. Ó, guðelsk Evnyke! ó, forsjál Marta! þitt loflegt líferni, lengi mun skarta. Hrein hjartans trygð, hógværð og spektaræði, föst auðmýkt, fögur blygð, fágæt örlætis dygð, merk þolinmæði.

9. Ó, að hverr arfi þinn, ættgenga fyndi, heill þína og heiðurinn, hegðan og lyndi. Sèr sjálfum rótt, sól meðan geislum hreifir, hitt þjáir þankann hljótt, þinn dagur sorgar nótt, lifendum leifir.

10. Þitt harma þrotið skeið, þínir ástkæru, þig harmar bygðin breið, bundin geðs æru, þig harmar hèr, hús Guðs og þinn bústaður, þig harma þurftugir, þig harma góðkunnir, mjög sem einn maður.

11. Síðan þèr vein og vans, vann dauðans mæði, umsnúinn er minn dans, í sorgarkvæði; úng æskutíð, upphreifir tára minni, holl, margföld, hugul, blið, hrærir þín dygðin fríð, söknuð í sinni.

12. Minn greiddir mennta veg, mig uppfóstraðir, mín kjör margbaganleg, mjög umsorgaðir. Mèr unnir mest, miskunar Guðs af hjarta, minn þoldir margan brest, mig þjáðan gladdir bezt, blómið hugbjarta.

13. Ódáins æra þín, úrræði nauða, raunhollust rækti mín, rètt fram í dauða; sár svíður und, sviptir þíns lífs, er faldi, mitt angurs mæðupund, og marga gleðistund, í veröld valdi.

14. Huggar þó hjartað mitt, hversu rólega, lífsins Guð lífið þitt, leiddi frá trega, nestaða sætt, náttverði Jesú dýrum, síðan frá sorgarætt, svæfða með yndið rætt, í hans faðmi fríðum.

15. Þín góðverk þúsundföld, þakknæmust Guði, borgar nú alda öld, æðsta fögnuði, upp-

skeran þar, allan fullkomnar sóma, hèr bera blessunar, beinin hag frjófgunar, inn til dags dóma.

16. Eðla ástmanna þín, angur Guð bæti, ektamanns vatni í vín, veinan í kæti, fyrir Jesú tár, fagur-rauð virðist snúa, þeim öllum þerri brár, þitt sæla júbilár, eptir lífs lúa.

17. Sof nú af sorgum kvitt, sigurs með gnóttir, Guðrún í Guði fritt, glöð Vigfússdóttir, unz alheims þjóð, uppvekur Guðs básúna, og þín bein líks af lóð, leiðir dags yzta rjóð, blær morgun brúna.

18. Ó, Jesú! andlát þitt, yfir mig blæði, lífgun, þá lífið mitt, lýr dauðans mæði, svæfðu mig sætt, synd mína gjör örenda, svo friðarfrelsið mætt, finni eg með þinni ætt, í dýrð án enda.

---

## Grafletur.

1. Hèr sefur höfðings mær, heiðurs með gnóttir, Guðrún gulllampi skær, góð Vigfússdóttir, af aðli lands, upprunnin vegleg-asta, hæstum þó himnaranns, hvíld undir dygða krans, nam náð skýrasta.

2. Búið líkblæju hold, blómlegast forðum, þessa heims þakið mold, þreyr að Guðs orðum, sálin ótvist, söng d'rðar lætur hljóma, þar til Guðs lúðurs list, lènar þau samtengist, á degi dóma.

---

## Grafletur yfir tvö börn.

Hèr eptir heims útfarir
höfga systur ættgöfgar
Guðrúnar tvær, er tróðu
til kæti, Hannes dætur;
þrjár vikur þjáðu fjöri
þreyði hvor unz af deyði,
frumgetin fjórar nætur
fann meirr hin eina að sanni.
Sveipaðar sigurhjúpi
sofenda bygðum ofar
aðalsess una fríðum
andir í dýrðarstandi,
þar til bein úngra bærast
blómleg af dauðans hjómi,
og sálum tengd í sælu
sveima til efstu heima.

---

## Grafletur yfir Hólmfríði Björnsdóttur, er andaðist síðast í ágúst 1754.

Sefur hin sigurgnæfa
systir og brúður Kristi,
Hólmfríður, horfin mæðu
heiðursverð undir leiði,
Björnsdóttir, dýr að ættum,
dáð og atgjörfi; sáðist
hèr, þegar þreyð með æru
þrjár hafði tylftir ára.
Töldust átjándu aldar,
ágústí-mund síðustu,
fjögur og fim sinn tugar,
fögur þá leið af dögum.
Sveipuð önd sæluhjúpi
signaðan Guð há-tignar,
þar til af höfga hrærir
hold á lifenda foldu.

---

Þú, maður bíðandi, þenk hár og skríðandi,
þèr ber að deyja.
Lif Guði hlýðandi, hag dygðum prýðandi,
hrein forsjál meyja.

Sèrtu vel líðandi, sæll muntu stríðandi
sigurinn heyja.
Vert ekki kvíðandi, sorg eptir svíðandi
sætt kemur eja.

# III.

# ÝMISLEG GAMANKVÆÐI OG FRÆÐILJÓÐ.

---

## Vítaslagur.

Viðlag: Það er nokkuð mengað mál
(og múnka villa).
Eg má ekki úngfrúvunum dilla.

1. Sætan kjósa eyrum óm,
augum lystíng færa
geislar, rósir, runnar, blóm
og rauða gullið skæra,
getur hrós í gumna róm
gjörvallt náttúrunnar prjál;
það er nokkuð mengað mál,
ef að drósin úng og fróm
ei skal hópinn fylla.
Eg má ekki úngfrúvunum dilla.

2. Foldar eigi fæðist jurt
fegri en meyjan hýra;
nokkrir segja að Ammons urt
ilman gefi dýra,
þó er meyja mynd og kurt
meira verð, ef helg er sál, þ. e. n. m. m.
skyldi eg reigja þelið þurt
við þeim og hýru spilla, e. m. e. ú. d.

3. Kærust býður kjörin þrenn
kurteis mærin únga,
ef hana prýðir allt í senn:
álit, geð og túnga;
margt ei níðir mundánginn,
mær ef hatar eðlis-brjál, þ. e. n. m. m.
Hrós um þýða, heyri menn!
hjá mèr tekst upp illa; e. m. e. ú. d.

4. Sumir látast leggja fín
líknarráð og segja:
„Hafðu gát á huga þín,
horfðu sízt til meyja;
þær með káta kæki sín'
kunna þèr að vinna tál;" þ. e. n. m. m.
ef sjálfir játa silkilín
sèr geðfelt að hylla; en e. m. e. ú. d.

5. Skal það vera nokkuð næmt
nauðbeygíngar efni,

verði mèr að minnast dræmt
mens við únga gefni;
þessum er svo það viðkvæmt
 þeirra líf sem pikki nál, þ. e. n. m. m.
aka sèr með úr og kæmt
 og út í höttinn grilla; e. m. e. ú. d.

6. Ef eg bögu ber í ljós,
bauga lindi gefna,
eða sögu inni drós —
eintal má ei nefna —
þá er jögun, jafnvel skós,
 eg sè upp á kvenna-rjál, þ. e. n. m. m.
gott ef fögur gullhlaðs rós
 grunist ei mín frilla, e. m. e. ú. d.

7. Hvorki má eg brosa blítt,
bjóða koss nè varma,
skrúðið á þeim skoða frítt,
nè skartið munns og hvarma,
hönd ef brá um herðar lítt
 hlaupið var í sankti Pál, þ. e. n. m. m.
fyrir mèr, já, er furðu títt
 fixeruð hver átylla; e. m. e. ú. d.

8. Alla finn eg orsök mèr
út í Frans að hlaupa,
kveðja tvinna hrundir hèr,
helgan stein þar kaupa,

setjast inn og sýngja á kver
  signaðan Runsivals annál, þ. e. n. m. m.
þá munu hinna hugrauner
  Haki og Óðinn stilla. E. m. e. ú. d.

9. Annars mun eg fresta för
fyrst um árið tèrna,
skaps við una skárri kjör
og skemta meyjum hèrna,
þefgautunum þakkarsvör
  þeygi velja góms af ál,
    það skal ekki mengað mál,
víkja stunum, viðra fjör
  og virt á svönnum gylla,
    já með æru úngfrúvunum dilla.

— · —

## Um rokk.

Þú hefir, kæra! kosið þèr
  af Kaupinhafnar smiðunum
hnossið það, sem virðum vèr
  varla gjört af fiðunum;
Rínar elda rósir ber
  rokkur þinn á sniðunum,
mátulega mjúkur er
  myndaður í liðunum;

laufaprýðin sómir sèr
  sett á hjóla miðunum;
heyrir enginn geira grèr
  glaum af hnokkariðunum;
rètt við Oðin eg það sver
  eins er hann að viðunum.
Dana-glæsir heiti hèr
  hann í mærðarkviðunum.

---

## Um græna litinn.

Það er eitt í engu neytt
  orðtak sumra meyja,
að allt sè dautt, sem ekki er rautt,
  annað vil eg þó segja:
Vænt er það sem vel er grænt.

Græni farfinn geðjast mèr,
  get eg þess í kvæðunum,
grænum lundi líkir sèr
  lífsins eik á hæðunum,
grænn hans urtagarður hèr
  glansar undir mæðunum,
grænt haglendi guðsviner
  greina hans orð í fræðunum;

græn aldini grundin ber,
gróin bezt af sæðunum,
grænir sjóar gjörvaller
girða lönd með flæðunum,
græna sæðið Sýrak tèr
sjóna dilli æðunum,
grænn smaragðus gimsteinn lèr
gróða og snild í ræðunum,
græna fiðrið andar er
öllum fegra klæðunum,
grænlitt augum opt fyrer
eldir hvarma glæðunum,
grænt í draumi gagnar þèr,
gleður okkur í næðunum;
grænan lofa litspaker
lengst í jurta-skræðunum.

---

## Mansöngsvísur.

1. Opt er vífsins yndi kært
og eykur fjör í móði,
meðan lífsins lyndi vært
leikur sèr í blóði.
2. Foldin klæða fróð og hrein
fríðum kossi tærir,
holdið, æðar, blóð og bein
blíðu hnossi nærir.

Snild ber mild mèr
mund þín, hrund fín!
hrósrík, rós lík,
rètt, hæg, nett, þæg,
sízt örm, víst vörm,
værð býr, nærð hlý'r;
stytt ein mitt mein
mæt fèkk, sæt, þekk.

---

Lyndir mèr laukströnd
lundhæg um kvöldstund,
hugurinn lifnar hjá henni.
Spönn velja víf kann,
vinn eg í hvert sinn
lófatak að ljá henni.
Vissan á eg vilkoss,
ef vers hefi eg til þess,
tölur mínar tjá henni.
Ör dafnar ást hýr,
ærunni þó kær,
meðan skemta má henni.

---

## Lófalestur.

1. Snildarhótin vina vönd
vekja þetta glíngur:
Þú hefir, snótin! þæga hönd,
þar með nettar fíngur.

2. Þeygi gögur þín er fín,
þöllin Fullu banda!
lífsins fögur lín' að sýn,
líkar Ulli branda.

3. Þó mun vafa þessum fleygt,
þegnum úngu fljóði:
Þú munt hafa höfuð veikt
helzt af þúngu blóði.

4. Andar hvergi meinið mitt
má hèr inni skoða,
handarbergið held eg þitt
hreinlíft sinni boða.

5. Ei mun sviptur svanni kær
sínu fróma lífi,
fyrr en giptu góðri nær
glöð á Óma vífi.

6. Nær sem öndin neyðar-treg
nálgast vegu bjarta,
þín mun höndin lukkuleg
langtum fegur skarta.

7. Lífs inndælan hljóttu hag,
heiðri bið eg valdir,
þar með sælan dauðadag,
dýrð og frið um aldir

## Um kvennasöng.

Hèr er söngvum hæða
hreift af göngum kvæða
meður föngum fræða
(fargar öngvum mæða);
lyndir löngum ræða
ljóma spöngum flæða;
innst af þröngum æða
eld í vöngum hlæða.

---

Rènar móður, værðir víns
venda raun að botni,
hýrnar sjóður hjarta míns,
hafðu laun af Drottni.

## Klausturhjúin á Möðruvöllum, 1739.

Jón er títt um hús og haga
hjörð og annir bús að klaga.
Guðmundur fer seigt að saga,
sýnt er karli veikt að laga.

Árni fær við kýr að kjaga,
klikkar hendur, brýr og maga.
Brýnki fast við rollu raga
rær, sem hrærð í polli þvaga.
Þórunn fer til flauta draga,
fólkið vön með graut að plaga.
Ólöf spinnur dygg um daga,
drós handgengin þiggur aga.
Ragnhildur sinn klær um kraga,
kveðgjörn flíkur þvær á snaga.
Margrèt hlóðir við kann vaga;
verður Björn um lið að jaga.
Herdís lætur skautið skaga
skuplu, mjaltar nautin, bjaga.
Sigríður megn að maula og naga
makar sokk við baulu kaga.
Þorgerður, sem skeyti skjaga,
skýzt með ask og heitir baga.
Kjörir loks í kyrð að slaga
knörrinn Brokks með girðíng staga.

---

## Tuttugu og átta nöfn í vísu.

Kár, Frans, Geir, Án, Kam, Björn, Heth,
Kort, Steinn, Mons, Páll, Lars, Gað, Ón,
Már, Hans, Kis, Loth, Sem, Örn, Seth,
Sveinn, Bel. Styr, Vagn, Ner, Ok, Jón.

## Danslilja.

Við í lund,
lund fögrum, eina stund
sátum síð sáðtíð,
sól rann um hlíð;
hlè var hlýtt þar;
háar og bláar,
ljósar og grænar
liljurnar vænar
í laufguðum skans
þar báru sinn krans,
sem brúðir með glans
búnar í dans;
doppum dikandi,
blöðum blikandi
blómstur ilmandi
við lyktuðum lands;
heyrðum söng, list löng
lèk um kvistu frjóa,
við urtastöng andföng
útpiplaði lóa
með spóa
munn-mjóa;
kænt við hann kjóa
kváðu gaukar móa;

súngu runnar, búngur, brunnar;
bakaði vöngum sunna
við sjóa
með unnar ið fróa;
fagurt var um flóa,
formenn voru að róa,
hvít blankaði hafs brúna,
heið krúna
lands-túna,
logn dúna;
liljum þeim er glóa
nam gróa samþróa;
kvikur són lèk um lón,
líkur þótti samtón
við symfón
og sönghörpu-nið um frón.
Gjóði Þundar góð-hróðug undi
glóða sunda rjóð slóð í lundi,
hróðurs punda hljóð dundi,
hlóðu blundi ljóð sprundi,
rjóður stundi, móð mundi
myndað yndi fljóð.

---

## Til Sigríðar Jónsdóttur.

1. Alfabetið uppteiknað
úngri veiganipt eg sel,
bið frumgetin brúður það
beri sig að læra vel.

2. Mikils vísir mjór er títt,
menntasafnið likt um fer,
það sem grísir námu nýtt,
náttúrunni tamast er.

3. Gömlum hesti gildir vart
gang að kenna það er mín trú,
því er bezt að úngum art
örugg tamin verði sú.

4. Menntarótin mjög er beisk,
miðlar sætu blómi þó,
þeim er bótin þeygi treisk,
þeirrar saft er vel inndró.

5. Lysting væra legðu því,
ljúfan góða! stöfun á,
birtuskæra bókum í
barnagullið finna má.

6. Með stökunum máls af reyr
mig (ef skyldan gætir sín)
heilræðunum hreifa meir
hvetur dygð foreldra þín.

7. Fyrsta, bezta og frægsta ráð
finn eg, vella sólin! þèr
ótta mest og elskudáð
æ til Drottins þú geymir.

8. Hyggðu vel að hann sèr allt,
heyrir, dæmir, geldur laun,
vondum selur kaupið kalt,
kefur góðum alla raun.

9. Trúðu því hann tryggur er,
tiptar vægur, elskar heitt,
enginn mýgja megnar þèr
meðan hans er fylgi veitt.

10. Bið hann vili blessa þig,
byggja, stoða, varna þrá,
misgjörð hylja, móðurlig
mæddri og gladdri augun ljá.

11. Sköpun, myndan, fjörið frítt,
fæðing, sjón, heyrn, krapt og ráð,
hreinsun synda og heilsu títt
hans eilífri þakka náð.

12. Fóstur, hafinn heilla krans,
hægð, umsorgun, friðarvist,
og ótal gjafir allar hans,
en einna mest fyrir Jesúm Krist.

13. Honum fel þitt áform allt,
eignir, heiður, líf og sál,
að hans vel þig orðum halt
undir tæmda dauðans skál.

14. Æskublómið ætti þitt
einnig hyllast foreldra ráð,
það er sómi heldur en hitt,
hefur líf og gefur náð.

15. Ætíð skyldir inna þeim
ást og heiður Guði næst,
fegri gildum fórnar seim
fráð er barna hlýðni tærst.

16. Þol ögunar, þakklæti,
þjónkan iðin, hæf og trú
skarta mun og skyldunni,
Skaparans boð ef rækir þú.

17. Bið þeim allrar blessunar,
bresti þeirra kær umlíð:
hæfi snjallrar hagsældar
heyrir þetta fyrr og síð.

18. Vendu þig að vera stillt,
við ofkæti síður töm,
friðarstigum fjær ei villt,
fáskiptin og vinnusöm.

19. Verkadygg og viðmótshýr,
vinum trygg, að jöfnuði
fáum stygg, en reiði-rýr,
ráðin bygg á framsýni.

20. Elska frið, en eyru gef
aldrei þeim er hylla róg,
þeirra niður sláðu slef,
slíkir aka fjandans plóg.

21. Hvar sem betur haga má,
heldur skyldir koma fram,
ekki metur æran há
illkvittinna þakkar vamm.

22. Láttu geymt það leyna ber,
legg í minni velgjörníng,
hafðu gleymt úr huga þèr
hitt sem þekktir ávirðíng

23. Vert ei blekkin, heldur holl,
hæfilát og góðvikin,
drag þig ekki í drengja soll
nè drykkjumanna selskapinn.

24. Sýndu milda meðaumkun
munaðarlausum, hvar þú kannt,
hjálparvild og hugsvölun,
hygg það vísan sælupant.

25. Ef þú gleður, gæzkan mín!
Guðs fáráðan vesalíng,
síðar geði svalar þín
sjálfur Guð í mótlætíng.

26. Ör til móðs ei öðrum bæg,
akta hvern viðskipta ber,
hugul, góðsöm, hýr, einlæg,
hylli granna festu þèr.

27. Vertu um of ei gróðagjörn,
gáfur Drottins þó vel hirð;
heyrnar-lof ei legg á börn,
læðir heimskan þótta virð.

28. Hvar eð, nær og hverja sem
hitta kunnir þanka stygð,
þolgeðs æru þèr vel tem,
það er blessuð eðla dygð.

29. Öllum skyldir unna góðs,
öllum kjósa Drottins náð,
öll er snildin ættarblóðs
undir slíku falin og tjáð.

30. Upp á heimsins auð og prjál
ei þig reiða skyldir fast,
það er eimsins ímynd hál
eðlisgjörn að foreyðast.

31. Eins er trygðarhæfið hans,
hjástoð öll og mannvirðíng
raunar bygð á rósum sands,
reikar eins og hjól í kríng.

32. Himnagæðin hyllstu því
heilög, væn og tryggileg,
allrar mæðu frelsi frí
fylla þau á bezta veg.

33. Þótt að höndum komi kær
kjör, sem æru gylli sess,
dauðans böndum dregur nær,
dúfan góða! minnstu þess.

34. Þinnar æfi þrýtur hlaup
þegar kann ske varir minnst,
sèrhverr hæfir síðar kaup,
sem í dauða verður finnst.

35. Eptir liðið lífsins blóm
liggur eik í bóli sín,
forlög miðast fyrir dóm,
freku munar sæld og pín.

36. Þessa minníng þèr vel tem,
því sú finnur Guði hjá
hæsta vinníng síðar, sem
sálu þinni gagna má.

37. Guð, sem áður gaf þèr líf
gjörði sèr og innplantað,
undir náðar æðstu hlíf
æfinlega geymi það.

38. Menntir snjallar þrói þèr,
þinn sem heiður auki ljóst,
dygðir allar safni sèr,
sætan únga! þèr í brjóst.

39. Happaskær og hyggjufróm
hag vinsælda náðu dug,
mannorðs-æru byr og blóm
beini gæfu þinnar flug.

40. Þýðast veri þitt forsvar
þrennur Guð um æfistig,
óbænir og álygar
engar láti snerta þig.

41. Friðargæðum fylli dáð,
forði galla, synd og pín,
þitt í mæðum rètti ráð
og raunir allar sykri þín.

42. Nær sem hèr að höndum ræðst
holds og andar skildaginn,
komi þèr til hjálpar hæst
hverreinn Jesú blóðdropinn.

43. Við brúsanda heljar haf
hvar sem ber að standir mædd,
sálar grandi öllu af
í hans faðmi sèrtu klædd.
44. Gleðidægur eilíf öll,
eptir vægan lausnardóm,
finndu næg í himna höll,
Herrans þæga liljublóm!
45. Þundar vistir þar eg fel,
þrotið kærast óskavín;
fróma systir, farðu vel,
fylgi sigur nafni þín!

---

## Til Guðrúnar Jónsdóttur.

1. Furðulítið fræðakver
fyrstu bókar mennta,
skykkju nýta skorðin! hèr
skráð í flýti sendi eg þèr.
2. Línu byrgðan letursmó
líka þrykkíng handar
bið eg virðir betur þó,
baugs en hirðir penna dró.
3. Kaup áskil eg, hrínga Hlín!
hertu þig að læra;
menntir vil eg þrifni þín,
þess ei dylur beiðni mín.

4. Það og gleði ferska fær
föður og móður þinni;
hjartans meðan vök er vær
vertu geði þeirra kær.

5. Hæfir mildum, Herrann kvað,
hlýðni foreldranna;
reikna skyldu þína það
þeirra vildum hneigast að.

6. Mundu ráðin mín ávallt,
mun þá Drottinn bjarga,
þeim á láði þig að halt,
þær við dáðir una skalt.

7. Æ þinn Guð með trú og trygð
tilbiðjandi sèrtu,
sá fögnuður hafnar hrygð,
há-blessuð er þvílík dygð.

8. Legðu jafnan líf og önd
ljúft um kvöld og morgna
í Jesú nafni hans á hönd,
hreint svo kafni syndagrönd.

9. Einnig vinnist vel og hægt
verkið hvert sem byrjar,
hvað sem finnur hug óþægt,
hafðu í sinni dygðanægt.

10. Vertu fróm og vel siðuð,
vör og mild í ræðum,
allan sóma geldur Guð,
gæt hans dóma rèttsinnuð.

11. Þar um ætíð þenkja skalt,
þegar unir glaumi,
holdsins kæti hèr með allt
heims dálæti stendur valt.

12. Að gæt þú, að allir menn
eru í dauðans skugga,
aumleg búast umskiptin
opt við snúin forlögin.

13. Það er mín gáta þels um far,
þegar Drottinn kemur,
margur gráta muni þar,
mest er káta sinnið bar.

14. Hinna vöngum veit eg hann
víst afþerrar tárin,
hverra löngum heims í rann
harmasöngum una vann.

15. Heimsins glaum ei þrái því
þitt hið únga hjarta,
soddan draumur svipar frí
sorgarstrauminn flestum í.

16. Auðnu fremur undir lagt
iðug stilling getur,
þar af kemur æra og akt,
ef þèr temur sinnið spakt.

17. Vönduð láttu verkin þín,
varast ónenníngu,
iðnisháttur eign er fín,
æruþáttur sá vel skín.

18. Holla trygð og hlýðni veit
hússforeldrum þínum,
þolgeðs dygðar þú æ neyt,
þau til stygðar ekki reit.

19. Hygg vel á þau heitin fín:
heillir munt uppskera
dygð ef sáir, dúfan mín!
Drottinn gáir verka þín.

20. Bráðu sinni ver þig vel,
vert í orðum gætin,
ráði svinnu reiði fel,
ræðu minnur skapi sel.

21. Hirtu sjaldan hyggjugrunn
hálfkenndum að opna,
tíðu skvaldri tæpast unn,
tem þèr aldrei lausan munn.

22. Hvorki ræður, lag nè lyst
legg við káta drengi,
þeirra slæðum þú verist,
þinn á hæðum Guð óttist.
23. Fróman, hygginn, þekktan þèr
þú skalt velja að ráðum,
þeink sá tryggur öðrum er,
eins má dyggur verða mèr.
24. Jafnkít aldrei illbryssíng,
ert ei börn til reiði,
vonzkubaldinn vitfirríng
vantar sjaldan formælíng.
25. Þeim, er minna þáði lán
þèr af Drottins hendi,
gæt að innir ei forsmán,
utan finnir dygða rán.
26. Þann ei hirðir sjálfum sèr
sæmd og æru kjósa,
lítils virðan láttu þèr,
last í kyrðum þó geymir.
27. Minnst án sakar mýgja skalt
munaðarleysíngjunum,
sèr það makar meinið kalt,
mörgum bakar yndið halt.
28. Harma-sjúkum hugsvölun
hæfðu, ljúfan góða!

Drottins mjúka meðaumkun
mun þèr lúka sætt umbun.

29. Auman hlæir aldrei þú;
upp á Drottins náðir
vef þig æ með von og trú,
vel í haginn fyrir þig bú.

30. Hrygð er flekkuð hèrvistin,
haltu þig að Drottni,
stólaðu ekki mjög á menn,
margan blekkir veröldin.

31. Sett við eimiun sorgar ert,
síður festan láttu
þinn við heiminn þanka bert,
þíns ógleymin dauða vert.

32. Hugleið sannan Drottins dóm,
dylst ei við hann kemur,
líkt sem annað lauf og hjóm
lífstundanna fýkur blóm.

33. Dagar þínir drífa hratt,
dregur ótt að merkjum,
beðju sína byggir statt
björkin fína þar hún datt.

34. En þar stundin helzt er hál
hugardofnu mengi,
varastu blundinn við heims tál,
vertu, brundin! mey forsjál.

35. Öll mun dafna dáðin þín,
dygg ef heims á foldu
rækir jafnan ráðin mín,
röðuls hafnar láðin fín!
36. Þín munu svæfast synda gjöld;
sem og unnum vaxa
lofið hæfa lífs um öld,
lán og gæfa þúsundföld.
37. Drottinn, sá er öllu ann
æruskarti þínu,
hreki frá þèr heims í rann
heillaþrá og gleðibann.
38. Hvers kyns gæfugirnd og þrótt,
glæsta mennt og heiður
dýr þèr æfi dag sem nótt;
dygðir hæfi sinnið rótt.
39. Hvað sem æru hefgar þín
heimsins undir sólu
Herrans næri höndin fín
hjá þèr, kæra dúfan mín!
40. Allar tíðir unni þèr:
englar, menn og skepnur,
hauður, fríðir himnarnir,
hafsins prýði, vindarnir.
41. Lægisfeldur, ljósin öll,
loptið, jurtir, steinar,

skúrir veldar, myrkur, mjöll,
málmur, eldar, vatnaföll.

42. Mistur, heiði, heitt og kalt,
hæð, dýpt, eimur, kyrra,
fjörs um leiðir auðnu allt
yfir þig breiði, sprundið snjallt!

43. Guð á hæðum gefi þèr frið,
gleði, nægð og yndi,
forði skæðum synda sið,
sendi í mæðum styrk og lið.

44. Vertu hèr í vöku og blund
vafin Jesú örmum,
standi hver hans æðaund
opnuð þèr á dauðastund.

45. Nær sem böndin hvarma hjól
heljar saman reira,
laus við gröndin lífs á ból
leiðist öndin fegri sól.

46. Allra gæða fylling fróm
faðmi þig, mín dúfa!
finndu bæði frelsisdóm,
frið og hæða sigurblóm.

47. Þrýtur versa vandað smíð
vart í mærðar gildi;
línur þessar lær og hlýð,
lifðu blessuð fyrr og síð!

## Til Guðrúnar Jónsdóttur.

1. Bænarljóða vers óvönd,
verðugri sem bæri,
Fofnis glóða fríðri strönd
fram skal bjóða góms af rönd.

2. Vantar kvæða vizku lag,
vil eg þó æskja þannig:
friðargæða hrepptu hag,
hrundin klæða! nótt sem dag.

3. Yfir þèr skíni einna mest
ástin Guðs og manna,
öllum týni auðnu brest,
á þèr hríni gæfan flest.

4. Dagana alla Drottinn minn
dilli þèr á örmum,
sútargalla sefi þinn
sólarhalla-kónngurinn.

5. Æðstur blessi ár og síð
öll þín verkastörfin;
í göngu og sessi gæfan þýð
glatt þig hressi um æfitíð.

6. Jesú hjarta gæzkan góð
gleði sálu þína,
hrygðar parta hrindi móð
hans hið bjarta síðuflóð.

7. En sem dvínar æfiskeið
og yndi lífsins hallar,
sálu þína svipti greið
Sonarins pína kvöl og deyð.
8. Henni skjól í himna vist
hæstur Drottinn veiti,
fegri en sól með lífsins lyst
hjá lambsins stól hún forklárist.
9. Bæn mín verði skrifuð og skráð
Skaparans mitt á hjarta;
hrínga Gerði heims um láð
hvergi skerðist ærudáð.

---

## Til Guðrúnar Jónsdóttur.

1. Frænings mána fín og skynug reinin
frekt að spektar mekt er þekkt óhnekktri,
hylur kala heil og dæl í máli,
hjartans art óvart hin bjarta skartar,
ljúfu vífi lof, er hæfir, dreifist,
lyst í Kristi gistir nistis hristar,
bæn og trúna beinir fín að honum,
blessan hress í messu þessa hressir.
2. Bið eg heiði boða næði glóðar
bíða tíð, sem níðir stríð og kvíða,

meðan leiðist láð um ræða brúðar
ljóði hróður þjóð um fljóðið góða,
eyði nauðum, að er geði ráðast,
æði skæðrar mæðu græðir hæða,
frið, auð, heiður, fríða náð og gleði
fáðu þráða dáðum jáða láðin.

---

## Til Sigríðar þorláksdóttur.

Viðlag: Sjáðu þinn sóma,
(Sigríður mín! gættu Guðs dóma þá gleðin skín),
framsynin fróma sè fasteignin þín.

1. Margir stunda hefð í heimi,
hvergi blunda að fergja seimi,
fjáðir í lund af fagurdreymi
forgengilegs blóma.
Sjáðu þinn sóma.
Villir grunda víst að eimi,
vonum fyrr er dvín.
Framsýnin fróma sè fasteignin þín.
2. Líf á grönnum leikur þræði,
leiðir mönnum brigðul gæði,
sveipað önnum, sorg og mæði;
sigur æ til dróma, s. þ. s.
Yndis hrönnum byr þó blæði,
ber að angurs pín, f. f. s. f. þ.

3. Því er láni laust að trúa,
lukku máni kann sèr snúa,
hags með ráni, rètt í grúa
raups og hyllidóma, s. þ. s.
Einatt spáný gæfu gúa
gabbar vini sín, f. f, s. f. þ.
4. Hag þinn tryggja hreint ef vildir,
hús ei byggja á sandi skyldir,
heims við liggja grand ei gildir
gígjar-niðinn tóma, s. þ. s.
Viltu hyggja á hærri snildir,
hlýddu ráðum mín, f. f. s. f. þ.
5. Drottins ótta dugnað mestan
dag og nótt þèr hafðu festan,
vizkugnótt og virta beztan
veg, það hyggnir róma, s. þ. s.
Lukku þrótt og lofstír hresstan,
lèr sú gáfan fín, f. f. s. f. þ.
6. Hvort þèr mætir, svanninn svinni!
sorg eða kæti í veröldinni,
haltu gætinn hug og sinni
Herrans viður dóma, s. þ. s.
Lög hans ætíð legg í minni,
ljósið af þeim skín, f. f. s. f. þ.
7. Þín skal vaka bænin blíða,
bið um sakar uppgjöf tíða,

alls kyns blaka fríun fríða,
frið og andar blóma, s. þ. s.
Talinu spaka leng hið þýða
traust á Jesú pín, f. f. s. f. þ.

8. Elska þá, er elska dygðir,
að þeim gá, er velur trygðir,
vek ei þrá, en veið af stygðir,
ven ei last á góma, s. þ. s.
Brigzli hná, sem bann og lygðir,
bist að engum tín, f. f. s. f. þ.

9. Heiður, ást og hlýðni svinna
hneigðu skást til foreldra þinna,
lát ei þjást að þægja og inna
þeim geðrækni fróma, s. þ. s.
Mest og dást í mæðu að hlynna,
minnstu launin fín, f. f. s. f. þ.

10. Yfirsettum virðíng veitir,
vinskap rèttum aldrei breytir,
sorgarmettum sízt að hreitir,
set þig ei til dóma, s. þ. s.
Heilsu flettum hægðar leitir,
hugnað aumum sýn, f. f. s. f. þ.

11. Gömlum æru gjarnan tjáir,
Guð vill hærum kann ske náir,
þèr hug kærum þeirra sáir,
þar sem dygðir ljóma, s. þ. s.

Vorkun-sæ um lúa ei láir,
lífs þó kveini sýn, f. f. s. f. þ.

12. Hóf og spörn á hverju tægi
haf, svo þörfn ei síðar bagi,
þakkargjörn, þó þörfin agi,
þiggðu vatn sem rjóma, s. þ. s.
Misleik hvern ei met sem dragi,
mótgjörðunum týn, f. f. s. f. þ.

13. Þótt þú næðir þiggja slettu,
þokkafæði, stygð og glettu,
þolinmæði þèr æ settu,
þenk til seinni dóma, s. þ. s.
Senn þó ræðir svari nettu,
sök ei lengi brýn, f. f. s. f. þ.

14. Heimsins illa öfug dæmi
upp að fylla, þèr ei sæmi,
þó eins villa vítum flæmi
verk og tal hins fróma, s. þ. s.
Vart að grilla veit hinn slæmi,
vel hvar dygðin skín, f. f. s. f. þ.

15. Sannleik reyn í sagna grúa,
sökum bein til góðs að snúa,
jafnan sein að taka og trúa
tali skvaldurs lóma, s. þ. s.
Brestum leynir bragna og frúa,
bót ef þögn er sýn. f. f. s. f. þ.

16. Flýðu stjá við falska og káta,
fellst ei þá, er mikið státa,
víktu frá þeim vanka láta
vols og keskni gróma, s. þ. s.
Þessir fá sinn glaum að gráta,
girnst ei þeirra vín, f. f. s. f. þ.
17. Gæfuspár af góðum þiggir,
guðleg tár ei frá þèr styggir,
er þeim skár að undirliggir
en purpura af Róma, s. þ. s.
Lífs um ár þau að þèr tryggir,
æ þeim höfuðið krýn, f. f. s. f. þ.
18. Þokka-sniðug þinna vanda
þrifin, iðug, verkin handa,
vikaliðug, víls án anda,
volgur lát ei hljóma, s. þ. s.
Hraks við kliður hirð ei standa,
hend ei mök við svín, f. f. s. f. þ.
19. Varast þú frá blygð að buga,
baki snú við þeim ei duga,
ferskum bú að frómleiks huga,
fis virðandi Móma, s. þ. s.
Legg ei trú við lausmáluga,
lymskum kænsku sýn, f. f. s. f. þ.
20. Forsmá ei þá máttarminni,
minnstu að fleygja stoltu sinni

og burt sveija öfundinni,
öllum girnstu sóma,
byr, heill og blóma;
lærðu að deyja lystíng þinni,
lífið fyrr en dvín, f. f. s. f. þ.

21. Þitt hið bjarta lítillæti
leiði skart á auðnusæti,
minnis-art og mennta-gæti,
myndaðu líf til dóma, s. þ. s.
Auðmjúkt hjarta vanga væti
varmt í Guðs augsýn, f. f. s. f. þ.

22. Kepptu haginn kvöldstundanna
kænt við blæinn árgeislanna,
senn ber daginn sól til hranna,
sezt að húmið gróma, s. þ. s.
Magnaðu fræin mannkostanna
meðan ljósið skín, f. f. s. f. þ.

23. Föðurráðin þiggðu þessi,
þig svo dáðin óflug hressi,
Drottins náðin dýr inn pressi
dygðir þèr, sem ljóma
sífelt til sóma,
heims á láði byggi, blessi
og bryni þig heillum sín, f. f. s. f. þ.

24. Jesú blóðið rósa-rauða
ríkt þèr bjóði frelsi nauða,

leiði fljóði líkn ótrauða,
lasta renni dróma,
og sveipi þig sóma,
breyti flóði hins beiska dauða
í bezta gleðinnar vín, f. f. s. f. þ.

25. Hæsti friður heilags Anda
haldist viður þilju banda,
þrykki niður þjósti og vanda,
þreyti lyst hègóma,
og seði þig sóma,
gæzku-iður Guðs lifanda
geymi þig frá pín, f. f. s. f. þ.

26. Tær hólpinna trúar-glæðra
tárin þinna feðra og mæðra
niðja sinna auði æðra
yndis fundin plóma
safni þèr sóma,
krapti og hinna Kristí bræðra
klár í Guðs augsýn, f. f. s. f. þ.

27. Farsældanna finndu gengi,
friðsældanna kjörin lengi,
vinsældanna val hjá mengi,
vörn englanna fróma,
sigur og sóma,
lofsældanna fórn og fengi,
fegri en sól í Rín, f. f. s. f. þ.

28. Mín svo ræða mindug standi,
minnis klæða hrynd árnandi,
lífsins hæða lind ilmandi
líf þitt reifi blóma
og sannhelgra sóma
að þèr hlæði á yndislandi,
elsku dóttir mín!
Framsýnin fróma sè fasteignin þín.

## Nafnstuðull.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Sals | ró | - Sin | ey | - Su | ál | - S |
| I | he - | - Im | - - | - I | grandfr | - I, |
| Góðfræ | | - G, | ryktu | - G, | ráohö | - G |
| Rati | æ | - R - | u kjö | - R | væ | - R, |
| Inndrag- | | I | d | - Ygða | hl | - Y, |
| Dáðval | | - Dur | au | - Ðs | lá | - Ð, |
| Unz | ró | Um | röð | - Uls | br | - U, |
| Rína | - | - R | be | - R | súeiþve | - R, |

---

## Um Guðrúnu Vigfúsdóttur.

Guðrúnu geðhreina prýði
góð sæmdin þjóðræmd um slóðir,
þæg, vitur, hóglát og hugul
hús kætir, fús gætir húsins;

kvennblómið kann aumum sinna,
kær sjúkum mær hjúkrun tærir;
lof, heiður, líf, náð og gæfu
ljós gisti rós brísíngs ósa.

## Um Skevíng.

Um Skevíng eg lof lengi:
lèr sóma grèr skjóma,
kort amar, kurt temur,
kænn, dyggur, vænn, hygginn,
þolgóður, þelblíður,
þjóðhagur, hljóðfagur,
geðprúður, guðhræddur,
gjafmildur af snilldum.

## Óskaljóð.

Lífið bezt, lofið glæsta
lengi hjá mengi fáið,
rými göll, hamíngjan holla
hafni stygð, dafni trygðir;
yndisblíð andans gleði
eyði bægð, greiði nægðir;
endið líf undir gæfu;
alda grið haldist viður!

1. Hjartað skartar þýtt þitt
þrást í ástum, ljós drós!
manndygðanna með dáð,
magnar hagnað þín fín
lund um grundir lof-hæf
lýðum þýðum bót, snót!
sèrtu, vertu siðprúð
sæmdum ræmd um heims geim.

2. Heill þig prýði holl öll
hrósi vafin, ljós drós!
blífi sóma gjöf gæf
griða bundin við mið;
víki rauna blök bak;
brjál ei vinni sál tál,
gerist heljar kjör kær,
hjá Kristi fáðu vist gist.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Styð | náð, | frið | fljóð! |
| frið- | dáð | hlýð | góð, |
| ryð | hrjáð | lýð | ljóð, |
| lið- | bráð | níð | móð, |
| grið | fjáð | blíð | hjóð, |
| bið | tjáð | þýð | hljóð, |
| sið- | ráð | hýð | hnjóð, |
| hlið | gáð | víð- | fróð. |

## Vögguvísa.

Gullvæg snillin, holl heill
hallist að kalli á palli,
felli kvilla fullsæll,
föllin, spjöllin og göllin,
býti mætur bót sút,
bata svo rati, sízt fatist,
en veiti kæti möt mót
í máta, svo gráti af láti,
sóma semi þægur,
sveimi ama gægur
í burt; hin kæra
kurt og æra
krýni svein öll dægur,
gleði gæðist hægur,
Guði og mönnum þægur.

---

## Meyjarkveðja.

1. Mín er dúfan geðgóð,
glöð í hjarta, kinnrjóð,
valinkunn og vel fróð,
varin öllum hugmóð;
griðum sætir gott fljóð,
geymir dygða fésjóð,

hjartans æða heitt blóð
hefir kæra baugslóð.

2. Sèrtu vafin hríngshrund
heill um alla lífsstund,
kæran viður kjörmund
kætist jafnan þín lund;
hvar þú fer um heimsgrund,
heiður stefni á þinn fund;
hægi þèr við hels blund
Herrans Jesú blóðund!

---

## Óskaljóð.

1. Himin, lopt, láð og geimur,
ljós öll og vötnin frjósöm,
hiti, hlýrnis grátur,
hagl, eldar, vinda-raglið,
steinar og grösin grænu,
græðis her, dýrin bæði:
allt hvað lífsanda fyllt er
unni þèr, baugasunna!

2. Líf, heiður, lofið gæða,
ljósan frið hrósan viður,
heilsu gnótt, vel sem vottast
vandræðastandið græði,

harma vörn, himins árnan,
hagsælan dagamæli,
mök andar, mjúkast yndi
mannúðleg brúður kanni!

## Nýárskveðja.

Arnar skyndir skjóma
skýrleg hindin góma;
prúðust lindin ljóma
lægis finndu sóma,
síður blindi blóma
brúðar syndin gróma,
dauðans hryndi dróma
dýrðaryndið fróma!

## Nýársvísur.

Nýtt árið nett kærum vottist,
njót verju mót herjan skjótast,
fyllíngu, fulldangan heilla,
fest griðin mest viður beztu;
hæð, grundir, glóð, vindar, löður
gagn það og hagnað æ magni,
er pápa nær nipurt kjörum
neyð varna, leið farnist heiðurs.

Grein aldar væn veldis
veg sóma, eg róma,
hjartkærum hýrt beri
hlin örva vingjörfum;
gnótt yndis hátt hendi
hægð öll og frægð snjöllust
þitt ráð, svo rètt friðar
rausn haldi lausn aldar.

---

Magni þèr mundir fögnuð,
missirin þig kyssi,
hossi mánuðir hressíng,
happið vikna klappi,
dilli dagar allir,
digni ei stunda signíng,
mót þèr hlæi mínútur,
móment hvert auki sóma.

---

## Nýársósk til Skevings.

Árið nýtt æru-stórum
eiri þýtt hirði geira,
nærist vítt nægtum kjörið,
nýr ei lítt sómi skýrist,
fjörið blítt frið ummúrist,
færi kvitt náðin skærust,

vari títt yndið værast,
veri hlýtt árnan hèr um.

---

## Ósk með nýju sumri.

Blóm sè rèttlætis beima
blóm-göfgum hirði skjóma,
blóm-gleði bezt staðnæmist,
blóm friðarhögum ljómi;
blóm heilla brjóti ömun,
blóm dygða skarti frómum,
blóm vizku baga rými,
blóm yndis hreifi sóma.

---

Rós sè rèttlætis prísuð,
rós unnar ljóma hrósið,
rós gleði raunir dasi,
rós friðar gagni drósu,
rós heilla björt viðreisist,
rós dygða lofstír kjósi,
rós vizkuráðin glæsi,
rós yndis mögnuð þó sè.

---

## Sumarósk.

Rituð ástar hýr hót
í hróðurs málum þín, góð
systir sómakær!

yfirlesin eg hef,
　　alldálega það spjall
　　　　mèr í móti hlær,
því skal inna þèr nú
　　þökk, hin fróma veigs hlökk,
　　　　varminn elsku vær;
árna þar með æðst vörn
　　æfinlega kjör-hæf
　　　　þín sè þrenníng skær;
sumargæða blítt blóm
　　bagafirrtan lífshag
　　　　límí lukku nær;
hlíði dúka hörð neyð
　　hörmum súta reirð vörm
　　　　standi furðu fjær;
eldur, himin, fríð fold,
　　frjósöm vötn og heimsljós,
　　　　ljómi lopts og blær
frestalausum frið glæst
　　fagni þèr með sitt gagn,
　　　　drósin dygðabær!
Mest þig prýði mæt list
　　menntaríkis alhent,
　　　　sú í sóma grær;
hallist að þèr heill öll,
　　hæsta náð og dygð æðst
　　　　frekt um foldarkrær;

á þig streymi æ sú
    inndælasta blóðlind
        Krists, er lukku ljær;
elska Drottins ófölsk
    inn þèr rætist hvert sinn,
        henni hjartað nær,
heilög bæn og trú til
    tæmi synda göll næm,
        hljóttu heillir þær;
upprennanda hæst happ
    hèrvistanna sè þèr
        ljós og lampi skær;
þangað sem að lífs löng
    lyst er búin hjá Krist
        þeim er frelsi fær
bæn ályktuð býðst mín,
    bið eg sèrtu í Guðs frið
        erleg ýngismær!

---

## Sumargjöf.

1. Senn á sæðisbólin sumarið skín,
um lífs og lukku hjólin leiptri þín
sæl rèttlætissólin, systir kæra mín!

2. Hressist æ þinn hagur heims á grund,
æru-og yndisfagur alla stund,
rými raunaslagur, ríki dygð í lund.
3. Eptir æfitíðir allar hèr
dýrðar dagar blíðir dilli þèr,
þar sætt samfagna lýðir og sumarið aldrei
þver.

---

## Árstíðavísa[1].

Vorið ylblíða
vottar hinn fríða
vorn æskublóma.
Sumarið þíða
þróttaldur lýða,
þrif, auð og sóma.
Haustið heims kvíða,
hlaup ellitíða,
hnignan og dróma.
Veturinn stríða
stund dáins hríða
og stefnu til dóma.

---

1) Þessa vísu skrifaði skáldið á spjald og sendi Þorgrími Jónssyni, Þorgrímssonar, prests að Hálsi í Fnjóskadal.

## Sumarvísa.

Enn er blóm alda runnið,
enn skarta Föbus nennir,
enn lifnar tíminn annar,
enn byrr að högum rennur,
enn sveimar ís að hrönnum,
enn hljómar gleðin tvenna;
enn ber án tafar innist
enn heiður veldi þrennu.

---

## Um sumarkomu.

Sumarblóma heit hlær
hrundin Óma sveit kær,
raddir hljóma reit nær,
rennir dróma teit mær
nistíngs hjóma neyt fjær,
Nikars plóma heit grær, feit
prýði ljóma leit vær,
linna dóma sleit blær.

---

## Um sama.

Hlaup alhæpin tíða
hrönnum enn af líða,

svipar sveipan kvíða
sunnu ranna blíða;
Hýmis ljómi hvarma vörm
hvetur mæti víða,
ýmu grómi armar þjörm,
en etur kæti lýða.
Svekjan veikir Fornjóts för,
flikar klaka blærinn ör,
vekur svækin vori fjör
vinda mund hin þíða.
Söngvar ganga um sumarblóm,
sönginn mengi nemur óm,
þvíngar enginn himins hjóm
hlesst í mostu gríða,
bilar bölið níða,
bætur sveitum hlýða,
mæðu stríða misklíða
dylur sól inndæl um hjólin
Dvalins elju hlíða,
fellir spjöll hin fríða
fold, er aldin prýða.

## Sumarvísur.

1. Kviknar landakæti senn,
kefur drift á túnum,
svalbaugsandar sætir enn
sínum lypta brúnum.

2. Happaslagur hendir sveit,
hastar náð innfljóti,
bjarnardagur bendir reit,
brosir láðin móti.

3. Vetrarkvíða vindur þraut,
viður glansar skógur,
kjarna hlíðar kind upp skaut,
kvikur dansar plógur.

4. Af liljunum elli brá,
aldin falda ljósa,
heiðgeislunum hellir á
hlýrnis tjalda rósa.

5. Vaka söngvar víða um reit,
varmar hlýðir gróa,
bakar vöngum blíðan heit,
barmar fríðir hóa.

6. Sem að hasti sjónaræð
sett að skýra gengi,
fagna rastir, frón og hæð,
fuglar, dýr og mengi.

7. Kulda neyðar hvellur dó,
kjör þau aptur seldi,
Guðs vagnleiðar fellur frjó
feitisapt um veldi.

8. Hans viðnærir handar skjól,
happa fríar þrotum
allt hvað hrærir andar ból
undir skýja lotum.

9. Hann oss náða hreiður lèr,
hann vorn galla bætir,
honum ráðast heiður ber,
hann oss alla kætir.

---

## Vetrarvísur.

1. Sumarið þegar setur blítt
sólar undir faldi,
eptir á með eðlið strítt
andar veturinn kaldi.

2. Felur húm hið fagra ljós,
frostið hitann erfir,
væn að dupti verður rós,
vindur logni hverfir.

3. Lýðum þegar lætur dátt
lukkubyrinn mildi,
sínum hug í sorgar átt
sèrhverr renna skyldi.

---

## Kveðið 1744. (*)

Grætt er Guðs burðar nóttin,
gripin í þögn og skipuð
kvitt af Kristjáni sjötta
kristinn sið fornan viður.
Sýkn er hún; en vèr söknum
sólar vebjarga um jólin;
hrærist helgi í dúrum,
heim að orlögum dreymir.

---

## Vítaslagur.

1. Þýtur skíða þundar blær
þagnardals af heiði
máls til hlíða mjög óvær,
mistri víða fyrir slær.
2. Undir búast hærum heims
háskasamar tíðir,
viður grúa klækja keims
kennir lúa sorgareims.

*) þá jólanótt messan var afsekin.

3. Öllu standi leiðir last
lukku tjón og mæði,
kærleiks andi kólnar fast,
kíf í landi margfaldast.

4. Illskan rama brýzt um brá,
brjóst og túngur manna,
hverr vill ama öðrum tjá,
engan frama girnast á.

5. Sundurlyndi sældar mest,
sjálfselskunnar víti,
upp sú kyndir allan brest,
eins og vindi bál æsist.

6. Kann ei líða kul á mót
kjör-virðíngu sinni,
lætur svíða hefndar hót
hvar sem þíða fann ei rót.

7. Fyrir ómæta sök er sátt
svipt á augabragði,
forsug þræta fellur dátt,
friðinn græta þykir smátt.

8. Mannskap halda meingjörn þý
mýfluguna að sigta,
sjálf úlfalda svelgja frí,
sinnið kalda lýsir því.

9. Þekki brigð á þokka sið
þræll fyrir góðum manni,
eina stygð er áhlaupið,
engra dygða viðgetið.

10. Hans útmálað heyrist brot,
hætt sem orka skyldi,
undir hálast ærurot
eður sálar heilsu þrot.

11. Agg og þrá um eyr sem gull
iðka menn af lètta,
gífra, já, um geitarull,
gamni hjá er þykkjan full.

12. Allsháttað til ólempis
æglyndir sèr finna,
víta hvað sem væri slys,
veifa nað ef bærist fis.

13. Hendi fróman feil um sinn
framar vísu ráði,
það skal hljóma út og inn
eiðs með dóma skakkorðin.

14. Hann beryrða hvar sem stár
heyrnar vítt um færi,
dygð hans virða hunds við hár,
hitt án kyrða lastið gár.

15. Makar þetta mannorðs stíng
mörgum verr en skyldi,
gremur þetta geðshræríng,
gefur slètta leiðrèttíng.

16. Málið svinnu mjúkt og hægt
mót sèr líku veitir;
skvaldurs sinnu skapið ægt
sjaldan finnur svar einlægt.

17. Svoddan víða sannar þjóð
Salómonis ræða:
orðið stríða eyfir hnjóð,
andsvarsblíða forðar móð.

18. Svo sem neistann magna má
með atblæstri hörðum,
líkt útkreistan lýðir fá,
lítt ef geystan hrækt er á.

19. Þínum munni þetta tvennt
þó í raun af kemur,
sáttum unnir, sú er mennt
samvizkunni betur hent.

20. Hvað þú vildir hlotið fá
hyllirikt af öðrum,
sama skyldir sjálfur tjá,
svoddan snildir hepta þrá.

21. Þu villt hróður heyra þinn,
hafðu slíkt við aðra,
veikum bróður vægðir inn,
vef í tjóður lastyrðin.

22. Þèr ef sankar þykkju löst
þinn úthrópi lýðir,
láttu ei vanka kífs við köst
kýltu þanka brigzlin höst.

23. Þinnar ѐru þú ef kýs
þökk og virt af mengi,
hinna skærum heiðri lýs
hyllisær um þeirra prís.

24. Kvis, álygi, kals og bann
kjósa viltu eigi,
varast því að vondskap þann
viður drýgir nokkurn mann.

25. Kífs ef fólin kunna þèr
kynda móð, svo vakni
reynsluskólinn, reiðihver
renni ei sólin björt undir.

26. Stillir ama, styrkir ró
stöðuglyndið hreina,
kvillasama hefnd af hjó,
hylli-frama löngum bjó.

27. Þolinmæði þjáir stygð,
þolinmæði vinnur,
þolinmæði þróar dygð,
þolinmæði sóar hrygð.

28. Þolinmóður öflgum er
ágætari fundinn,
vænni hróður vinnur sèr
vígs en góður kappi hver.

29. Forprís Davíð fèkk af því
forðum tíð, er þoldi
helju krafið hefnda frí
heiptarskrafið Símeí.

30. Móses Júða fólskufar
fast og tíðum reyndi,
myndin prúða manngæfðar
millum flúða seglin bar.

31. Jóseps dygða fráð er flug
fram þó seldur væri,
undir hrygða beiskan bug
brá ei trygða föstum hug.

32. Jobs er tíðum hrósað hátt
helgri þolinmæði,
gráts í hríðum svar með sátt
svanna stríðum gaf hóglátt.

33. Tobías eirði friðnum fast
firrtur vina gengi,
sorgum dreyrði súrt aðkast,
sitt þó heyrði, gaf ei last.

34. Morðbrigzlanna reyndi rögg
Ragúels dóttir fróma,
sízt þó vann að hefja högg,
heldur anna tára dögg.

35. Svoddan skyldu dæmin dýr
dróttum sáttir örfa,
grand að trylldu geði snýr,
gæfan mildu fyrir býr.

36. Forsi mætti flestu sá
fæst til ama gjörði,
þolgeðs hætti þó ei brá,
þvíliks ætti sèrhverr gá.

37. Líka boðið hefir hann
hógværð af sèr læra,
þeim er voði ei því ann,
allir skoði spegil þann.

38. Hvað skal þrátta hèr um gnótt
heimsins auðnufengis,
allir hátta förum fljótt,
feigðar sátta ber að nótt.

39. Skyldu geyja skæðir spart,
skjótt kann önnur bjalla
þessum fleygja þyt óvart:
Þú skalt deyja, bú þig snart!

40. Er þá kveikur æfinnar
útslokkinn að bragði,
svo sem reykur rými skar
rotnar bleikur nárinn þar.

41. Þeir sem stunda frið á fold,
friðarlaunum hlíta,
friðarlunda frótt í mold
friðað blundar þeirra hold.

42. Öllu grandi friðar frá
frelsaðir án enda,
friðarlandi fögru á
friðarandlit Guðs þeir sjá.

43. Látum friðar ráð og róm
ríkja vor á milli,
höldum friðar dýrau dóm,
drýgjum siðaskiptin fróm.

44. Blygð, hógværi, bæn og trú,
blíðleik, þolinmæði
elskum, kæru Herrans hjú!
hæst er ærugiptin sú.

45. Verum eigi vansáttir
vorn um lítinn tíma,
gráts þó vegi göngum hèr,
glöðum degi senn að ber.

46. Allt er stríðið úti þá,
ei sem verið hefði,
drífa tíðir yndis á,
ama hríðir fjærri stá.

47. Berum, góðir bræður! því
byrði hvorr með öðrum
þeygi hljóðir þels um bý,
þolinmóðir, kalafrí'.

48. Sár þó mæti sorgin hèr,
sannlega verðugt eigi
það mótlæti þenki hver
þeirrar kæti, er eptir fer.

49. Guð oss öllum gefi náð
grið og frið að halda,
vægi göllum, verki dáð,
veri föllum, styrki ráð.

50. Synda-grómið endi allt
andláts-tómið viður,
leggi í dómi lið óvalt;
lof hans hljómi þúsundfalt.

## Hugraunaslagur,
### er kallast
## Þagnarmál,
### kveðinn 1728.

1. Þar um getur Þagnarmál
þrátt í geði mínu:
velmakt öll og veraldar prjál
veltir blómi sínu.

2. Vinsæld, auður, vald og makt,
vizka, lán og hreysti,
lífsins fegurð, æra og akt
útkulnar sem neisti.

3. Hvað er veröld, hennar glys,
hefð og art, sem beiðist?
Reykur, bóla, funi, fis,
fellur, hjaðnar, eyðist.

4. Lán er bezt að lykja sig
litlum undir feldi,
heimsins prýði hègómlig
háttar senn í eldi.

5. Öll náttúran er að sjá
ellimörkum hlaðin,
vindar, hauður, vötn og lá
votta sinn skapnaðinn.

6. Ísar hlæðast yfir mold,
eyðist bjargarfengur,
bylgjur æða, fyrnist fold,
flest til þurðar gengur.

7. Eldar brenna grjót og grund,
grasið jarðar kylur,
skepnur kenna feigðar fund,
fargar húsum bylur.

8. Víða skriður vinna tjón
vegu fordjarfandi,
vatna-riður fergja frón
föstum leir og sandi.

9. Græðir óðum gremur sig,
grandi skipa veldur,
beinir þjóðum banastig,
bygðin skaða geldur.

10. Þessu framar sækir sveit
sjáfar-afla skortur,
fyrir það sama fæst um reit
forði matar kortur.

11. Veiði banna vangæftir,
vindar bylgjum róta,
sultur mann í sundur sker,
sældarvistir þrjóta.

12. Það sem forðum þókti múr
þessu föðurlandi,
happa-skorðum hallast úr,
heill þó friðar standi.

13. Umbreytíng er orðin mest
atorkunnar líka,
fátæklíngar finna brest,
fatar nokkuð ríka.

14. Þèttir mæðu þó sumpart
þegna fæðumáti;
armur klæðist og í skart
ekki ræður státi.

15. Brastar þjóðin barna-rík,
brauðs er gróðinn seldur,
hverr amlóðinn fágar flík,
fast í móðinn heldur.

16. Vefur klútum fálka frón
firrtur súta mörkum
hnappa jútur hags við tón
hoppar út á jörkum.

17. Reynir hortug ræðugöng,
rètt í gorti smitar,
æ þó skorti fæðuföng
fötin sortulitar.

18. Snauðu búi bjargar ei,
börn og hjúin sveltir,
naumast kúa hirðir hey,
hjörð um þúvu veltir.

19. Skuldaseigur, skiptiveill
skemmir leigumála;
til öreigu hrapar heill
happafeigum gála.

20. Sumir feita sig um of,
sölu beita störfum,
út um sveitir kaupa krof,
kosti neita þörfum.

21. Hafa rèttan hunda sið,
hakka mettir fantar,
en sem þetta er uppsólgið,
allt hið lètta vantar.

22. Hirðuleysi hèr og þar
hinum geysir voða,
varla meisi viðbjargar,
vill í hreysi stoða.

23. Beitir engi, treður tún
trassafenginn kauði,
sefur lengi hann og hún,
hirðir enginn sauði.

24. Kvífènaður missir máls;
með er það í gátum
bykkjur laði bæ til hálfs,
baulur vaði í sátum.

25. Þussinn snauði þetta veit,
þykir auð ei saka,
hýmir kauði hvað sem leit
hans búnauðir maka.

26. Feygir bæði föt og skó.
flest armæðan lúði,
gefur næði görpum þó
gisinn klæðadúði.

27. Amboð fatar aðgjörðir,
ull og matur fargast,
hvað sem klatar, ónýtt er,
aldrei gat viðbjargast.

28. Heyin skaðar, hætt sem dý
húss má vaða bleytu:
þannig baðar aulinn í
óþrifnaðar veitu.

29. Börnum verður sama að sök,
sóma skerðir lengur,
sèr á herðum bera blök,
bann að erfðum gengur.

30. Vinnuhjúa vandræðin
vaxa nú ei minna,
sum ótrú og sèrplægin
söfn í búi grynna.

31. Hundraðs-kaupið heimtar sá
haddar laupi veldur,
þiggur staupið ofan á,
allt í raupi geldur.

32. Er íbyggur augnaþjón
eins og tryggur væri,
en ódyggur undan sjón,
ef sèr hyggur færi.

33. Vanar tíðum verkefnin
viðmáls blíðu hróið,
hvinnsku níðir hagleik sinn,
hvergi síður tóið.

34. Vinnugripum veitarans
vèlaripill háir;
hinum skipun húsbóndans
hvergi svipa náir.

35. Arsinn klórar eitt umfar,
eyfir bjór á mundum,
sefur, slórir hèr og hvar,
hefir óra stundum.

36. Vanur rápi vangann klær
víls í tápi slíngur,
kjaptar, glápir, hvimar, hlær,
hönd í kápu stíngur.

37. Því sem beiða bóndinn vann,
buldur eyðir hinna,
svo það neyðist sjálfur hann
svalagreiður vinna.

38. Vítur eigi þola þó
þessi grey af neinum,
knefa reigja: „Karl minn, ó!
komdu“, segja, „reynum!

39. „Ei má vita okkar hver
öðrum bita gefur,
eg tek slitið út hjá þèr,
en þú kritið hefir.

40. „Fyrir krakka þína og þig
þó eg skakka bíði,
engu þakkar, ætíð mig
eins og rakka níðir.

41. „Þá eg ræ um rastirnar,
ryð og plægi hauður,
aldrei vægir þú mèr þar,
þó eg lægi dauður.

42. „Illa fer, ef þurfaþræll
þinn (sem er af mönnum)
skuli eg vera;
sèrtu sæll, segi eg þèr upp önnum.“

43. Upp í hári herra síns
hæðinn dári stendur;
út svo gár í æði svíns
eins og Kári brenndur.

44. Þannig haga sumir sèr
síður aga teptir;
þernur slaga, því er ver!
þeim óragar eptir.

45. Frestarvíma verkum á
vinnutíma hneita,
er þær hýma, kúra, kjá,
kveða, stíma, neita.

46. Málum tengja marglætið,
mundir engja að kolli,
setur lengja lystar við
leik í drengja solli.

47. Eptirsjón ef örugg þver,
öðrum þjóna af lètta,
vita hjón, en vinna sèr,
verkatjón árètta.

48. Sumar dækjur feygja flest,
fatabrækju safna,
sokkastækju sinna mest,
sem órækjur drafna.

49. Fyrna langan festa dúr,
fýlukrangann bítur,
leppsur hanga lörfum úr,
lukt af anga þýtur.

50. Þó kaupgjaldið þægt sė veitt,
þeim að haldi kemur
sem það aldrei nefnist neitt,
nudda, malda fremur.

51. Hinna spjátur er við of,
ekki mátann hirða,
sėr í státi siðalof
sinniskátar virða.

52. Búrapíkur berast á
beint við ríkisfrúna,
vaðmáls flík er virta-smá
vorðin slíkum núna.

53. Stífan teygja stiku-fald
stóran spegil viður,
klæðistreyjur kosta gjald,
klútar eigi miður.

54. Látúns taka lindum þær
lendaþak að skorða;
frunsur blaka földum nær,
flest er makað borða.

55. Sveipa stundum silkin þrjú,
svo við grundir blankar,
hálsinn, mundir, heilabú,
hvað sem undir vankar.

56. Raddargöngin reyra þétt,
róm og sönginn tæmir,
blóð í vöngum blánar slètt,
barka þröngin ræmir.

57. Hendur breiðast hálfermum,
hettir reiðar prúnka,
gotann skreyða glitsöðlum,
girnast veiða júnka.

58. Þegar brúðarbekkinn á
búníngsprúðar flakka,
til sambúðar taka þá
tötralúðann blakka.

59. Síðan geisa í bústangs hopp,
byrja reisu kæra,
trog, dall, eysil, ask nè kopp
ekki í hreysið færa.

60. Voðir, dýnur vantar fljóð,
vistir fínar líka,
skuldir hrína, skrækir jóð,
skortir lín um kríka.

61. Flest ákærir þörfin þá,
þykir ærið stúra,
bóndinn, mær og börnin á
bálk og gæru kúra.

62. Svona státið sumra fer,
sæld í gráti brynna;
vistaspjáturs vífum er
vert að láta minna.

63. Bús til safna betra er að
björg og hafna trássi;
en að drafna í óþrifnað,
eður kafna í stássi.

64. Þetta og annað því um líkt
(þó með sann að heyra)
lystur bann á lánið ríkt,
lesa kann eg fleira.

65. Margs kyns tjón í allri ætt,
undir krónu Dana,
Ísafróni háir hætt,
hófs er nón á rana.

66. Viður mestu vanbrúkun
vín, er berst að landi,
færir vestu fordjörfun,
fer sem pest eyðandi.

67. Mörgum grikkja mökum því
máta-skikk af hrekur
sú ofdrykkja, sem um bý
sveitum þrykkja tekur.

68. Veikir sinni, verkar tjón,
vizku hlynnir banni,
deyðir minni, deyfir sjón,
drekkir innra manni.

69. Margra láni móti slær,
mörgu ráni hlaðinn
margur dánumaðurinn fær
marga smán í staðinn.

70. Prestum hallar drykkju-dá,
dómarar falla nærri,
bændur lalla eptir á,
aðrir bralla smærri.

71. Önnur færist óskajurt
ísa kær að grundum,
margan ærir dúðadurt,
drepur nær á stundum.

72. Eins og beit í almenníng
usla reitum krefur,
tóbak heitir þetta þíng,
þúngar smeitir gefur.

73. Fýsn úr æði fær til þess
fúna sæðis margur,
brennir, snæðir, brýður hress
blautt sem fæði vargur.

74. Tóbaksmok ef þrýtur, þá
þeir með rokum flakka,
buddur sloka, baukinn, já,
buxnapokann hakka.

75. Lengi bið um litla stund,
lífsins frið af tekur,
hremmir kvið, en hrakar blund,
haminn riða skekur.

76. Vinnst þeim engin verka-ró,
víls á dengja kviður,
annars kengjast upp í hró,
allir hengjast niður.

77. Þótt hinn armi (það eg sver)
þiggi varma og fæði,
tóbaksjarmur í honum er
eins og harmakvæði.

78. Veitist ekki vilgjöfin
voluðum sekkja hreifi,
á hann blekkíng æðir stinn,
angur þekkja leifir.

79. Fer og tætir sölusokk,
síldum fæti sprangar,
eður í kæti keyrir brokk,
kaupin lætur ganga.

80. Þar til skauði skellur fár
skuldanauðir viður,
firrtur brauði, soltinn, sár
sýpur dauðans kviður.

81. Hafni lífið heljar smeit,
herðir kíf að biðja,
eptir á drífur út á sveit
ektavíf og niðja.

82. Sjálfur eigi vill í vist
verka þreyíng hafa:
„heilsa", segir, „mín er misst,
má eg þeygi grafa".

83. Síðan flýgur sveit í kríng,
sèr út lýgur bráðir:
þannig sýgur þurfalíng,
þar til hníga báðir.

84. Svoddan gægur múga manns
meinar hægum sessi,
er óvægur innan lands
orðinn sægur þessi.

85. Vinnubleyði, verkatál
vols í leiðu svalli,
skulda-neyðir, níðsla, prjál
nægtum beiðir halli.

86. Kargir steyta kvið um geim,
krifja, reita sjóði,
dreyra heitan drekka úr þeim;
dygðin sveitir blóði.

87. Öllu standi öfgar hèr,
allur vandi nærist,
öllu landi aptur fer,
allt í blandi hrærist.

88. Ríkir plægja, reita, flá,
rotnir æja, stúra,
hinir slægja, þreyta, þjá,
þessir prægja, lúra.

89. Ýmsir kúgast innbyrðis,
einnig þrúga vinum,
falsa, ljúga, mæla á mis,
merginn sjúga úr hinum.

90. Þrjóta læt eg þagnarmál,
þar um tæti' ei lengur,
hyggnir bæti Hárs í skál
hvað til mæti gengur.

## Marklýsíng á óþrifnum vinnudrósum.

1. Æ sómir ýngismeyjum
að venjast þrifnaði,
föt sín ei fargast láta
fremur en þörf til kemur;
bæta þau heldur bótum,
busta, þvo, hreinsa, dusta;
ef þá er flík til ofurs,
innlæsa kistu sinni.

2. Hreinlegan höfuð-búnað
hæfir þeim bezt að æfa,
krýnið [1] með kambi vænum
krúsa, því slæm er lúsin;
hálsberum hvergi golsast,
hrak er ef skyrtan flakir
margblettuð ofan að mitti;
mest fat ef svuntu brestur.

1) krýnið (krinis á latínu) hárið á höfði manns.

3. Held eg þeim háttu snildar
hirða vel matar byrgðir,
sinn kvið með hófi seðja,
safna til afgangs jafnvel,
þegar mat þiggja nógan
þar skömtun er svo varið,
síður en sæmir fljóðum
að sundra hann ofan í hunda.
4. En þó fjölskrúðug finnist
falda sól ei, nær sjaldan
goldið er gullhlaðs hildi
genkaup, sem hún forþènar;
það lítið þó sem áður
þiggur snót verka-dyggin,
sèr í hag fús má færa
frekast svo langt það tekur.
5. Eykur last ýngispíkum,
að þeirra kvennfatnaður
híngað hrekist og þangað
um hólf sem palla og gólfið,
ýmist hreinn eða grómur
af skarni svo nær drafnar:
slíkt aflar rètt óryktis
og ríður um bak á síðan.
6. Órækjur flestallt feygja,
fann eg þær áður þannig:

hrak-móranð skuplan hrúkir,
hanga við pilsið angar,
skór drafnar, sokkar seyrast,
sorp-rönd á hempu korpir,
allt í óþrifnað smeltist
ei dustað, bætt, nè þvegið.

7. Týna þær trafi og prjónum,
treflum, skóm; hneysan eflist,
mat sínum þegar þveita
þar og hèr vítt um skarir,
útvegnri fæðu fljótast
fargar opt þeirra karg-át,
aður en passinn eyðist
eru því kinna-berar.

8. Skaut einatt skakkt upp setja,
skokkar blökk vindilfokkan
rugg sem fleygi flaggi
fram og til sævargamma;
út undan strýið stendur,
strýtuna klútum hnýta
gáruðum grómt af sauri;
girnir þær ei þann fyrnist.

9. Búist þær borðatreyju,
borgar það skyrtu korgur,
feld undir messu-faldi
fljóð særir mörg óværan;

glæ-ný þó silkin glói,
göt hefir hvers dags trefill
ataður, illa brotinn
iðugt á barka-miðum.
10. Sig nenna sízt að lauga
sámleitar með ódámi,
rabbandi rífa í lubban,
ram-særa tíðum lærin;
klæst ei af tánum klístur,
krímóttar samanlímast;
stök er í lörfum stækja,
stendur ódaun af kvendum.
11. Eitt yfir annað vottast
órækslu-merkið drægsla,
þegar um vöðuls vigur
varla tèrugar bera
státsföt í kvía-stússið
og stauta þar undir nautin,
í rökkri með rauðum sokkum,
rètt skaut og pilsið netta.
12. Boppa þær beint í slappi,
bleytan af fótum hreytist,
níðbarið gjörvallt neðan
nú verður pilsið, trú' eg,
hosum úr falla flísir,
farfast þær upp við starfið.

makaðar kúamykju
misstu sinn lit á ristum.

13. Tæptist þá enn sem optar
innan við jarkann miðjan
orpinn skór af saumvörpum,
íleppur skarni sílist;
kafsteypt í kúaslefu,
kví-saur og mjölt er rýjan;
bískitnar heim svo hróa
hólk nauta- og sauða-mjólkur.

14. En sem það verk er unnið,
afskrýðast litlu síðar
tros-voðum tvinna-rósir,
á tvist og bast öllu kasta;
þar liggur hempu-hrerið,
hèr pils, en sokkar berast
út á hlað ofan í bleytu
og agast þar nokkra daga.

15. Hvað fer á eptir öðru:
af dækjum tröfin flækjast,
eitt fúnar, annað týnist,
óþveguir treflar sóast;
vita þær vart af klútum,
veitist þó döpur leitin;
trössugar fljótt við fussa
finnist þeim gjörð áminning.

16. En hvað þær fatar annað
í sinni hvers dags vinnu,
eða hver neyð ör níðir
niptir seims, þá þær giptast
úr vistarskipun skástri,
skal eg ei margt um tala;
eitt er víst: að þeim strittum
enginn er happa-fengur.

17. Geti þær naumast notið
nokkurs, er aflar þokka,
meðan sèr föt og fæði
finna með leigðri vinnu,
þá mun ei betur búið
barna-moðs undir varnað,
fyldar nær fjölga skuldir,
fólkslaun og bústangs-raunin.

18. Ræð eg því refla tróðu
ráð sitt hún betri áður,
fyr en með rækslu rýra
rúnka-tíð fram í skrúnkast;
illt er ef sèst þar soltin
sætan úng með horpúnginn,
rifin sem tóuræfill,
rotin og ber um totu.

19. Þyki nú þorna bríkum
þefur ónett' af stefi

hætt rokinn á sig hitta,
hreinast ráð gef eg seinast:
Óþrifnað öllum hafni
ágætar heimasætur,
hrindi móð, hlýði umvöndun;
hætti' eg svo bragarþætti.

---

## Um aðskiljanlegt vináttufar í heiminum.

1. Öll er frægð og þjóðlofs þægð,
þekkíng, hægð og röksemd fægð
kúguð, plægð, við klæki mægð,
kærleiks nægð ef frá er bægð.
2. Velgjörð hál og vè forsjál,
virðíng brjál, en gjöf illkál,
mildin stál og trygðin tál;
tættu mál við sankti Pál.
3. Engla (hann tèr) og alheims hèr
orð-gnótter þó vel kynner
og allt gæfer, sem eign þín ber,
aums í ker, það stoðar ei þèr.
4. Ef kærleiks-rót ei hirðir hót;
hárbeitt spjót er fordild ljót,
hyggur fljót að handar-bót,
en höggur fót um liðamót.

5. Margur ann við orðstír þann:
aldrei fann eg slíkan mann,
hýran brann en rausnin rann,
rotaðan mig gjörði hann.

6. Þá hamarinn slær við hlustir tvær,
hrósun grær um þig frábær,
öllum nær þú nefnist kær,
nýrað hlær, en eyrað klær.

7. Veizluker þá vökvað er,
virtin fer að ofra sèr,
óðum ber á „yður“ og „þèr“
„allsæler“ og „velkomner“.

8. Hjarnar brís, en hólið gýs;
heitið rís, því skál er vís,
hinn sèr kýs um bygðir býs
borinn prís af þeirri flís.

9. Gefur slètt um gjaldið lètt,
greiði sprett hans lofið þètt,
hyggst á frètt og hógvik nett
honum sett í þörfum rètt.

10. Heims um beð fær hverr mann tèð:
„Höfðings geð er þessum lèð,
eg samkveð og játa með
jafnvaxeð er dramblæteð“.

11. Elskan mjúk við orða-brúk
undir dúk ef liggur sjúk

og sýgur kjúk á kalda hnúk,
þá kvikt er búk í Heródis múk.

12. Þó er hèr ei meint af mèr
mildan sèr ei ræki hver,
hrósun ber og þökk óþver
þeim, hver er, sem vel gjörer.

13. Já, þó hinn sè hólgefinn
og hafi sinn þess tilganginn,
útlátin ef sýnir svinn,
sanngoldinn er hróður minn.

14. Hans geð fest er honum vest,
hólið mest er ágirnest,
firrtur sèst ef finnur brest
og fársýkest af Hamans pest.

15. Annars má hann eptir sjá
erfðin smá er himnum á,
hún miðaðist frá í mannlofs gá,
mörgum hjá er kaus að fá.

16. Öðrum bjó í þanka þró,
þeim er sló við elsku ró,
rífðin mjó, en reitti þó,
rentan frjó hann til þess dró.

17. Gaf því sokk en gein yfir rokk,
gylti brokk við faxalokk,
þekkti úr flokk þann næma nokk
níðings kokk í sinnu dokk.

18. Hýrleiks rit þó hans auglit
hafi, er glit og merglaus nyt,
refs hælbit hans ráð og vit,
ryður drit á gullna fit.
19. Ódæmin eg aukast finn,
í einn sekkinn ef troðast inn
elskan svinn og sèrplægnin
saurgetin við kjassmælin.
20. Það er sú art, er þrekar hart
þig óspart með tapi snart;
ekur vart frá eðlispart
eirið svart í gullið bjart.
21. Þig ei hneig í þann gin-smeyg,
þar frá beyg að happa-sveig,
æru-deig en ergju-seig
öll er veig í Nabals fleyg.
22. En heyr þú mèr, sem mildan þèr
mein-plæger í skiptum hèr!
hyggjan ber hans einföld er,
en þú sver og fals mæler.
23. Drottinn sá, er dæmir þá,
dauðanum blá er hyllast á,
lymsku þrá og lýð hans flá,
líka má þèr umbun tjá.
24. Hans ofmál og eigna tál,
sem ól þèr skál í græðgis ál,

þitt er bál og banakál,
bölvan hál og morð í sál.
25. Þetta blóð og brennu-flóð
beljar móði þínum sjóð,
upp þess hljóð í himininn óð,
heimtar glóð á Belíals jóð.
26. Svik og slægð er fúlust frægð
fjandans mægð og snauðust vægð,
við slef-þægð í vinskap fægð
veldur bægð á margs kyns hægð.
27. Eins er bann að elska þann
illfúsan, er vill og kann
veiða mann á vont, sem ann,
varkænan og breisklyndan.
28. Dáminn jók af hvíluhrók
hvískur, mók, sem ís og kók,
sið af klók, þann sess við ók,
sérhverr tók, það vottar bók.
29. Eitur-sáð er eitt vangáð:
illsku-ráð í vinsemd tjáð,
glepur dáð ef greitt er jáð,
gjöldin bráð fékk mörgum háð.
30. Seres' mas bjó Haman hras,
Herodías vann dóttur flas,
Kaífas þá lygðir las
leiddi ras á Gyðinga vas.

31. Dæmin flest það vitna vest
verri pest ei ummælest,
en hafa mest í hamíngju brest
hug sinn fest við soddan lest.
32. Eðlið flátt og illsku-brátt
ægði dátt í landi þrátt
flokkadrátt og hugmóðshátt,
hrygðarmátt og þjófasátt.
33. Mútubrak allmargan rak
meins við tak á þetta blak,
þá flærðin lak í fyrir og bak,
fylgimak sèr ól við kvak.
34. Velur sèr hverr vin epter
vit sem ber, en misjafn er
margur hver, því miður og ver,
mæðan þver á eptir fer.
35. Heiptrækinn og hótfindinn,
hólgefinn og sèrplæginn,
auðtalinn og ásteytinn
aldrei þinn sè vinurinn.
36. Hlutsaman og h´rorðan
hegðarann þèr fákunnan
vit með sann að varast, hann
váskeyttan því margur fann.
37. Treystu vart á trygða part,
tjáðu spart í leyndum margt

þeim, er snart við drykkju djarft
drepur hart á mælgis art.

38. Í þeim pytt er engum fritt,
utan kvitt hjá sumum hitt,
belgir mitt en bogar þitt,
bullar sitt að jöfnu litt.

39. Vesta kál í vina skál
við ölbrjál er túngan hál,
hárbeitt stál og heitast bál,
bremmir sál, en beiskir mál.

40. Soddan brigð ei sæmir trygð,
sú er stygð ei betri en lygð;
ræðublygð ef skeikar skygð,
skellir sigð á marga dygð.

41. Vertu ei snar í vogunar
vinskap þar að fleipra, hvar
þagnarfar ei þekkir par
þess hól bar síns trúnaðar.

42. Skálarhyl og skeink í vil
skjals um bil þá kveikir yl,
ei ef til er æru-skil,
ykkar spil um sinnu kyl.

43. Trygðin keypt er tíðum sneypt,
tuggin gleipt og hratin dreypt,
eptir leift var slúfrið sleipt
í slæminn deyft með aðskots heipt.

44. Manna geð er mjög vanséð,
marghæfið og líka með,
torfengið ótalbitið
trygðlyndið um jarðríkið.
45. Þeim er skár um geðið gár,
gylla brár við hylli fjár,
veizlur hár og vingott ár;
vakni tár, er þokkinn smár.
46. Þá er dræmt við aumum æmt,
ærukvæmt þó geð sė ræmt,
viðbjóðsnæmt því veskið tæmt
verður dæmt en gjöf ei sæmt.
47. Meðan geit er mergjar neyt,
margur veit á hennar leit;
sinn um reit ef rann ófeit,
rembin sveit að kiðu dreit.
48. Varla má hėr vini fá,
vel er stá í leyndum hjá;
hittu þá! en hverr mun sá
hyggja frá þėr, skuld er á.
49. Og er það ei ofskrifað,
í hagnað sė betalað
vinunum hvað þėr vel gafst að
veitt í stað, er þörf um bað.
50. Hitt æ skar eins hugarfar,
hugkvæmar ef ræktir bar

með virtapar, þeim við fussar,
vanþakkar og frá snefjar.

51. Edik sízt við oleum brýzt,
ógeð hýst mèr þannig lízt,
rètt og víst ei bogið býzt,
bugðan snýst ef að er þrýst.

52. Ástarhót þó renni af rót
reigíng mót, ei vinnur hót,
það er sem spjót við glamri grjót
og goppi nót á hörðum þjót.

53. Annar kær er fírum fjær,
fagurt klær ef allt við hlær,
brestur nær sem óður og ær,
einn mótblær ef við honum slær.

54. Reiknar ger á góma sèr
greiðvilder og athlot hver,
kann ske ber í bruggið ver
brigzlin þver, ef minnið lèr.

55. Vel marglátt er vingeð þrátt:
visið, dátt, hèr heilt, þar flátt,
þýtt, ókátt, samt þètt og brátt,
þúngt, örsátt, var-dult, uppskátt.

56. Elskan þó í kætikró
kalda ró með flestum bjó,
skin við hló ef skúr að dró,
skotti sló er burtu fló.

57. Margt eitt sinn eg mèr það finn
mislcikin er veröldin,
í dag minn á morgun þinn
mótfallinn er vinurinn.
58. Þeirra skjól er hæpt sem hjól,
hör, gabbtól og skýjaról,
geyst af kól, ef gæfusól
geisla fól, en húmið ól.
59. Sæll er hann, sem engum ann,
ef aldrei fann sèr neinn dyggan,
illt er bann að elska þann,
sem ekki kann að stunda mann.
60. Að hyggja bezt þeim hefir þèzt
hýrubrest í lyndi fest,
það er pest og mannraun mest,
mæðir flest í geði hrest.
61. Hugnun þá, er hinn vill fá,
hvernig má eg lengi tjá,
þökkin smá ef þvert um lá,
það er að slá í vindinn blá.
62. Dygðahrein ef alúð ein
af mèr skein við mær eður svein,
hvað er mein eg högg í stein
hörðum flein, ef ei sú grein?
63. Vorkun er þó vinurinn hver
veli sèr, ef dygðir ber,

ást af þèr, því hana hèr
hæst girner, þann æzta lèr.

64. Lítist þarft að lempa snart
lyndið hart við sinn mótpart,
þá er skart að una af art
ærudjarft þeim lið vann margt.

65. Brunninn þann er beztur rann
beiskir hann, er ekki kann
eptir sann, ef sæmdum ann,
sèr hollan að virða mann.

66. Mál er skylt við mær og pilt,
mitt ef hyllt þèr sinnið vilt,
aldrei kvillt, en elskufyllt,
æru-milt og jafnan stillt.

67. Á þig kveð eg einlægt geð,
orðin með í kærleik tèð,
viðmóteð óviðundeð,
vindutrèð er sjaldgróeð.

68. Kæti hrums að kyssa þumbs
kúlu-rumbs, en hann er drumbs,
það er gums og þefur slumps,
þræðíng mumps hann dregur til klumps.

69. Skærar ól ef skuggan fól
skinið sól um veðra hjól,
sjónarhól ef hýra af kól,
hætt er skjól um sinnu ból.

70. Ógeðs reyk þú af þèr feyk,
öfugleik ei til mín kveik,
hýran keik sè hvergi veik,
hljóð nè bleik við æru kreik.
71. Eins af bið eg apasnið,
óp og nið, er skil þig við,
óra-rið og ofglensið,
ílumpið er dansæðið.
72. Viðmótsbrigð þó vinni stygð,
verri er skygð um rænubygð
Jóabs dygð og Dalílu trygð,
Dínu blygð og Ammons hrygð.
73. Berðu frá mèr böku þá,
byrgðu, já, og snertu ei á,
svo falli í dá sú dumba gljá
dauða blá og nikur-grá.
74. Ráði eg þèr hvað rètt sæmer,
reynstu mèr ei sinnu-þver;
margur ber það vinur ver
í vitum hèr en kaun á sèr.
75. Hvar mèr rís eins hrósun vís,
hægan prís mèr af þèr kýs;
lygð ef gýs af þykkju þýs,
þryktu flís, en satt auglýs.
76. Hæfðu nett á höfuðið rètt,
hólið þètt er kraptalètt

hjá þeim prett sèr hefir sett;
hreifðu glett, sè til mín slett.
77. Þèr ef bar til blygðunar
bernskupar sem hulið var,
vertu spar um sögn og svar
sízt, ef þar mig umvarðar.
78. Vili slá í vanda þrá,
en vitir hjá mèr styrk að fá,
kynntu frá í kyrðum þá
klípu smá, eg mun þess gá.
79. Hvað sem ber til baga þèr,
bót af mèr ef þess girner,
viljann sèr, ef vita fer
vanburðer því neita hèr.
80. Láttu ei ást við lítið þjást
en lempið skást og vorkun tjást,
þó ef sást mitt þel ótlást
þúnga hrjást, svo kvöð þín brást.
81. Eður list á lið grennist
leið og bist um tíma stytz,
þitt ótvist ei þel mæðist,
það gleymist er áfættist.
82. Sú illvild er sumum skyld
sóma kvilld og elsku hryld,
þeim bráðgild sè þörf ei fylld,
þokka snild er öll ramtrylld.

83. Geð einlægt þá upp er ægt
óliðdrægt um tíð skal vægt;
ei er tækt að út sè hrækt
allri rækt við par misþægt.
84. Lýti hná ef leizt mèr á,
les einn frá, en bjóð viðsjá,
hvar og þá er henta má
hreint upp tjá, en geym ei þrá.
85. Meinhætt pör ef merkir snör
mèr óspör af nokkrum gjör,
trygg og vör þú telir svör,
trútt um kjör svo bindi hvör.
86. Bresti vín, eg bið auðsýn
bjargir mín við ráðin fín,
mèr ef skín af munum þín,
mein svo dvín, ei eptir grín.
87. Þrengi hrygð að þankabygð,
þín sè dygð ei frá mèr stygð,
hvetur brigð á harma sigð
hugul trygð í móti skygð.
88. Dauðans á nær dimman blá
dunar kná, við skiljumst frá,
meinvik tjá ei mínum þá,
mig, þar lá, er syrgja ná.
89. Halli seim við sútar eim,
sízt þú gleym að hugnast þeim,

æ þess geym, að okkur tveim
ást í heim var fylgistreym.

90. Sama mið og mæling við,
mèr sem bið af þèr unnið
vilkjörið í virta sið,
vinfengið skal mitt haldið.

91. Til sè gætt um traust og hætt
í trygð og sætt hvað fyrr var rætt.
Efnið tætt svo af skal þrætt,
yndið mætt sè vinum kætt.

92. Hyggin þjóð minn þiggi óð
þýðu-góð um blíðu slóð;
mærð ófróð í værðir vóð,
vendast móð á enda ljóð.

---

## Titlatog.

Titlum tíðir anna;
telja má hið sanna,
klènar virtir kanna
kveðjur fornaldanna:
Virðulegum herra hèt
hátitill kónganna;
frómum herra lýður lèt
lesinn biskupanna;

heiðurlegum hvervetna
heilsan mundi prófasta;
sæmilegum samtlega
sóknarhirðaranna;
góðum bónda gafst kveðja;
gildum klausturhaldara;
ærusömum öfríngja
undirþíngstólanna.
Nú er segg og svanna
sett um veldi fanna
titla manna
til spanna trónanna,
margfalt eðla
makar seðla
miðlúngs-höfðíngjanna,
skauzt veleðla á skjanna
skildíngs mar-kettanna.

---

## Lof letinnar.

Leti er landsins sæla,
lög sèr kann að mæla,
hvað sem þenkja og þvæla
þeir sig við henni skæla;

merkilega mök framgár,
myr ei tær nè hæla,
eins og fillinn stöðug stár,
stilli gjörn að kræla;
hvergi brýtur hnakka sinn,
handa geymir vareygðin,
barmurinn og bakhlutinn
bezt í kerru pæla;
heldur sig við hjúkólfinn,
höfðíngjanna svæfilinn,
málfrækin um matlaunin
magann vill ei tæla;
hvar sem hverir þræla
hún má rósir bæla
og sèr dæla
nyt næla,
sorgar eigi
munn þó megi
móthjalendur stæla;
voldug vörn harmkvæla,
væri hún djöflafæla.

---

## Aldarsumbl.

Senn er öldin svella
sumbli farin að hella

Abels, Babels, ella
um það spáir gella,
Júdæ trygð og Heródis hrygð
hennar kostum vella,
Tamars blygð og Dalílu dygð
dausunum saman skella;
frægur Akans frómleiki,
Faraónis guðrækni,
Hamans kyrð og hæglæti
hvert við annað smella;
Zedekiæ sannleiks nægð,
Sáls kærleiki, Dóegs vægð,
Kams einlægni, Chore þægð
kynnis-mót ei fella.
Hvernig má þig hrella,
hirðir auðs og pella!
Mathans kvella hún mella?
forglansandi, frídansandi
finnur þú til spella?
Hyggðu samt, hin hvella
hennar styttist rella.

---

## Illmálug túnga.

Málug túnga mæðir,
margan vosi bræðir,

þjáir, þyrnum klæðir,
þegar hún spýr og æðir;
hrekkjum ann, en hrindir sann,
hryður skömm og læðir,
opt á þann, er ei til vann,
illu marki slæðir;
sjaldan tefur svörin grá,
sakir vefur til og frá,
keskin hefir kjapt upp á,
klípur, jagar, hæðir;
stundum gefur stirða spá,
stílinn grefur dýpri þá,
hvinum skefur hvoptinn blá,
hrakóskunum flæðir,
glóðir vítis glæðir,
grimmar yrjur skæðir,
flest afgæðir, frið hræðir.
Svoddan munnur þokka þunnur
þrif á jörð ei græðir,
hrós né hylli þræðir,
heilög Skript það ræðir.

---

## Viðurstygð ofdrykkjunnar.

1. Brennivín brjálar minni,
brennivín hvessir tennur,

brennivín brigzlum annar,
brennivín losta kennir,
brennivín barkar munninn,
brennivín heilsu grennir,
brennivín bruggar flönnum
brennandi kvalaspennu.

2. Brennivíns drykkja bönnuð
brýtur grið, heiptum flýtir,
skaðar vit, skerðir heiður,
skúfar dygð, hræsni ljúfust,
ergir lán, eignum fargar,
ærir geð, losta nærir,
deyðir sál, Djöfulinn gleður,
Drottins réttindi spottar.

3. Augu manns öll aflagar,
eyrnanna deyfist heyrnin,
málið í munni þvælir,
meinar styrkleika beinum,
hokinn líkama hrekur
hnjótandi byltur ljótar;
útbýjar allt ágæti
ölvaðra. Fari hún bölvuð.

## Viðurstygð drambseminnar.

1. Djöfulsins dökkur svæfill
drambsemin gjörn á rambið
reynist að rèttu kyni,
rækjandi vegu klækja;
dýrð Guðs dárlega skerðir,
dygð eyðir, veldur stygðum,
hatar mest lítillæti,
lán og atgjörfi smánar.

2. Vizku með vèlum beiskir,
velgjörð sjálfhælni fèlgar,
röksemd í reiði vekur,
riptir sæmd allri tiptun,
valdi með harðúð heldur,
hefnist á undirgefnum,
illfús ef orði hallar,
ýskrar í móð helvízkum.

3. Treður Guðs tíu boðorð,
tapar ei hörðu skapi
viður vandlæting prúða,
vill að sín athöfn gyllist;
fátækan fyrirlítur,
feitir sig á hans sveita,
virðir þó einkis verðan,
velur hans kveðju stèlin.

4. Limanna lag afskræmir:
lignandi vítt um skygnast
blinduð nær, öfug, undin,
augun í hvarma baugum;
hnakkinn úr skorðum skekkist,
skinnið á brúnum tvinnast,
brestur í nasa bustum,
barkinn úr hófi snarkar.

5. Hattinum hallar þóttinn,
hendur að rifjum bendast,
gapandi hnappahjúpur
hrjóstugu þènar brjósti,
krúsað hár kollinn glæsir,
kálfarnir óðum skjálfa,
brattur með bola-fettum
búkurinn vesall hrúkir.

6. Bílæti fyrna fúlast
fjandans þar hygg eg standa,
hvar sem dreissugur dári
drekajóðs-haminn skekur;
fergist þar böls án bjargar
bannið hvert ofan á annað;
Andskotinn allri vonzku
elgir upp hrokabelginn.

## Ferskeytur um sama.

1. Þótt að gæfu menguð mót
    mèr í saurinn þrykki,
get eg aldrei heiðrað hót
    hofferðuga gikki.

2. Þegar höfðíngshatturinn
    hallast þeim í vanga,
gruns er mèr í sama sinn,
    svo muni dygðin hanga.

3. Hvort mun þeirra hyggjulönd
    herða bænarandinn,
þá þeir velja vinstri hönd
    verðugir eins og fjandinn?

4. Eður má ske færa fram
    fíngur einn á lopti;
gengur síðan gys og blam
    gagurt úr þeirra hvopti.

5. Æ, hvað skoplegt er að sjá
    augnaráðið drótta:
hvarmasteinninn hverfur þá
    hjartað eyfir þótta.

6. Ofmetnaður augum snýr
    út í sjónarvikin,
hrukkar enni, hóstið knýr
    hvalablástur mikinn.

7. Setja pínkil sumir á,
   sveigja fægðan kjamma,
ræskja við, en teygja tá,
   tölta um gólf og slamma.
8. Horskir reigja hnakkann upp,
   hettuskömmin brúsir,
önnur skagar hönd í hupp,
   hin í barmi dúsir.
9. Ekki stundum æmta þeir
   auméngjanna kveðju,
hroka-röddin hvellur meir
   heyrnar innst um beðju.
10. Titra kálfum til og frá,
   takk þeir einatt segja;
fátækur sig fullvel má
   fyrir þessum hneigja.
11. Upp á dönsku játa: ja!
   jóðla við og marra;
soddan gikkir, svei og bja!
   sig ur hófi narra.

---

## Viðurstygð ágirndarinnar.

1. Undirrót allra synda
ágirndin vörgug tjáist,

dauðamein dygðaræðis,
Djöfuls jóð ekki göfugt;
greipileg maura gíba
glóðheitast drekkur blóðið,
hundgráðug hvar sem stendur
húngraðan skekur púnginn.
2. Alla mannæru tryllir,
óveilum kærleik sóar;
mútugjörn magnar þrætur,
meinsvari tíðum reynist;
forvitnis fremur störfin,
fim er í augnaskymi;
öfundarháttum hreifir,
hnittileg þjófastyttan.
3. Ekkjum í þældóm þrykkir.
þvíngar föðurleysíngja,
voluðum vægðir hylur,
vinnudygð engri sinnir,
þjónustu lakar launum,
lætur ei skyldu mætast,
gefins vill hvað eitt hafa,
hirðir sèr kaups þrívirðið.
4. Rænir Guð rètti sínum,
rembilát þar við strembist
hún geti hvað á dynur
helgidagsbrotin fèlgað,

sèr til ábata-eyris
orð Guðs og kirkjur forðast,
leyfir ei heldur hafi
hjúin sín mök af lúa.

5. Sig einatt sjálfa nagar,
sorg vefur hyggjutorgir;
firðir fèpúkann værðum,
fárlega styttir árin,
sveipuðu synda hjúpi
sálgar hans lífi í gálga;
hábölvuð síðan hneigist
helvítis ofan í elfar.

---

Fègirninnar fúla pest,
frið ef kjósa vildu,
drykkjuskap og drambið vest
drengir hata skyldu.

---

1. Allt fer hallt hèr,
hótast mótkast
í heim, því þeim
þverr mennt verr ent:
dagsljós, hagshrós
hrekst fjær; ekst nær
blind, svæfð, synd kæfð
sál hrelld báleld.

2. Ó neyð, þó þreyð
þú sèrt, nú vert
grimd víst gleymd sízt,
gjöld má öld fá,
nær ský skær í
skal tign alskygn
ráðast, hrjáð hast
hægð býst, vægð snýst.

3. Ó Guð, æ styð
önd mín' hönd þín!
holl fær heill mèr
hæst tjáð æðst náð;
sýn vægð, laun lögð
lát fjær, mátbær
ógun og raun
í tè frí sè.

---

Dregur að dóm forlaga,
dreymir mig út um heima:
Losna græn lauf og visna,
ljós blána, fölna rósir,
ber skurna, brunnar þorna,
blæðir kul jarðar æða,
haustar að hlýjum gusti,
hrýtur skúr upp úr dúrum.

1. Hallar heimi öllum,
hallar trú að falli,
hallar auð og hylli,
hallar orku snjallri,
hallar forspá hollri,
hallar dygða mjalla,
hallar laganna heillum,
hallar manndáð allri.

2. Dómur Drottins kemur,
dóma-teiknin hljóma,
dóms að dynur tíminn,
dóm fær lasta-grómið,
dómarinn þegar dæmir
dóm af skýjum rómar,
dómur drekkir heimi,
í dóminum gleðjast frómir.

3. Vakið, bræður! vökum,
vaki úngfrúr spakar;
vakið, tíminn veikist,
vaki bænarkvakið;
vakið, værðin svíkur,
vaki minníng saka;
vakið, vist guðsríkis
vakandi svo takið!

## Bergmál.

Hverju er líkast lífið manns í heimi?
eimi.
Hvað er það sem hverr girnist snauður?
auður.
Hvað má gagna harmþrúngnu lyndi?
yndi.
Hvað er heimsins fordild og frami?
ami.
Hvernig gengur auraþegnum ágirnd að fylla?
illa.
Hvert mun nauðum náttúrunnar venda?
að enda.

---

## Um óstöðugleika þessa lífs og þess armæðu frelsi.

Viðkvæði: Svo linna tregar (sem tíðir;
mannsins æfi hèr í heim
hnígur fast að merkjum þeim),
allir dagar eiga kvöld um síðir.

1. Leit eg standa lilju netta
líka rós hjá henni spretta,
rúðu, stör og reyrinn lètta
renna upp annars vegar.
Svo linna tregar.

Skein þá prýðin rósar rètta
reyrstönginni fegurr öld.
Allir dagar eiga kvöld.
Loks að jöfnu það og þetta
þrykktu vetrar hríðir.
Allir dagar eiga kvöld um síðir.

2. Sú rann engin sól í heiði,
sæluskin ei eptir leiði,
rakanótt af unnareiði
eimir kælu þegar. S. l. t.
Æsku- jafnt og elliskeiði
yfir dynja sömu gjöld. A. d. e. k.
Forlaganna roskin reiði
rètt og bogið niðir. A. d. e. k. u. s.

3. Ræðuspakur sín forsjálum
Sýrak þannig hegðar málum:
Enginn sæll í heimi hálum
heiti, fyrr en þegar — s. l. t. —
að Drottins miskun dæmir sálum
dægur lokin harmaköld. A. d. e. k.
Heita má þar skipti skálum,
skúrir sól afhýðir. A. d. e. k. u. s.

4. Eins og þreyttum hvíldin hagar,
huggun þeim er sorgin nagar,
svölun mæddum lindin lagar,
lifnar kæti þegar — s. l. t. —

hrakið fley að höfnum slagar,
hvar ei stynur aldan köld. A. d. e. k.
Gleyma svo því gleðinni bagar
Guðs útvaldir lýðir. A. d. e. k. u. s.

5. Þeir sem hèr á eymdar árum
einatt sáðu niður í tárum,
skulu dýrðar kransi klárum
krýndir fagna, þegar — s. l. t. —
bindini, kvitt af syndasárum,
sín útgengin framber öld. A. d. e. k.
Skip ei lengur skekst á bárum,
skína fegri tíðir. A. d. e. k. u. s.

6. Sem af ökrum sveimi ljómi,
söngva mökum bregði hljómi,
veifi röku vatnahjómi
vonum skyndilegar. S. l. t.
Eyðist sökull æfidrómi
eins og sprökuð húsa tjöld. A. d. e. k.
Lúðum vök að lausnardómi
liðnar boða tíðir. A. d, e. k. u. s.

7. Þar til hlakkar hverju sinni
hjartað mitt í veröldinni,
að eg hulinn fèsjóð finni
á friðarins akri þegar, lífs l. t.

Sætt mun skína sálu minni
sólar fyrirheitin öld, þá a. d. e. k.
Hold í jarðarhvílu sinni
harmar ei nè kvíðir. A. d. e. k. u. s.

8. Nær mig ömun synda sveitir,
samvizkunnar dómur þreytir,
heimur stygð og hneyxlan veitir,
hugsa eg annars vegar: senn l. t.
Hverju, sem minn huga reitir,
hvet eg mót þann vonarskjöld: a. d. e. k.
Guð í fögnuð grát umbreytir,
gefur sælli tíðir. A. d. e. k. u. s.

9. Sjúkdóms ef mig særir pína,
söknuður eptir vini mína,
eður gipta fjárins fína
fallin utan vegar, — s. l. t. —
ber eg von í brjósti hlýna,
bætast muni þau vanhöld. A. d. e. k.
Rèttist bogin lukkulína
loksins þegar, stríðir a. d. e. k. u. s.

10. Engin skal því andarmæða,
engin þörfnun heimsins gæða,
enginn kraptur hug minn hræða:
holds ei dvíni þegar
tíðir sem tregar.
Drottins Jesú dreyrinn æða

deyfði svo mín glæpavöld,
að þeir dagar eiga kvöld;
en í staðinn yfirblæða
allar heillatíðir,
allir dagar eilíflega blíðir.

---

## Fjallanöfn úr heilagri Ritníngu.

Hèr skal fjallaheiti þjóð
herma, þau er Ritníng tèr:
Ararat bar eptir flóð
örkina með sínum her.
Þaut af Sína þrumuhljóð,
þaðan gefið lögmál er.
Knást af Ebal kneifðu hnjóð
kennimanna bölvanir.
Bauðst af Grizim blessan góð
báðum, amen sagði hver.
Upp á Hór hann Aron tróð,
afklæddan þar lesum vèr.
Bjó á Seir með börn og fljóð
bróðir Jakobs hylliþver.
Sjö á Pæor Zipors jóð
sjón-ölturu bygði ver.
Tjöld á Safer reisu-rjóð
reistu fylkin erfða-ger.

Bala nær með benja skóð
  bjuggu Júða kynþættir.
Efraim ei bar viðbjóð,
  bezta kyn þá fold yrkir.
Salmon, Hebron, enn í óð,
  Efron, Heres, Skriptin lèr.
Mitt af Písga mót Asdóð
  Móses hvíldarlandið sèr.
Hann á Nebó heljar slóð
  hitti senn og gekk yfir.
Heit af Zíon hrinda móð,
  hæð þá Davíðs slot gyllir.
Flaut af Hermon hins á lóð
  hlý náttdögg og frjófsemdir.
Mesta borg á Moría stóð,
  musterið og heilög ker.
Hár Líbanus, fregn er fróð,
  frægan sedrusvið geymir.
Hraut á Karmel himinglóð,
  hremmdi tvenna fimtigir.
Fjöll Gilbóa víg um vóð,
  versti dauði Sál þar sker.
Fleytti Tabor fögrum sjóð,
  forklárunar prísinn ber.
Á Golgata út rann blóð,
  allan heim er friðþægir.

Oliveti heiðri hlóð
Herrans pín og uppfarir.
Þegnum fjalla Þulin ljóð
Þannig falla skulu hèr.

---

## Tíu plágur Egiptalands.

Egiptanna uppteiknast
átta reiðislög og tvenn:
Blávötn öll í blóð snúast,
beisk-ygldist hverr lækurinn.
Illar pöddur áÞrengjast
allan lýð og konúnginn.
Moldarlúsum mor-kveikjast
menn og dýr við aftökin.
Svartir ormar samÞyrpast,
svelgja og víða matvælin.
Drepsótt æðir dálegast,
deyðir hjarða frumburðinn.
Eldíngar með hagli hast
helslá bæði fè og menn.
Brunakaunin holdið hvasst
hrífa nær sem glóð ausin.
Engisprettur fanga fast
flesta landsins ávöxtinn.

Himinljósin heiðmyrkvast,
hvergi sást um dægur þrenn.
Frumgetníngar foreyðast,
fannst ei nokkurr ódrepinn.
Loksins Rauða-rán að brast,
rauk þar allt í helköfin.

---

## Maríutal.

María systir Móisis hin fríða
mjög vel kunni að spá.
María Drottins móðir allra lýða
mestan heiður þág.
Maríu svipti Magdalenu kvíða
mildin Jesú há.
María systir Mörtu smurníng þýða
mundi Kristó fá.
María kvinna Kleófæ nam bíða
krossi Drottins hjá.
María Jakobs móðir þar samtíða
mædd hans útför sá.
María Jóhanns móðir gesti blíða
meðtók ærukná.
Maríu (Hebers mál) er beisk að þýða,
mörg það nafnið á.

---

## Um Margrètu mey píslarvott.

Margrèt bar hinn sannhelga sóma,
Sýrlands var hún gyllini-plóma,
trúarsvar við týrannann gróma
traust upp skar í píslanna dróma;
blóðfossar um búk unnar ljóma
boguðu þar við húðstroku dóma,
heilagrar svo hnè fyrir skjóma
hold meyjar í fegursta blóma.

---

## Sól.

Sólaldöðli sæl í frá
setur heimstímana.
Sól uppljómar himininn há,
hrekur landskuggana.
Sól alveldi verkar á,
vermir lífsandana.
Sól allt kætir, kremur snjá,
kælir jarðbrunnana.
Sól afvendir vetrarþrá,
vekur blundfuglana
Sól vel þurka sèrhvað má,
sjúka nærir grana.
Sól öll fegrar lönd og lá,
lund og sáðakranna.

Sól rauðgula, græna og blá
gjörir regnbogana.
Sól Jósúu sinnti þá
hann sigraði heiðíngjana.
Sól gaf teikn Ezechia,
sýndi frestað bana.
Sól afkól er Kristum sá
kvelja Salemítana.
Sól rèttlætis þekkti þjá
þann, sem gjörði hana.
Sólarbörnin fegurð fá,
en fæsta veikleikana.
Sól í draumi sèn vill tjá
sál hólpins andvana.

---

## Aldaheiti.

Sólaröld, túnglöld, gömluöld gala,
gull-, eir-, silfur-, járn-öld, vala,
brenniöld þeir er hóft um hjala;
haugaöld fann ei dýrð uppsala;
skeggjöld átti skeið langdvala;
skálmöld ýfði margan kala,
vindöld þann og vargöld ala.
Veröld ekur senn á hala.

---

## Stjarnaheiti norræn.

Norræn stjarnanöfn skal tjá
norður- og suðurhimnum á:
Tý, Þór, Óðin telja má,
Tarfsins Auga hlær,
Hèrinn, Kýrin, Hindlan smá,
Hrúturinn, Jórinn, Pílan blá,
Úlfurinn, Hrafninn, Örnin há
Asnafolum kær,
Sólfylgjan og Svanurinn þá,
Suðurkórónan axi hjá,
minni Birnu og meiri sá
Maríurokk ei fjær,
Skorpíonshjarta Skjólan frá,
skír Hundsloppa, Ristin kná,
Hafskip, Jata, Hvalurinn gá
Hnísu þykir nær,
Leonshjarta lýðir sjá
litlu og stóru Geit ei ná,
Höggormsberinn herðir stjá,
Hundastjarna er skær,
Kerrumanninn þrek ei þjá,
Þríhyrníngi fyrir brá,
við Altari verður stjá
Vatnsgýgurinn tær,

Haustyrkjuna höldar þrá,
Hindarkálfur rann að lá,
Fjóskonurnar fylla spá,
fram Sjöstirnið rær,
hver Örvendils talin tá,
tigni þann er æðstum ljá.
Stór er dýrð um stundakrá;
stakan vikið fær.

## Ár hvað þýðir.

Ár mánuðir eru tólf að þýða,
ár er morgundags-birtíngin fríða,
ár er kölluð árferðisins blíða,
ár er vatna renniflóðið stríða,
ár er stafur einn í rúnum lýða,
ar er sólargeisla-morið tíða,
ár er vængur ögurs-hallar skíða,
ár er blængur Hvergemlisins víða.

## Fuglakvök.

Söngvakyn um heims hríng
hendir öldum víðkennd
fuglafræði-skrá,

mörg í alda blisborg
bera þau nöfn, en sum hver
firð eg heiti frá:
Hlakkar örnin hamdökk,
hrafnar krúnka við tafn,
sama er kráku kjá,
laglega piplar páfugl,
praktugt gúlpar óspakt
gammsins raddargjá,
sýngur hátt um silvang
svanur duna með glan,
skaðinn skvaldra má,
nöldrar æður nefgild,
náttuglan á sinn hátt
bullar blökk að sjá,
brúsi gólar með mas,
músarbróðir leikfús
gnístir gómaskjá,
stynur dúfan hughrein,
hani kurrar með stjan,
blöktir hænan smá,
lóan biblar lundgæf,
löngum skella málsöng
eikardúfan á,
rissan kvakar hljómhress,
hvar er glukka máfar,

kría skríar hná,
selníngur við sæból
sýngrar, ertlutitlíng
og trönu tísta gá,
rítir skrýkja rýrleit,
rjúpan karrar hugdjúp,
hvína gaukar hjá,
vellir spói vesall,
vælir kjói mardæll,
ýlir þeista þá,
hriglir andar hver fugl,
hriktir storkur vel dikt,
marrar gæsin grá.
Allir þeir með ýms gjöll
akta hrósun Guðs, makt
hans og heiður tjá.
Föðurs er þó forboð
fugla að skynja kvakrugl,
eður af því spá.
Heiðin mennt upp hóf það,
hug við söng og misflug
þeirra gjörði þjá.
Skynsemin er skaðvæn,
skoði hún yfir tilboð;
sankti Páll það sá.

## Dýramál.

Dýramálin deild hèr
　　draga ræðst eg í brag,
　　　　þau er þekki skráð:
Grenjar ofsa grimmt ljón,
　　grátt ílits og mjög hátt
　　　　öskrar eptir bráð.
Fánalega fíll hrýn,
　　ferfætlínga sú er
　　　　mesta mynd á láð.
Orga tigrisdýr, dverg-
　　dynurmál af þeim hvin,
　　　　æg og óðfús tjáð.
Paurans yfrug panþer
　　pardýlótta kaurar,
　　　　flest í Meden fráð.
Bessi murrar blæ-viss,
　　bjó honum vetrar svefnró
　　　　mergjar þrek ómáð.
Hneggjar títt með hamrögg
　　hestur, kjörinn reið bezt,
　　　　ör í orkudáð.
Slysinn rymur vanvís
　　vinnutreyskur asninn,
　　　　er hans eyrna gáð.

Kallar refur daun-dæll.
    Drynur beljar naut-kyn,
        harla rænuhrjáð.
Sauðkind jarmar gagn-góð.
    Geitfé kumra þjóð veit,
        mörvað, mjólkurfjáð.
Vælir úlfa gin gól.
    Geltir hundur sífelt,
        urrar, geyr í gráð.
Katta mjálmar kyn leitt.
    Köllum rýta svín öll.
        Mjamtir músin smáð.
Hún á mold er minnst ein,
    mesta dýr þó hræðist
        þetta sultarsáð.
Hjæna (mér heyrn dró)
    hjalað geti manns tal
        og þeim helju háð.
Þenna flokk og hóp hinn
    hvervetna, sem fold ber,
        nærir Drottins náð,
sinni skepnu og ann,
    er hans vilja sérhver
        jafnan hlýðin jáð.
Mjalla-hrein því minnst vill
    meinyrt, hötuð sé nein,
        eður án þarfa þjáð.

Nýrnaspá af fjárfórn
fögur banna Guðs lög;
hún var ragna ráð.

Skeiddar einstuðaðar fjórtán sinnum fjórar hendingar í Orðskviðum.

Meldrar vildi eg Menju Gná
mærð í orða kviðum tjá,
hèr við dirfist heimskan blá
hátt ei settan fyrr að kljá,
sigur og baga þorið þá,
þögn ei gagnar mælsku hná,
slóða-síður sletta má
slík yfir leikinn; þar er nú frá:
Hagar mjög við selum sjá,
svo ber tóa skottið grá,
þar sem fyrir falsið lá
fótinn steytir ör van-gá;
hirtu spart við hrútinn kljá,
hnífil af þèr vindur sá;
stökkull gikkur fór í flá,
fèll ei ull af geitar-há;
verð eg mærð á víð að slá,
veltur allt í krabba stjá,
hast um brýzt á hæl og tá
haukur Vakurs flugi að ná,
margt vill tirtið stínga strá,

strauma geymir augna-frjá,
við ógreiða bögu bjá
beim er amastreitan hlá,
meyjum þó af minnis krá
mala vil eg báttu þrjá,
þeim í sama þýtur skjá,
þægt er feigt við tafl að rjá,
vitur geta spakt er spá
spott af kættum hnè-sig brá,
svaði reið í sína gjá,
sig helnagar aura þrá,
skygða dygð ei skyldi þjá,
skeinu klèna nè for-smá,
trítlar Atli títt á ská,
trúi eg meyjar neitun já,
vin í raun er vest að hnjá,
vaka dýkjur undir snjá,
opt er heiptum yfir kná
úlfa bölvuð híðin gljá,
laust af neista log um rá,
litar teitir nefjum kjá,
flykki rakkar henda hrá,
hætt er katta þerru-gnjá,
augun fögru eptir krjá,
auð ei laðar ferða-sná,
mátt er ljótt á hlera hvá

og hanga drúnginn sèr í knjá,
þurðar orð, en stafir stá,
styrk vann forkum ellin hrjá,
veð í nauðum vinir ljá,
völt er stoltum trygðin hjá,
blendið sprund er böl að fá,
brend er mund við eldinn sljá;
hendíng fundin upp á á
enda bundin falli í dá.

---

## Skegglof eður kvennakvöl.

Skeggið manninn skreytir,
skeggið vangann feitir,
skeggið skýlíng veitir,
skeggið engan þreytir;
    skeggið forðum skatnar í
skeggjöld báru teitir,
    skegg öldúngum skartar því,
skeggið ríkar sveitir;
    skeggið Herrann skrautlegt bar,
    skeggjaður Aron prestur var,
    skegg ei Samson skerti þar,
skeggi Samúel fleytir;
    skeggsins æra skirpti hnjóð,
    skeggheitíngar æfði þjóð,
    skegglaus Njáll í skympi stóð,

skeggs eru kostir neytir;
skegginu bið eg þú skeytir,
skeggjuðum sízt að hreitir,
skegg ei reitir,
skeggs leitir,
skegg ef dára
skegg þitt gára,
skeggbroddana þeytir;
skegginu skást er beitir,
Skeggi þú sem heitir.

---

## Svuntulof eður kvennavöl.

Svuntan svönnum þægir,
svuntan mittið fægir,
svuntan suma hlæir,
svuntan mörgum ægir,
felld, útsaumuð, ferðasmá,
fóðruð vel, sem nægir,
gul, rauð, ljós, dökk, græn og blá,
gjörð af ýmsu tægi:
flögil, makkey, fluss, dammask,
flúnel, silki, stoff, atlask,
kersa, trip, sars, klæði og rask
kvennfat þetta frægir;

laufgaðir, steyptir, loptgrafnir
ljóma knappar forgylltir,
úr silfri og messíng myndaðir,
sem meistarar gjörðu hægir;
svuntan marga mæir;
í mörgu svuntan plægir;
koleld glæir,
kul' bægir,
á henni kefla tröf og trefla
tróður veiga sæir;
ferðar fýsn ei lægir,
faldi' í skúrum vægir.

---

## Grettis afrek.

Grettir frægðum-fjáði
flest örlögin háði
geirs í hörðu gráði,
grimmar vættir þjáði:
braut upp haug og bar út fè
beint á Norvegs láði,
illan draug þar yfirstè
og af honum saxi náði;
Þóri, Ögmund, Snækoll sneið,
sneypti, rændi þó um leið,
tíu deyð með sára seið
serkjum vann í bráði;

djöfulæfan drauginn Glám
drap, er gjörði bygða-nám;
Gnípu og Sám í gljúfrum blám
við Gýgjafoss afmáði;
híðhjörn helju váði;
húð af Gísla táði,
ramb hans hrjáði,
raup áði;
átta maki
súgs í svaki,
sunds-atgjörfið knáði;
spjallhagur forspáði
spektar fylltur ráði.

---

## Vertíðarannáll 1740.

Fátt er nú til fróa,
fer mig senn að óa,
kell á kjúku mjóa,
komin þykir Góa:
nú í sumars tekur til
tólftu viku að snjóa,
austanhríðar æsir byl,
alla þekur móa;
titra, streyma, tísta krár,
tún og engjar hylur snjár,

skeljar brár, en skaflinn hár
skellur upp til þjóa;
norpa rollur, nytin gár,
nautin hýma, lömbin, klár;
verðir fjár og veiga Gnár
vinda spjör og glóa;
svellur sæðið frjóa,
sýngur engin lóa,
skolar kjóa skall spóa,
hauðrið dunar, bylgjan brunar,
björg og malir hóa.
Vaknið, vinir sjóa!
vili þèr ekki róa?

---

## Annar vertíðarannáll samsumars.

Senn ógrynnir salla,
sama hljómar bjalla,
enn er fönn að falla,
fjórtan skertar kalla
vikur snáka vægis má,
vestangustar mjalla,
hikar láka hlæibrá
hlestan bustar skalla,

krapa drýpur klakin vök,
kvapa pípa nakin þök,
hrakar mök, en bakar blök
bikað okið fjalla,
vera spör um vaka kvök
vèr á stórum svaka rök,
raka hrök oss stjaka stök,
strýkja rokur allar,
hèr vill skúr ei halla,
hverr við stúrir dalla,
dúra, lalla, lúr gjalla,
votra titra totruslitra
tötrar út um hjalla;
skrýðir skreið um valla
skíðin reiðar palla.

## Byrjargæla.

Að kular óð gola súðum,
önd metur gröud vetur höndugt,
vogs lygnu vegs magnar dugsin
vein banda, mein handa reynast;
hátt veisa hnattgusur þèttar,
hrímkalda gímalda hlymur,
feig-blundar fágrendi lagar,
fyrr gnæpur hyrr æpir nýrum.

## Biðrauna-bragur,
eður
## Grímseyjar-gæla, 1737.

1. Dauf er nú sæla,
dynur að kæla,
dregur af gaman;
sig má hverr skæla
því Grímseyjar-gæla
grettir sig framan;
köld hríðarpæla,
kafþoku svæla
kveikir oss amann;
mig tekur að fæla
darkið ódæla
og dontið alltsaman.

2. Vindarnir baga
beinleiðið haga,
bjargþrotin tipta;
hart um sinn maga
hásetar klaga,
hljóp eg til skripta,
mig þeir út raga,
manandi jaga
mèr upp að lypta;
þokunnar kraga
þó lítt um daga
þykir mèr svipta.

3. Þeir segja leiði,
hrönn undir heiði
ef hálfa stund líta,
sex vikna breiði
sjórinn þó freyði,
sèr í hann flýta;
kalla með reiði
sè kjörbyrinn greiði
kafrokið hvíta;
formanna bleyði
skriplar á skeiði,
skást er að ýta.

4. Beiskur þeim harðnar
kurr ála kvarnar,
klènar um ætur
soltinnar arnar,
gaulandi garnar
gnýr í þeim lætur;
nefna sèr gjarnar
náðir afsvarnar,
ef núast á fætur;
skerð er von varnar
fjörbaugs ófarnar,
flest á þeim grætur.

5. Horfinn er leikur,
vafrar hverr veikur
í volæðis hraki,

sá er nú bleikur,
sem fyrr var keikur
sælkera maki;
hugraunir eykur,
hvergi fæst reykur
af hreinu tóbaki;
einn kúrir smeikur,
annar við steikur
erjar með svaki.

6. Þrengir æ frestur,
þjónustu-brestur
í þráviðra stampi,
er skórinn lestur,
engi fæst hestur
þó allir ber trampi,
til kirkjunnar beztur
bjóði þeim prestur,
þeir brosa í kampi;
máldofinn, hlestur
hverr er upp seztur
í hrakfarar plampi.

7. Hastar ókjörum,
herðir að smjörum,
hitt er átalið,
ei gefst að vörum
eitt korn af mörum,
allt er ramgalið;

nú þó vèr gjörum
úr Grímseyjar fjörum
gönuskeið valið,
viltir af knörum
vart niðri skörum,
og vesnar þá salið.

8. Mistur haf dylur,
mið öll afskilur
marar berglægja;
landnyrðíngs-bylur
þekjum á þylur,
þeim vill ei hægja,
einnig kvennylur
öllum sig hylur,
ísköld er blæja,
tær harkan mylur,
tanngarðinn kylur,
vèr tökum að æja.

9. Nú skal því heita,
nái eg til sveita
nokkuð sinn hèðan,
Grímseyjar reita
rèttopt ei leita
með rangskreiða sleðann,
lízt minni streita
lóð sína beita
á Látrasand, meðan

hinir með sveita
sundið afþreyta;
sann hef eg tèðan.

---

Illa fór ár mín í Ólafsfjarðar starfi,
blökin stór bar sín mèr bagi úr föðursarfi
vogs á jó vals-fín var lèttíngja þarfi;
keips æpir karfi.
Hana Jón hryggbraut Hallgrímsson á Ósi,
við árfrón vas hlaut vænu í sumars ljósi
stafaði lón, stutt skaut stórvirkjanna hrósi
sá bögu-bósi.

---

## Flateyjarför, 1756.

Viðkvæði: Hugurinn ferjar hálfa leið
(heiman opt í skyndi);
veit á neyð vakurt byrjað yndi.

1. Einu sinni flýtti eg förum
fimti liðs úr heimavörum,
sólar vinda siglukjörum
sætti geisla dags um skeið,
hugurinn ferjar hálfa leið;
lendíng hóf í Látra fjörum,
lóaði ekki að strindi;
veit á neyð vakurt byrjað yndi.

2. Fýsti mig að Flatey halda,
fæðuskortur kunni valda,
morgunbyrr í masturfalda
megn að Gjögrum innan reið, h. f. h. l.
Snögg á móti snèrist alda
snærð af norðanvindi; v. á n. v. b. y.

3. Rimbu svelja rak af Núpum,
rumbdi þrek í hlunna slúpum,
vesturfjarða vogs af djúpum
vagn að Þönglabakka skreið, h. f. h. l.
Grímur tvær í griðahjúpum
gáfu þar hlunnindi. V. á n. v. b. y.

4. Þriðja dags vèr þaðan snèrum,
þrumdi lóð af bylgju hverum,
austur senn til eyjar rèrum,
andhæf þótti kvikan breið — h. f. h. l.
För að Laugarfaðmi þverum
fögnuð trúi eg myndi — v. á n. v. b. y.

5. Hressir gengum upp á eyna,
ýmsir hýstu komusveina,
Þorgríms eg og Þórðar beina
þáði mest og litlu kveið — h. f. h. l.,
beggja sýndu bráins teina
beðjur óð hlynnindi; v. á n. v. b. y.

6. Meðan nætur þrjár af þreyðum
þar við kost af síldarheiðum,
messufengur varð í veiðum,
veittist huggun eptirþreyð — h. f. h. l.
mjólkur þurð og skort á skreiðum
skúfuðu kaupserindi. V. á n. v. b. y.

7. Feðgar þrír af föngum sínum
fríuðu annars þörfum mínum
meirr af vilja en mætti fínum,
mundu síður efnin greið — h. f. h. l.;
mörgum höfðu matarlínum
miðlað út í skyndi. V. á n. v. b. y.

8. Brátt sem krafði búin reisa,
burt úr Eiði gjörðum leysa;
drógst í hafið dimmuveisa,
drífan augum land af sneið — h. f. h. l.
upp réð stormur öldu geysa,
ögraði sævar hindi; v. á n. v. b. y.

9. Huldi foldu hefríngs mænir,
hátt um kletta bylgjan sprænir,
skoluðu súðir skaflar grænir,
skammt að vonum nóttin beið — h. f. h. l.
Þótti hrikta vegir vænir,
vægði kvíða lyndi; v. á n. v. b. y.

10. Rökkur dó við Riptatanga,
rauk þá Tröð og víkin langa,
braut að vörum boðan stranga,
berleg var á ferðum neyð — h. f. h. l.,
hásir lètum hljóðin ganga,
hvall í fjallatindi; v. á n. v. b. y.

11. Brá sèr upp hinn burðagóði
bóndinn Jón í vöskum móði,
örðugur fram að Ægis jóði
öllu heldur gekk en skreið — h. f. h. l.,
tók við oss og færði úr flóði,
fast þó yfir dyndi; v. á n. v. b. y.

12. Láðöggvaðir lægis hana
leiddum nagla stefnis vana
heim til bæjarhúsa rana,
heptir vèr um vikuskeið — h. f. h. l.
mjúka þerð og matseitlana
man eg sèrhverr fyndi; v. á n. v. b. y.

13. Til Hríseyjar sóktum síðan;
svall andviðris hörkustríðan;
tveggja nátta beinann blíðan
biðum enn, þó styrkti veið — h. f. h. l.
dró þá Kraka dóttir víðan
dúk um hæð og strindi; v. á n. v. b. y.

14. Mánudagsins morgunfarir
mosturteiga kvöddu skarir,
róður unnu rekkar snarir
raddarkyrra síls um heið — h. f. h. l.
Hóf sig loksins heim í varir
húnakarfinn blindi. V. á n. v. b. y.

15. Fjórtán daga ferðin hætti,
fjörð um sólar þorra gætti,
fjögra vikna forða rætti
fengin bráð um miðdagsskeið—h.f.h.l.,
vetri hálfum vorið þætti
voðastór harðindi; v. á n. v. b. y.

16. Lýkur staka leiðar mæðum;
Látur hlyti sneið af flæðum,
veiti að Flatey veiðargæðum,
vörð í fjörðum reiði skreið,
hugurinn ferist happaleið.
Hrísey kárs af heiðaræðum
hlýra kjöri eg fyndi;
veri neyð vakurt byrjað yndi.

## Tíðavísur frá 1757 til 1764.

### Árið 1757.

1. Enn er þrotin yfir löndum
árins tíða hríngur blár,
hèr umflotinn happa gröndum,
húngri lýða og missi fjár.

2. Uxu blikur úða sæðis
allan vetur næst liðinn;
seytján vikur nöðru næðis
nam aðsetur hafísinn.

3. Misstu bjargir menn og sauðir,
mar gaf engin höpp á land,
fjörsins margir furðu snauðir
frúr og drengir hittu grand.

4. Vorið ól oss mirju megna,
mjólkur brest og lamba tjón,
hauðrið kól, en heyið slegna
haustaðist í dyrðils frón.

5. Nú er fárið fimtán sinnum
fallið yfir land og ver:
þrautarárið þýngst í minnum
þetta lifir elztum hèr.

6. Ræður þó af raunadrögum
reynslu frekja til muni stá;
Horrebow í Hafnar lögum
heyrist vekja svoddan spá.

7. Ísland hnígur undir pressum,
eyðist kann ske furðu snart,
hætt að sígur hólmi þessum,
hafi hinn danski spádómsart.
8. Vitum ráð: að vaka og biðja,
vareygð ala, syrgja grönd,
stunda dáðir, ærlegt iðja
og allt befala Guði í hönd.
9. Lampa tvenna kífs í kyljum
kveiki menn um sinnuból,
þá mun enn af hefðar hyljum
heit upp renna friðarsól.
10. Oss þó hrygðir annars þrengi
öllu megin heims í rann,
sínar trygðir svarnar lengi
sundrar eigi Guð við mann.
11. Hans sè blóði hverr innlæstur
hals og vífs um Ísagrund.
Lifðu, bróðir! griðum glæstur
gegnum lífs og dauða stund.

## Árið 1758.

1. Úngan hefur aldaþátt
enn nú sólar hlýðir;
fönn af skefur, falda kátt
ferskar jólatíðir.

2. Vorra sveita mengi má
muna liðin dægur,
og því neitar enginn sá
inn var skriðinn gægur.

3. Svíun tára seggja lýð
sumpart er að frètta,
hefir ára tveggja tíð
tiptað hèrað þetta.

4. Nautum, sauðum lífið lest,
láð og strauma jakað,
refum, kauðum rifin hvesst,
ríka og auma blakað.

5. Sjást um ranna sundruð bú,
svo má fremur heyra
hnigin manna hundruð þrjú
hálfum þremur fleira.

6. Reppa skíða röstum kól
rètt sem grana sjúka;
kirkjulýður köstum fól
kistu-vana búka.

7. Náins túna muldu menn
málmi frerna stíu,
Hörg'dals krúna huldi senn
hauðri ferna tíu.

8. Yfirdunin þegna þrá
þýngstu galla veitir,
firnum hrunið fregna má
fólk um allar sveitir.

9. Sextán ára sèr enn byr
sókti neyðin stranga,
húngurs bára hèr ei fyr
hafði reið svo langa.

10. Nú í sumar næra tók
nytjar lands og flæða,
kosti guma kær tíð jók,
kunni stanza mæða.

11. Vildi höldum vetrar ró
vægur blanda kári,
byggist öldum betra þó
bjargarstand að ári.

12. Vendi bræði vinda frá,
veiti að oss gæti,
sára græði syndaþrá,
sendi skaðabæti.

13. Líknardóma leiði svar,
lífs ei ráð afsali,
rykktan skjóma reiðinnar
reifi náðar bali.

14. Meðan sýn ei dögum dvín,
datum lóð og flóði,
heillir brýni högum þín,
hjartans bróðir góði!

## Árið 1759.

1. Fagni tíðum frúr og menn,
fjörnæðingar hlýna,
jökulbygðum Janus enn
játar kveðju sína.
2. Gat Sylvestir árið ent,
er sig birti þegnum,
framan gylt og fagurrent
fjórar tíðir gegnum.
3. Veturinn rauður, vorið hlítt
vilkjör undir rætti,
sumarið fágað, haustið hlýtt
heillum unað þætti.
4. Mjólkur-vistir, feiti fjár,
ferskan lamba gróða
gaf oss liðið gæzkuár,
gjörði fæst að hnjóða.
5. Frjófsöm engi, fjöll og tún,
fjárins heimtur beztu
hlutum og á hauðurs-dún
hagnýtingar mestu.

6. Fiskur rann í fardögum,
fylgdi silúngsganga,
mergð af vetrar markálfum
mundu nokkrir fanga.

7. Rumdi skutuls rauða èls
reið um fliðru stakka,
nær sem hundrað námu sels
Nirðir auðs á Bakka.

8. Horfin þykir húngurstíð
hèr um bygðir flestar,
sýnum fjölga sjást um hlíð
sauðir, kýr og hestar.

9. Grímseyíngum vóx að vörn
veiðihappa gengi,
bjargnytjar og fiskiförn
fremur en áður lengi.

10. Lofi Drottin láð og sund,
ljós og vindar allir,
eldar, skúrar, myrkur, mund,
menn og engla hallir.

11. Skýrast mætti skeð í ár
skæð á vesturbólum
klausturbrenna kvendi sár
og kirkjurót á Hólum.

12. Heilsi tíðin þessi þèr
þýðast, kæri bróðir!
loptið, víðir, himins her,
hauður, blær og glóðir.
13. Þína fylli gæfugnótt
giptu dáða viður,
að þèr hyllist æfi rótt
æra, náð og friður.

## Árið 1660.

1. Lands og rasta lifni brár,
leiptur skin upp hefur,
sextugasta aldar ár
ofan heimi vefur.
2. Missiranna meðalkjör
menn í landi þáðu,
vorkuldanna forlöng för
fjánum kopa náðu.
3. Hákalsveiðar huldu sig,
hrognkelsinu bægði
gamms og reiðar gengd örlig,
gróði og nyt samþægði.
4. Þó nam sjatna sáð um völl,
seiddi vemblufóður,
skriðu og vatna skæð umföll
skemmdu bygðar rjóður.

5. Súgs ógrynni um sýslur þrjár
sóaði mörgum hnetti,
þreyr í minnum þorrafár
Þrúgsá hreint af setti.

6. Þar nýdáinn þegn Einar,
þiljað lík til jarðar:
viði Náins skör af skar
skeggöld Eyjafjarðar.

7. Var kafloðið Vaðlaþíng
vænum hökublóma;
er nú snoðið allt um kríng
yfir svörðum góma.

8. Svo hefir allan sveitarher
skigrað vennaræna,
öldum hallar eptir þèr,
ó þú skeggið væna!

9. Eg annála þín við þrot
þrúgun Norðlendínga,
reiðarabrjál og róstuskot,
restanzarnir springa.

10. Kaupskip eitt af kóngi sent
kom fyrir Norðurlandi,
vegaþreytt og villu spennt,
vörur smáreitandi.

11. Hèruð fjögur Hofs í ós
höfðu kaups að vitja;
megna klögun, magurt hrós
mundu þaðan flytja.

12. Brast þá flest, er beiddi þjóð,
Bleða Pens höndlara;
hrakið mest um heiðarslóð
hitti norðanfara.

13. Hvöss á runnu hregg um skörð,
hesta niður barði,
reipi, tunnur, reiða, gjörð,
rávið sundur marði.

14. Flöskutárið forgóða
fyrðum hvergi lypti;
þetta er árið andvana
ort í norðurstipti.

15. Burt er hlýi boðmálinn,
brullaupsöldin hýmir;
tukthúss nýi tollurinn
tal úr pýngjum rýmir.

16. Margt í róti fálma fer,
fossar blóð um löndin;
tíðar þrjóti mærðir mèr,
mæðist góma-röndin.

17. Kristí þjóðir kærleiks Guð
Krists að minnum ali;
þig svo, bróðir, þar við kveð,
þúsund sinnum vale!

## Árið 1761.

1. Setur mána systir enn
sextugasta og fyrsta
árið blána, beint er senn
ber við spána hvirfilinn.
2. Gætast aldar gylla brá
góu páskar núna,
þeirra taldan til að gá
tíma sjaldan ber upp á.
3. Vetrar blíðan var oss fyr
veitt að þorra dögum,
hvatti síðan heiðþyrnir
heldur tíðan kulda byr.
4. Fram þó rætti fjárins vörð,
fóðurleysur uxu,
lítt ómætti jökuð jörð
jó nè grætti sauðahjörð.
5. Listagóðar landsnytjar
leifði sumargengi,
himinglóðar heitt umfar
högum þjóðar yndi bar.

6. Undir Mikjálsmessu brá
mildviðranna kjörum,
dögg úr bliku dundi þá,
dreift á kvika rendi lá.

7. Hrikktu lengi hríðarsköll,
hafbrim undur jóku,
sáðist engi sökkva-mjöll,
sókti drengi veiðargöll.

8. Vindaljónið vægð af skar,
við svo margan hrylldi,
af því tjónið undir bar
út við frónið Grímseyjar.

9. Rann á bræði raunar hörð
reikun skips ollandi,
hristi bæði haf og jörð
Hrúngnis æði vítt um fjörð.

10. Feikna bárum fordrifnir
fimm þar vermenn sukku,
sóma klárum sveipaðir,
sorgartárum þreyðir hèr.

11. Horfnar grandi í Herrans skaut
hels úr mæðuköfum
frómar andir flug ei þraut;
fley við Strandir síðan braut.

12. Guð, sem hreina gaf þeim ró,
gat til sèð að þeirra
formanns eina fjörið þó
fárs við meinið land upp dró.

13. Svo forlögum sundur skipt
sjáum títt í heimi:
eins þá högum upp er lypt,
annars dögum burt er kippt.

14. Jesú rauða banablóð
blæði oss inn til hjarta
hvar sem dauða hittum flóð,
hels svo nauða lètti móð.

15. Vorrar hafnar væru skip
vikur fimm nú teppti,
rak á stafna grana grip
gráts, er drafnar ægði svip.

16. Aldar sá tíð útfarar
einvaldsstjórnar Dana,
júbilhátíð haldin var,
hvergi smá tíð minníngar.

17. Norðlands virðum nú í ár
nýttust hafnir fjórar,
vörubyrgðum hilmir hár,
haldinn kyrðum, enn fur stár.

18. Hjals úr álum heyra menn
hèr í Vöðluþíngi
kvennamálum kyljað enn,
króka-Njálum vísindin.
19. Mjög á dynur mörg og bráð
mistur-skúr í löndum;
happs ólinur hulinn dáð,
hvíldu, vinur, Guðs í náð!

## Árið 1762.

1. Lystugasta lýðum hár
ljóma reiðir skatyrnir,
sextugasta og annað ár
enn nú leiðir Sylvestir.
2. Haustið áður höldum kló
heilan vetur umliðinn,
sýkja náðu svalir þó,
sízt af lètu þurviðrin.
3. Yrjur nánar vals um veg
vogs á gröndum hlóðu snjá,
skrugga ránar skelfileg
skall að löndum tíð og há.
4. Fjölda manna feiknin sú
fremur vanda niður sló,
hafskipanna hundruð þrjú
hittu grand um norðursjó.

5. Boði slíkur senn í svip
sum á dundi kaupförin,
Húsavíkur-hafnar skip
hvergi fundið segja menn.

6. Markaðs-vörðinn Mikkels nið
man eg tregar landsins þjóð,
hrínga-jörðin hans þar við
heljar veg af sorgum tróð.

7. Frá eg sundruð fyr talin
fley Hollandi reiknuðust,
nær tvö hundruð önnur enn
umsiglandi förguðust.

8. Háskatíðir hylja þjóð,
heljarbaðið sækir önd,
grenjar viðir, beljar blóð,
brenna staðir, titra lönd.

9. Allar skjálfa hærur heims,
hefndir vekur synd eitruð,
sèrhver álfa sunnugeims
sortna tekur, vægi oss Guð!

10. Nú um liðin nokkur ár,
næstu tveggja misserin,
rekaviðinn reiddu skrár,
rauk þó beggja vorsvalinn.

11. Sels og veiðar safnið títt
sveitarlýðnum barst að hægð,
hákallsveiðar-happið lítt,
hrognkelsið af mestu nægð.

12. Langt á sólir septembris
svökul kjóatíðin var,
náðu bólin norðlendis
naumir þróa sáðkimar.

13. Til annála bar þó bygð
Bjarnardagur þorkaveið,
fylling ála fann ei brigð,
feginshagur lék um skeið.

14. Allar hafnir Ísalands
enn nú reiddi kóngur vor;
hers af safni hlaut ei vans,
hætt þó meiddi sig um spor.

15. Guð, sem ræður himni hár,
hraðan styði mildíngs fót,
unz í hæðir engla gár,
allir biði þess af rót.

16. Kristnum löndum kjósi grið,
kala þjóðir fati náð,
yztu gröndum varni við!
Vale, bróðir, alinn dáð!

# Árið 1763.

1. Dúrum kasta Dellíngs niðja
dafnar enn nú þor,
sextugasta sinn og þriðja
sett við aldar spor.

2. Missiranna margir hæfðu
meðal-kjörin fín,
útbygðanna yrjur gnæfðu
eptir vanda sín.

3. Fiskiveiðar, fjárins gengi,
frjófsemdir um láð
sömu leiðar mólu mengi
miðlúngs bjargarráð.

4. Sótt um alla sveit innleiddi
sumars-hátíminn,
vers og fjalla verkum eyddi,
vanaði heyskapinn.

5. Kvefs álögum kveinan sendi,
kröm og verkjar nauð,
hausts að dögum híngað vendi
Hollands bólan rauð.

6. Bygð á drifin barna krefur,
bana sumir fá,
öfug svifin alið hefir
austurlandi frá.

7. Tuttugu ára tölu hrínga
tína fræðin þekk,
síðan bára sú Vöðlínga
seinast yfir gekk.

8. Þá, sem hinnar ben ei biðu,
blakar þessi hætt,
nokkrir finna náins kviðu
numdir burt úr ætt.

9. Hèr þó tárum hreifi sorgar
heilsudáðin rýrð,
æru klárum unnt er borgar
upprisunnar dýrð.

10. Hulið bólu hold örenda,
Herrans viður dag,
fegra sólu fram mun venda
flotið yndishag.

11. Enn má þvínga aukinn skaði
einn við sumartóm:
Norðlendínga nú sölnaði
nýtast eðla-blóm.

12. Virtum hressti Vöðlu ranna
veldisprýðin rík,
jáður bezti jafni manna
Jón í Grenivík.

13. Ristnu gæddur, röksemd tamur,
rèttsýnn, allhygginn,
mjög guðhræddur, miskunsamur,
mikið hreinskilinn.

14. Hans í minnum vítt mun vara
valds-atgjörfið margt,
þúsund sinnum þó gnæfara
þiggja á himnum skart.

15. Heyrt er og að Hlíðarenda
höfðíngi sè frá,
lengi loga bráins brenda
bar auðvörður sá.

16. Von er þrotni valdarblómi,
valt er lánað pund;
felum Drottni fegins rómi
fjör á dauðastund.

17. Mörgu búa mæðustandi
meinin harma-dræg
selur nú á Suðurlandi
sauðapest óvæg.

18. Hníga margar hels á veisu
hjarðir plágaðar;
flýja vargar eins og eisu
ætur bannvænar.

19. Rotnar kjöt í feigðar fári,
fúna beinin hrá,
engin föt af húð nè hári
heldur verka má.

20. Nema skorið njóti blaka
nárum hvað á sèst,
þá er borið það án saka
þegnum hagnýtist.

21. Fælir nauðafregnin kalda
fjárauðgustu menn,
nokkrum sauð ei ná að halda,
naumast hirðstjórinn.

22. Vert er óttinn vaxi mönnum
viður svoddan nám:
*bólusóttin* banar mönnum,
*brunapestin* fjám.

23. Gæzkuríkur Guð oss vægi,
gjöldum hepti stig,
að híngað slíkur hefndarbagi
hætt ei rètti sig.

24. Vökum, biðjum, veinum, játum
vorra lasta gróm,
sæmdir iðjum, synd af látum,
svo mun fría dóm.

25. Guðs og manna ástir anna,
yndi góðum nær,
fylgd englanna, friðinn sanna
finndu, bróðir kær!

## Árið 1764.

1. Hreiðri tára hrjóður blár
heimsins norðlægasta
foldar nára fæðir ár
fjórða og sextugasta.
2. Vetrartíðir vofa lýð
veðráttunnar gengi,
þó um síðir kulda klíð
krimti vorið lengi.
3. Mergjar biti laufgræn-lit
lèttgæf heyin flýttu,
sultar hnit á sumar nyt
sauðfènaðar knýttu.
4. Hentu forða á humra storð
heppnar sela stengur,
sunnan norðan barst á borð
bezti þorska fengur.
5. Yfirtökum þoku þök
þetta sumar hæfði,
fylgdu rökum flóðin stök,
fjörur og hólma kæfði.

6. Haustsins blíða lèk við lýð
lengstum tvo mánuði,
nýjum kvíða nýr með hríð
nóvember hastaði.

7. Þenna sveitin síðan leit
sumarpáska vetur
fella hreitinn fönn um reit,
fast að jólum setur.

8. Burtu flúin birt er nú
bólan hafreikandi,
tafði snúin tiptan sú
tvö ár hèr í landi.

9. Fjárbólunnar förin kunn
fram sèr óðum hraða,
vægri en sunnan víða grunn
verka minni skaða.

10. Mynd er sú á mína trú
mannbólunnar galla,
krefðu-bú og kauna-grú
krökk á pening falla.

11. Höldar melja hrúðurs þel,
hrífur kláðinn rauður,
þó að telja þiggur hel
því nær enginn sauður.

12. Fjörs óhægð er fjánum lægð,
frá eg kvikt ei rotni,
þessa vægð og þarfanægð
þakki lýðir Drottni.

13. Happaþáttur hljómar dátt,
hefir af stygðum vöndum
Guðs almáttur grið og sátt
gefið Norðurlöndum.

14. Styrjar flóð um lög og lóð
lengi þjóðir mæddu,
ránið óð en rigndi blóð,
rönd og glóðir æddu.

15. Nú er þetta niður sett,
náðir löndin hressa,
sáttmál stètta sönn upp rètt,
súngin þakkarmessa.

16. Himnasmiður haldi við
hollum friðarlögum,
unz að miðar ama-nið
æðstu griðar dögum.

17. Við nú stanzar vísir lands
vorar hafnir reiða,
fimm án vanza fargjörð hans
fundum árin leiða.

18. Sama tíðin þènti þíð
þessum norðurbólum,
kostaprýðis kirkjusmíð
kóngs að vanda á Hólum.
19. Múrs af steinum mjallahrein
mynduð forglansandi,
hólfs er teinum hagsett ein
herlegust í landi.
20. Stendur búin Friðreks frú
frægum herra Gísla,
heyrði trúin hennar nú
helgun við að sýsla.
21. Tignuð hæstum Guði glæst
grið hin beztu kanni,
signuð æðstum sjóla næst
sóma biskups anni.
22. Þrifni sveit, er þokka-neyt
þessum starfa sinnti,
og mæðuheit í mörgum reit
merkan dugnað innti.
23. Fækka ljóða-förin móð,
fellur óðar gengi;
Krists í blóði kjörin góð
knúðu, bróðir! lengi.